# Passiu Hugvekjur

til

## Qvøld-lestra,

frá byrjun

Lánga-føstu til Páska,

frítt útlagdar eptir

Christópher Christjáni Stúrm,

af

Markúsi Magnússyni,
Stipt-prófasti, Prófasti í Kjalarness-þíngi og Sóknar-presti til Garda og Bessastada.

II. Bindi.

Selst almennt innbundid 51 skild.

Leirárgørdum vid Leirá, 1802.
Prentad á kostnad Íslands konúnglegu Uppfrædingar Stiptunar,
af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

# Jesú Krists Pislar Saga.

## Fyrsti Partur.

Og þá þeir høfdu lofsaunginn súngid, géck Jesús út, sem hann var vanur, yfir um lækinn Kedron til fjallsins Olíveti, en hans lærisveinar fylgdu honum eptir. Þá sagdi hann til þeirra: á þessari nóttu munud þér allir hneixlast á mér, þvíad skrifad er: hyrdirinn mun eg slá, og saudir hjardarinnar munu í sundurtvístrast; en nær eg rís upp aptur, þá mun eg gánga fyrir ydur í Galíleam. Pétur svaradi og sagdi til hans: þó allir hneixli sig á þér, þá skal eg þó aldrei hneixlast. Jesús sagdi til hans: sannlega segi eg þér, ad í dag, ádur enn haninn galar tvisvar, muntú afneita mér þrisvar. En Pétur taladi þá enn frekar: já, þó eg ætti ad deyja med þér, þá skal eg ecki afneita þér; slíkt hid sama søgdu allir lærisveinarnir. Þá kom Jesús med þeim í þad akur-gérdi, sem hét Gethsemane,

þar var grasgardur, þar' géck Jesús inn og hans lærisveinar, en Júdas, sá ed sveik hann, vissi og þennañ stad, þvíad Jesús safnadist opt þángad med sínum lærisvein um. Þá Jesús kom í þañ stad, sagdi hañ til siña lærisveina: setjid ydur hér, á med-an eg fer burt og bidst þar fyrir. Bidjid, svo þér fallid ecki í freistni. Og hann tók med sér Pétur, Jakob og Jóhannes, þá tvo sonu Zebedæi, og tók til ad hriggjast, titra af hrædslu og harmþrúnginn ad verda, og þá sacdi hann til þeirra: mín sála er hrigg allt í daudañ, blífid hér og vak-id med mér. Og hañ sleit sig í burtu frá þeim, og géck litlu fram lengra, nær einu steinsnari, og kraup á kné, féll fram á sína ásjónu til jardar, og bad: ef þad mögulegt væri, ad sú stund hjá sér lidi, og sagdi: miñ fadir! ef mögulegt er, þá víki þessi kaleik-ur frá mér; Abba, fadir miñ! allt er þér mögulegt, tak burt þeña kaleik frá mér, þó ecki hvad eg vil, heldur hvad þú vilt. Og hann kom til sinna lærisveina og fann þá sofandi, og sagdi til Péturs: Simon! sef-ur þú? formáttir þú ecki eina stund ad vaka med mér? vakid og bidjid, svo þér fallid ecki í freistni; andiñ er reidubúiñ, en holdid er veikt. Í annad siñ géck

hann

hann enn burt aptur, badst fyrir, taladi þeim sømu ordum, og sagdi: miñ fadir! ef þad er ecki møgulegt, ad þessi kaleikur vĭki frá mér, utan eg drecki hañ, þá verdi þinn vilji. Og hann snéri aptur, kom og fann þá enn sofandi, þvíad þeirra augu vóru þrúngin af svefni, og þeir vissu ecki hvørju þeir svørudu honum. Og hañ skildi vid þá, og géck burt aptur, og bad í þridja sinn med sømu ordum, og sagdi: fadir! ef þú vilt svo, þá tak þenna kaleik frá mér, þó ecki miñ, heldur verdi þinn vilji. En honum birtist engill af himni, sá ed styrkti hañ. Og þá hann var staddur í daudans stríbi, tók hañ ákaflega ad bidja. En hans sveiti vard svo sem blódhniklar, þeir ed féllu á jørdina. Og hann stód upp frá bæninni, og kom til sinna lærisveina í þridja sinn, og fann þá sofandi út af hrigd, og sagdi til þeirra: sofid þér nú þad eptir er og hvílist? hvad! sofid þér? þad er nóg, standid upp og bidjid, svo þér fallid ecki í freistni. Sjáid! sú stund tekur ad nálgast, og er komin, ad mannsins son mun ofurseljast í syndugra hendur; standid upp og gaungum hédan, sjáid! sá ed mig svíkur, hañ er í nánd.

## Annar Partur.

Og jafnsnart, sem hann var enn ad tala um þetta, sjá! einn af þeim tólf, sem Júdas hét, þá er hann hafdi nú til sín tekid flock manna, og þénara Kéñimaña-høfdíngjanna og Pharísæanna, kom hañ þángad, og med honum flockur mikill, med blísum, lømpum, sverdum, staungum og vopnum, útsendir af Kéñimaña-høfdíngjum, Skriftlærdum og Oldúngum, og hañ géck fyrir þeim. Sem Jesús vissi nú allt hvad yfir hann átti ad koma, géck hañ fram og sagdi til þeirra: ad hvørjum leitid þér? þeir svørudu honum: ad Jesú af Nazareth. Jesús sagdi til þeirra: eg em hann. En Júdas sá ed sveik hañ, stód eiñig hjá þeim; en sem Jesús sagdi til þeirra: eg em hann, hørfudu þeir bak aptur og duttu til jardar. Hann spurdi þá enn einusinni: ad hvørjum leitid þér? en þeir søgdu: ad Jesú af Nazareth. Jesús svaradi: eg sagda ydur þad, eg em hañ: þar fyrir, ef þér leitid ad mér, þá látid þessa í burt fara. Svo ad uppfylltist þad ord, hvad hann hafdi sagt: ad engum glatadi eg af þeim, sem þú gafst mér. (Jóh. 17.) En svikarinn hafdi gésid þeim sameginlegt teikn,

teikn, og sagt: hvørn hellst eg kyssi, sá er þad, grípid hañ og leidid í burtu vareygdarlega. Og þá hann kom, nálgadist hann Jesúm ad hann kyssti hann, og jafnsnart géck hann til hans og sagdi: heill sértú, Rabbi! og kyssti hann. En Jesús sagdi til hans: vinur! hvar fyrir ertú komiñ? Júda! svíkur þú mannsins Son med kossi? Þá gengu þeir þángad og løgdu sínar hendur á Jesúm og gripu hann. En þá ed þeir, sem hjá honum vóru, sáu hvad verda vildi, søgdu þeir til hans: Herra! skulum vér slá med sverdi? og sjá! ad einn af þeim, sem med Jesú vóru og þar stódu, Símon Pétur, hafdi eitt sverd, rétti út høndina og ryckti því, og sló til Presta-høfdíngjans þénara, og hjó af honum hans hid hægra eyra, og sá þénari hét Malchus. En Jesús svaradi og sagdi: leyfid einúngis þetta! og hañ áhrærdi hans eyra og læknadi hann. Og hann sagdi til Péturs: sticktú þínu sverdi í slídrir, því ad hvørr ad sverdid tekur, sá mun fyrir sverdi farast; eda meinar þú ad eg kunni ecki nú ad bidja minn Fødur, þad hann sendi mér meir enn tólf legíón engla? skal eg ecki drecka þañ kaleik, hvørn ed minn Fadir hefir mér géfid? en hvørnig

skyldu þá ritníngarnar uppfylltar verda? því þad hlýtur svo ad ské. Á þeim tíma svaradi Jesús og sagdi til fólksins og þeirra Presta-høfdíngja, og Hofudsmanna musterisins og Oldúnganna, sem til hans vóru komnir: þér erud svo sem til annars ræníngja útgengnir med sverdum og staungum ad grípa mig. Daglega hefi eg hjá ydur verid, setid og kénnt í musterinu, og þér hafid engar hendur á mig lagt, og ecki gripid mig, heldur er þetta ydar tími og makt myrkranna, svo ad Ritníngarnar uppfylltust. En allt þetta er skéd, svo ad uppfylliſt Ritníngar Spámannanna. Þá forlétu hann allir lærisveinarnir og flýdu. Og þar var úngur madur, sá er honum eptir fylgdi, hann var med líni klæddur yfir bert hørund, og úngmenni gripu hann; en hann snaradi línklædinu og flýdi nakinn í burt frá þeim.

## Þridji Partur.

En flockurinn og hinn ypparsti Hofudsmadur, og þénarar Gydínganna gripu Jesúm og bundu hann, og leiddu hann fyrst burt til Hannam, sá var fadir konu Kaiphasar, hvørr ed þá var þess árs ædsti Prestur, og þeir burtleiddu Jesúm fángi-

inn til Kaiphasar Kénnimanna-høfdíngja, en Kaiphas var sá, sem Gydíngum gaf þad rád, ad betur færi þad einn madur dæi fyrir folkid. Og þeir innleiddu hann í hús þess ypparsta Prests, þar ed med honum allir Kénnimanna-høfdíngjar, Skriftlærdir og Øldúngar vóru samankomnir. En Símon Pétur fylgdi Jesú eptir álengdar, allt í forstofu Kénnimanna-høfdíngjans, og einn annar lærisveinn, sá sami lærisveinn var kunnugur Kénnimanna-høfdíngjanum, og géck inn med Jesú í forstofu Kénnimanna-høfdíngjans, en Pétur stód þar úti fyrir dyrunum. Þá géck út sá annar lærisveinn, sem Kénnimanna-høfdíngjanum var kunnugur, og taladi vid dyravørdslu konuna, og leiddi Pétur inn lengra í forstofu Kénnimanna-høfdíngjans, og hann géck inn, því ad þénararnir høfdu eld qveiktann í midri forstofunni og setst til samans, en Pétur setti sig á millum þeirra og vermdi sig vid logann, ad hann sæi hvørr endir þar á yrdi. En Pétur sat utar í forstofunni, og þar hann var fram betur í forstofunni, kom ein af ambáttum Kénnimanna-høfdíngjans, og þá hún leit Pétur sitja vid logann og verma sig, leit hún til hans og stardi

á hann, géck til hans og sagdi: hvørt ert þú og einn af þess manns lærisveinum? og þú varst med Jesú þeim galílæiska af Nazareth. En hann afnejtadi honum fyrir øllum, segjandi: kona! ecki er eg, eg þecki hann ecki, og ecki veit eg hvad þú segir; og hann géck út í fordyrid, og haninn gól. En þrælarnir og þénararnir stódu, sem gjørt høfdu kola-eld, og vermdu sig, þvíad kuldi var. Pétur stód þar hjá þeim og vermdi sig. En Kénnimanna-høfdínginn spurdi Jesúm þá ad um hans lærisveina og hans kénníngu? og Jesús svaradi honum: eg hefi opinberlega talad í heiminum: eg hefi og med jafnadi kénnt í samkundu-húsum og í musterinu, þar ed Gydíngar allstadar ad koma til samans, og eckért hefi eg í leynum talad; hvad spyr þú mig ad þessu? spyr þú þá þar ad, sem heyrt hafa hvad eg hefi talad til þeirra; sjá þú! þeir hinu sømu vita hvad eg hefi sagt; en sem hann taladi þetta, gaf einn þénaranna, sem þar stód hjá, honum kinnhest, og sagdi: skaltú svo svara Biskupinum? Jesús svaradi: hafi eg illa talad þá bevísa þad, ad þad sé órétt, en hafi eg satt sagt, hvar fyrir slær þú mig? og Hannas sendi hann bundinn til Kaiphasar

Kénni-

Kénnimanna-hofdíngja. En ambáttin, þar hún sá Pétur, tók hún aptur til ad segja þeim, sem þar hjá stódu: þessi er einn af þeim; en sem hann géck út um dyrnar, leit hann ønnur ambátt, og sagdi til þeirra, sem þar vóru: þessi var og med Jesú af Nazareth. Og litlu þar eptir sá hann einn añar og sagdi: þú ert og einn af þeim. Og Símon Pétur stód þar og vermdi sig; þá toludu þeir til hans: ertú af hans lærisveinum? og í annad sinn neitadi Pétur aptur med eidi og sagdi: madur! ecki em eg, ecki þecki eg þañ mañ, En þeir ædstu Prestar og Oldúngar, og allt Rádid leitudu ljúgvitna í gégn Jesú, svo ad þeir gætu honum í hel komid, og fundu ecki; og þó margir ljúgvottar gengi þar fram ad, þá fundu þeir eckért; því ad margir báru falsvitni móti honum, en þeirra vitnisburdir vóru ecki samhljóda. En ad sídustu stódu upp og gengu fram nockrir tveir falsvottar, og báru ljúgvitni á móti honum, og søgdu: vér høfum heyrt hann segja: eg kann og vil nidurbrjóta þetta musteri Guds, sem med høndum er gjørt, og á þremur døgum uppbyggja annad, þad ecki er med høndum gjørt; en þeirra vitnisburdir urdu enn þá ecki

sam-

samhljóda. Sá ædsti Prestur stód þá upp midt á millum þeirra, spurdi Jesúm ad, og sagdi til hans: svarar þú engu? hvad vitna þessir á móti þér? en Jesús þagdi og svaradi engu. Þá ansadi enn aptur sá ædsti Prestur, spurdi hann ad, og sagdi til hans: ertú Kristur, sonur þins blessada? eg særi þig vid lifanda Gud, ad þú segir oss, ef þú ert Kristur, sonur Guds? Jesús sagdi til hans: þú sagdir þad, eg em; en þo segi eg ydur: hér eptir munud þér sjá mannsins son sitja til hægri handar kraptarins, og komanda í skýjum himins. Þá reif Kénnimanna-höfdíngiñ sín klædi í sundur, og sagdi: hañ gudlastar. Hvad þurfum vér nú framar vitnaña vid? sjá! þér heyrdud nú sjálfir hans gudlöstun. Hvad vyrdist ydur? en þeir fordæmdu hañ allir, svörudu og sögdu: hann er daudans sekur. Og litlum tíma þar eptir, nær einni stundu, styrkti einhvörr annar þad, og sagdi: ad sönnu var og þessi med honum, þvi hann er Galílæari. Og aptur gengu þeir ad, er hjá stódu, og sögdu til Péturs: sannarlega ertú af þeim, þvíad þitt túngumál er samhljoda og opinberar þig. Þá sagdi einn af Kéñimaña-höfdíngjans þénurum, frændi þess, sem Pét-

ur hjó af eyrad: sá eg þig ecki í grasgardinum med honum? þá neitadi Pétur því enn aptur, og sagdi: madur! ecki veit eg hvad þú segir. Þá tók hann til ad formæla sér og sverja: ecki þecki eg þañ mañ, um hvørn þér talid. Og jafnsnart, er hann nú taladi enn framar, gól haninn í annad sinn, og Drottinn snéri sér vid, og leit til Péturs, og Pétur minntist ordaña Jesú, er hann hafdi sagt til hans: ádur eñ haninn galar tvísvar, muntú afneita mér þrísvar; og hann géck út og grét beisklega. Þá tóku nockrir ad spýta á Jesúm, í hans ásjónu, og bördu hann med knefnum, en þénararnir og þeir menn, sem héldu Jesú, dárudu hañ og slóu, byrgdu hans ásjónu og slóu hann med knefum, spurdu hann og sögdu: spá þú oss, hvørr er sá þig sló? og margt añad háduglegt sögdu þeir vid hañ.

## Fjórdi Partur.

Og strax om morguninn, er dagur var, söfnudust saman og héldu rádstefnu allir ædstu Prestar med Öldúngum lýdsins og Skriftlærdum, og þaradauk öllu Rádinu, móti Jesú, svo ad þeir gætu honum í hel komid, og leiddu hann upp fyrir sitt Rád,

og

og sögdu: ef þú ert Kristur, seig oss þad? og hann sagdi til þeirra: ef eg segi ydur þad, þá trúid þér því ecki, en ef eg spyr ydur, þá svarid þér mér ecki, eda látid mig lausann. Nú hédan í frá mun mañsins Sonur sitja til hægri handar Guds kraptar. En þeir sögdu allir: ertú þá Guds Sonur? hann sagdi þá til þeirra: þér segid þad, eg em hann. Þá sögdu þeir: hvad þurfum vér nú vitnisburdinn lengúr, vér sjálfir heyrdum þad af hans muñi. Og allur sá skari þeirra stód upp og bundu Jesúm, og leiddu hann í burt frá Kaiphasi og í þínghúsid, og ofurseldu hann Landsdómaranum Pontió Pílató; en þad var snemma morguns. Þá er Júdas, sá er hann hafdi for-rádid, sá þad hann var til dauda dæmdur, ydradist hann þess, og færdi aptur þeim ædstu Prestum og Öldúngum þá þrjáthgir sylfur-penínga, og sagdi: syndgad hefi eg, ad eg for-réd saklaust blód; en þeir sögdu: hvad kémur þad vid oss? sjá þú þar fyrir. Og hann snaradi þeim sylfur-peníngum í musterid, skundadi þadan, géck í burt og hengdi sjálfann sig. En þeir ædstu Prestar tóku sylfur-peníngana, og sögdu: ecki hæfir ad vér látum þá í Guds kistuna, þvíad þad er blóds-

blóds-verd. En þeir héldu ráð, og keyptu med þeim Leirsmids-akur, framandi mønnum til greftrunar. Fyrir það, er sá akur kalladur blóds-akur, allt til þessa dags. Þá er uppfyllt hvad sagt er fyrir Jeremíam Spámann, segjandi: þeir tóku þá þrjátýgir sylfur-peninga, er hinn seldi var med betaladur, hvøru þeir keyptu af Israels børnum, og hafa géfid þá fyrir Leirkérasmids-akur, eptir því, sem Drottinn hafdi mér bodid. Og Høfud-prestarnir og Œldúngarnir, géngu ecki sjálfir inn í þínghúsid, ad þeir saurgudust ecki, heldur svo þeir mættu neyta Páskanna. Pílatus géck þá út til þeirra og sagdi: hvørja ákjæru færid þér ígégn þessum manni? þeir svørudu og søgdu til hans: ef þessi væri ecki íllrædis-madur, þá hefdum vér ecki í hendur fengid þér hann. Þá sagdi Pílatus til þeirra: takid þér hann þá og dæmid eptir ydrum løgum. Gydíngar søgdu til hans: oss leyfist ecki ad lífláta nockurn, svo ad þad ordid Jesú uppfyllt-ist, er hañ sagdi, teiknandi þar med, hvørjum dauda hann skyldi deyja. En Jesús stód frammi fyrir Landsdómaranum. En þeir tóku ad áklaga hann, og søgdu: þenna finnum vér ad hann frásnýr fólk-

inu,

inn, og fyrirbýdur skatt ad gèfa Keisaranum, og segir sig ad vera Kónginn Kristum. Þá gèck og í annad sinn inn Landsdómarinn Pílatus, kalladi Jesúm, og sagdi til hans: ertú Köngur Gydínga? Jesús svaradi: talar þú þad af sjálfum þèr, eda hafa adrir sagt þèr þad um mig? þá svaradi Pílatus: er eg nockud Gydíngur? þín þjod og Kènnimanna-höfdíngjar ofurseldu þig mèr; hvad hefir þú gjört? Jesús svaradi: mitt ríki er ecki af þessum heimi, ef ad mitt ríki væri af þessum heimi, þá mundu mínir þènarar strída þar fyrir, svo ad eg ofurseldist ecki Gydíngum, en nú er mitt ríki ecki þadan. Þá sagdi Pílatus til hans: ertú þó samt Köngur? Jesús svaradi, og sagdi til hans: þú segir þad, eg em og Köngur, til þess er eg fæddur og í heiminn kominn, ad eg beri vitni sannleikanum, og hvørr hann er af sannleikanum, sá heyrir mína rødd. Pílatus sagdi til hans: hvad er sannleikurinn? og þá hann hafdi þetta sagt, gèck hann út aptur til Gydínga, og sagdi til þeirra yppurstu Presta og til lýdsins: enga søk finn eg med þessum manni. Og Höfud-prestarnir áklögudu hann hardlega. Og sem hann áklagadist af þeim

ædstu

ædstu Prestum og Oldúngum, svaradi hann engu. Pílatus spurdi hann aptur ad, og sagdi til hans: svarar þú engu? heyrir þú ecki? sjá! hvørsu hardlega þeir áklaga þig. En Jesús svaradi hónum engu framar til nockurs ords, svo Landsdomarinn undradist þad nærsta. En þeir vóru þess ákafari og sögdu: hann hefir uppæst folkid, med því hann hefir kénnt á øllu Gydíngalandi, og hefir tiltekid í Galílæa, allt hingad. En er Pílatus heyrdi Galílæam nefnda, spurdi hann ad: hvørt hann væri Galílæari? og er hann fornam ad hann var undir Herodis veldi, sendi hann hann burt til Heródesar, sem einnig var á þeim sömu døgum í Jerúsalem. En er Herodes sá Jesúm, vard hann nærsta gladur, þvíad hann hafdi fyrir laungu girnst ad sjá hann, af því hann hafdi margt heyrt af honum, og hann vænti ad hann mundi sjá teikn af honum, og adspurdi hann á marga vega, en hann svaradi honum engu. En Kénnimanna-høfdíngjar og Skriftlærdir, stódu og ásøkudu hann hardlega, en Herodes, med sínum stríds-mønnum, forsmádi hann og spottadi, færdi hann í hvítt fat, og sendi hann aptur til Pílat-

 um,

um. Og á þeim degi urdu þeir Pílatus og Herodes vinir aptur, þvíad ádur vóru þeir óvinir sín á milli. En Pílatus saman-kalladi Presta-høfdíngja og Høfuds-meñ og lýdinn, og sagdi til þeirra: þér hafid þeñañ mann til mín haft, svo sem þann er fráснýr fólkinu, og sjáld! eg hefi yfir-heyrt hann hér fyrir ydur, og á þessum manni finn eg enga af þeim søkum, hvar um þér klagid hann, og ecki heldur Heródes, þvíad eg sendi ydur til hans, og sjáid! eckért er af honum gjørt þad dauda sé verd-ugt, fyrir því vil eg refsa honum og láta lausann. En á hátídar deginum hlaut Landsdómariñ, eptir venju, fólkinu laus-ann ad láta einhvørn bandíngja, hvørn helst þeir vildu, og eptir hvørjum þeir beiddust. En þá hafdi hañ nafnkénndann bandíngja framar ødrum, sá ed Barabb-as hét, med upphlaups-møñum bundinn, hvørjir í upphlaupinu høfdu víg unnid. Sem þeir vóru til samans komnir, sagdi Pílatus til þeirra: þad er ydar sidvenja, ad eg gési ydur einn lausann á páskum; og fólkid kalladi upp, og tok til ad bidja: ad hann vildi gjøra sem hann væri vanur. En Pílatus svaradi þeim og sagdi: viljid þér ad eg gési ydur nú Gydínga Kónginn

laus-

lausann? hvørn viljid þér ad eg géfi ydur lausann, Barabbam eda Jesúm, sem kallast Kristur (því hann vissi vel ad Hofud-prestarnir høfdu af øfund ofurselt hann). Og sem hañ sat á domstólnum, sendi hans húsfrú til hans, og lét segja honum: haf þú eckért ad gjøra med þann réttláta, því margt hefi eg lidid í dag í draumum fyrir hann. En þeir ædstu Prestar og Oldúngar rédu fólkinu og eggjudu, ad þad skyldi bidja: ad hann gæfi þeim miklu heldur Barabbam lausann, en Jesúm skyldu þeir deyda. Þá svaradi Landsdómarinn Pilatus, og sagdi til þeirra: hvørn af þessum tveimur viljid þér ad eg láti ydur lausann? þá kalladi upp allur hópurinn, og sagdi: tak burt þennann og géf oss Barabbam lausañ. Þá svaradi aptur Pilatus, kalladi og sagdi til þeirra, og vildi Jesúm lausann láta: hvad viljid þér þá ad eg skuli gjøra vid Jesúm, af hvørjum sagt er, ad hann sé Kristur, Kongur Gydínga? en þeir kølludu þá allir aptur upp, og søgdu: krossfestist hann! krossfestú hann! Þá sagdi Landsdómarinn enn í þridja sinn til þeirra: hvad íllt hefir þá þessi gjørt? enga dauda-søk finn eg med honum, fyrir því vil eg hegna honum, og láta hann lausañ.

En þeir kølludu því meir, segjandi: krossfestist hann! krossfestú hañ! og allir kølludu aptur, segjandi: ecki þennañ, heldur Barabbam! en Barabbas var ræníngi, hvørr ed var fyrir upphlaup og mannslag, er skéd var í borginni, innsettur í fángelsi. Og þeir stódu því fastara þar á, med miklum hljødum, óskandi ad Jesús yrdi krossfestur, og þeirra hljód og Høfud-prestañá tóku yfir. Þá tók Pílatus Jesúm og húdstrýkti hann, en strídsmenn Landsdómarans tóku hann, og leiddu hann med sér iñí þínghúsid, kølludu saman og søfnudu ad honum øllu lidinu, afklæddu hann, og færdu hann í purpura-kápu, fléttudu kórónu af þyrnum, og settu hana á hans høfud, og reyr í hans hægri hønd, beygdu knè fyrir hø,'num, spjødu hañ og tóku ad heilsa honum, og søgdu: heill sértú! Konúngur Gydínga! gáfu honum pústra og hræktu á hann, tóku reyrinn og børdu um hans høfud, féllu á kné og tilbádu hann. Þá géck Pílatus út aptur og sagdi til þeirra: sjáid! eg leidi hann nú út híngad til ydar, svo ad þér vitid þad eg finn enga søk med honum. Svo géck Jesús út, berandi þyrni koronu og purpura-klædid, og hann sagdi til þeirra: sjáid manninn! Þá er Kénnimanna-

manna-hofdíngjarnir og þénararnir sáu hann, kölludu þeir og sögdu: krossfestú! krossfestú! Pílatus sagdi til þeirra: takid þér hann og krossfestid, þvíad eg finn enga sök med honum. Þá svörudu honum Gydíngar: vér höfum lög, og eptir vorum lögum á hann ad deyja, því hann gjördi sig sjálfann ad Guds syni.

## Fimti Partur.

Þá Pílatus heyrdi þad ord, óttadist hann enn meir, og géck aptur í þínghúsid, og sagdi til Jesúm: hvadan ertú? en Jesús gaf honum eckért svar. Þá sagdi Pílatus til hans: talar þú ecki vid mig? veitstú ecki, ad eg hefi rád til ad krossfesta þig, og eg hefi rád til ad géfa þig lausann? Jesús svaradi: ecki hefdir þú nockurt vald yfir mér, nema þér væri géfid þad hér ad ofan, fyrir því hefir sá meiri synd, er mig ofurseldi þér. Og eptir þad leitadist Pílatus vid, hvörnig hann gæti látid hann lausann. En Gydíngar hrópudu, og sögdu: ef þú lætur þennann lausann, þá ertú ecki Keisarans vinur; þvíad hvörr, sem sig gjörir ad Konúngi, hann er á móti Keisaranum. Þá Pílatus heyrdi þad ord,

leiddi hann Jesúm út, og setti sig á dómstolinn, í þeim stad, sem kallast hin steinlagdi, en á h brefku Gabbatha, en þad var adfánga-dagur Páska, nærri sjöttu stundu. Þá ségir hann og til Gydínga: sjáid! þad er ydar Kóngur, en þeir kölludu, burt, burt med hañ, krossfestú hañ. Pílatus sagdi til þeirra: skal eg krossfesta ydar Konúng? Kénnimaña höfdíngjarnir svörudu: engann Konúng hofum vær, nema Keisarann. Þá er Pílatus sá þad, hann kom engu til vegar, heldur þad, ad þar yrdi enn meira upphlaup af, tók hañ vatn, og þvodi hendurnar fyrir fólkinu, og sagdi: saklaus em eg af blódi þess hins Réttláta, sjáid þér til! þá svaradi allur lýdur, og sagdi: hans blód komi yfir oss og yfir born vor. En Pílatus þenkti fólkinu fullnægju ad gjöra, og dæmdi ad ské skyldi þeirra beidni, gaf þeim Barabbam lausann, sem inn var settur fyrir upphlaup og manndráp í myrkva-stofu, um hvörn þeir bádu; en Jesúm húdstrýktann framseldi hann þeim, eptir þeirra vilja, ad hann krossfestur yrdi. Þá tóku þeir Jesúm, eptir þad þeir höfdu spottad hann, færdu hann úr purpura kápunni, og færdu hann í sín egin klædi, og leiddu hañ út,

út, ad þeir krossfestu hann, og hann bar sinn kross og gêck út. En í því þeir gengu og leiddu hann út, fundu þeir mann, sem fram hjá gêck af Cyrene, Símon ad nafni, hvørr ed kominn var af akri, fødur þeirra Alexanders og Rúffi, hann høndludu þeir, og þreyngdu honum ad hann bæri hans kross, og løgdu krossinn uppá hann, ad hann bæri hann eptir Jesú. En honum fylgdi mikill fjøldi fólks og qvenna, hvørjar ed grétu og hørmudu hann; en Jesús snérist til þeirra og sagdi: þér dætur af Jerúsalem! grátid ecki yfir mér, heldur grátid yfir ydur sjálfum og yfir børnum ydar; því, sjáid! þeir dagar munu koma, á hvørjum þeir segja: sælar eru óbyrjur, og þeir qvidir, er ecki hafa fædt, og þau brjóst, hvør ecki vóru mylkt. Þá munu þeir taka ad segja fjøllunum: hrynjid yfir oss, hálsunum: hyljid oss. Ef þeir gjøra þetta vid hid blómgada tréd, hvad mun þá ské vid hid þurra? En tveir spillvirkjar leiddust og út, ad þeir væru afteknir med honum; og þeir leiddu hann í þann stad, sem kallast á hebresku Golgatha, hvad ed þýdist: Hausaskélja-stadur, og þeir gáfu honum ad drecka í víni myrru og edik galli blandad, og

hann tók þad ecki til sín, því þá hañ smack-
adi þad, vildi hann ecki drecka. Og sem
þeir komu í þann stad, er kaladist Høfud-
skélja stadur, þar krossfestu þeir hann, og
med honum tvo ræníngja á bádar sídur,
einn til hægri handar og annann til hinn-
ar vinstri, en Jesum í midid. En þad var
nær um þridju stundu, er þeir krossfestu
hann; þá vard sú Ritníng uppfyllt, sem
segir: medur íllvirkjum er hann reikn-
adur. En Jesús sagdi: **Fadir! fyrir-
gef þeim, þvíad þeir vita ecki hvad
þeir gjøra.** Pílatus skrifadi þá yfir-
skrift, og setti hana upp yfir krossiñ, upp-
yfir hans høfdi festu þeir hans dauda sok.
En yfirskriftin og hvør sok honum var géf-
in, var ritud yfir honum med grískum, lá-
tínskum og hebreskum bokstøfum: **þessi
er Jesús af Nazareth, Konúngur
Gydínga.** Þessa yfirskrift lásu margir
af Gydíngum, þvíad sá stadur var nærri
borginni, þar Jesús var krossfestur. Þá
søgdu þeir ædstu Prestar Gydínganna
vid Pílatum: skrifa þú ecki, Konúngur
Gydínga, heldur þad hann hafi sagt: eg
em Konúngur Gydínga. Pílatus svar-
adi: hvad eg skrifadi, þad hefi eg skrifad.

Sjøtti

# Sjötti Partur.

Þá stríðsmennirnir höfðu krossfest Jesúm, tóku þeir hans klæðnað, og gjörðu á fjögra hluta skipti, sérhvörjum stríðsmanni einn hlut, og vörpuðu þar um hlutkésti, hvörr að hann skyldi hafa, og þar með kyrtilinn; en kyrtillinn var ecki saumaður, heldur frá ofanverðu allur prjónaður. Þá töluðu þeir sín á milli: skiptum vær honum ecki í sundur, hlutumst heldur um, hvörs hann skal vera, svo að Ritníngin uppfyllist, hvað sagt er fyrir Spámanninn, er segir: þeir skiptu með sér klæðum mínum, og á minn kyrtil lögðu þeir hlutkésti. Og þetta gjörðu stríðsmennirnir, og fólkið stóð og horfði á. Og þeir, sem gengu þar framhjá, hæddu hann, skóku höfuð sín og sögðu: svei! hvörnig niðurbrýtur þú musterið, og uppbyggir það aptur á þremur dögum! hjálpa þú nú sjálfum þér, ef þú ert Guðs Sonur, og stíg niður af krossinum. Og Höfðíngjarnir spóttuðu hann með þeim, líka einnig hæddu hann þeir æðstu Prestar sín á medal með Skriftlærðum og Öldúngum, og sögðu: öðrum hefir hann hjálpað, sjálfum sér gétur hann

 ecki

ecki hjálpad. Sé hann Kristur og Kóngur Israels, þá stígi hann nú nidur af krossinum, ad vér siáum og megum svo trúa honum. Hjálpi hann nú siálfum sér, ef hann er Kristur hinn útvaldi Guds. Hann treysti Gudi, hann frelsi hann nú, ef hann hefir lyst til hans, því hañ sagdi: eg em Guds son. Ad honum hæddu og strídsmennirnir, gengu til hans og færdu honum edik, og sögdu: ef þú ert Konúngur Gydínga, þá hjálpa þér siálfum; líka einnig hæddu hann ræníngjarnir, þeir med honum vóru krossfestir. En einn af þeim spillvirkjum, sem hengdir vóru, lastadi hañ og sagdi: ef þú ert Kristur, frelsa siálfann þig og ockur. Þá svaradi hinn annar, straffadi hann og sagdi: og þú hræðist ecki heldur Gud, sem ert þó í eins fordæmíngu? og ad sönu skér ockur þetta réttilega, því vér medtøkum hvad ockar gjørdir vóru verdar, en þessi hefir eckért óskickanlegt gjørt. Og hann sagdi til Jesú: Drottinn! miñstú mín, þegar þú kémur í ríki þitt. Og Jesús sagdi til hans: **sannlega segi eg þér, í dag skaltú vera med mér í Paradís.** En þar stódu vid krossinn Jesú, módir hans og módursystir hans, María húsfrú Kleófasar, og María

rka Magdalena; þá Jesús sá nú sína móður, og þann lærisvein þar nær standandi, er hann elskaði, segir hann til sinnar móður: kona! sjá þú, það er þinn sonur; eptir það segir hann til lærisveinsins: sjá! það er þín móðir; og upp frá þeirri stundu tók lærisveinninn hana að sér. Og það var nær um hina sjöttu stundu, að myrkur gjörðist yfir allt landið, allt nær til níundu stundar, og sólin misti sitt skin. Og um níundu stundu kallaði Jesús hárri röddu, og sagði: Elí! Elí! lama Sabachtaní? hvað eð útleggst: Guð minn! Guð minn! hvar fyrir forlétstú mig? og nockrir af þeim, er þar stóðu hjá, þá þeir heyrðu það, sögðu þeir: sjá! hann kallar á Elíam. Eptir það, þá Jesús vissi að allt var fullkomnað, og að skriftin yrði uppfyllt, þá segir hann: mig þyrstir. Þar stóð kér fullt af ediki, jafnsnart hljóp einn af þeim til, og tók njarðar-vött og fyllti af ediki, og setti hann ofaná reyrlegg, og gaf honum að drecka, og sagði: lát vera! sjáum hvört Elías kémur að taka hann ofan; en aðrir sögðu: bíðið! látið sjá hvört Elías kémur að hjálpa honum. En þegar Jesús hafði edikið til sín tekið, sagði hann: það

er

er fullkomnad. Og Jesús kalladi upp hárri roddu í annad sinn, og sagdi: Fadir! í þínar hendur fel eg minn anda. Og er hann hafdi þetta sagt, ad hneigdu høfdi, uppgaf hann sinn anda.

## Sjøundi Partur.

Og sjá! ad tjaldid musterisins rifnadi midt í sundur í tvo parta, frá ofanverdu, allt nidur ígégnum, og jørdin skalf, og bjørgin klofnudu, og grafirnar lukust upp, og margir líkamir heilagra risu upp, þeir ed sváfu, og gengu eptir hans upprisu úr grøfunum, og komu í hina heiløgu borg, og auglýstust þar mørgum. En er Hundrads-høfdinginn, hvørr þar stód gégnt, sá þad hvad þar skédi, og ad hann kalladi svo, þá ed hann létst, prísadi hann Gud, og sagdi: vissulega hefir þessi réttlátur madur verid og Guds Sonur. Og þeir, sem med honum vóru ad vardveita Jesúm, þá þeir sáu jardskjálftann, og þad hvad þar skédi, urdu þeir mjøg óttaslegnir, og søgdu: sannlega var þessi Guds Sonur. Og allt folk, er þar var hjá og horfdi á, sem þeir sáu hvad þar skédi, bardi þad sér á

brjóst

brjóst og snéri í burt aptur. En allir hans kunníngjar stóðu lángt frá. Þar vóru og margar konur, sem sáu þar uppá álengdar, meðal hvørra að var María Magdalena og María hins litla Jakobs, og Jósephs móðir og Salóme, móðir þeirra Zebedæí sona, þær honum höfðu eptirfylgt, þá hann var í Galílæa, og þjónað honum, og margar aðrar, hvørjar með honum høfðu uppfarið til Jerúsalem úr Galílæa, og horfðu á þetta. En Gyðíngar, með því það var aðfánga-daguriun, svo að líkamarnir væru ecki á krossunum um Sabbaths-daginn (því sá sami Sabbaths-dagur var mikill); báðu Pílatum, að þeirra bein brytust og ofantækjust. Þá komu stríðsmennirnir og brutu sundur bein hins fyrsta, og svo hins annars, sem með honum vóru krossfestir. En þá þeir komu til Jesúm, og sáu að hann var allareiðu dáinn, þá brutu þeir ecki hans bein, heldur opnaði einn af stríðsmønnunum hans síðu með spjóti, og strax þá rann út blóð og vatn. Og sá er það hefir sjeð, ber þar vitni um, og hans vitnisburður er sannur, og hann sami veit það, að hann segir satt, svo að þér

og

og svo trúid. Hvíad þetta er skéd, svo ad Ritníngin uppfylltist: Ecki skulud þér brjóta nockurt hans bein. Og enn aptur segir önnur Ritníng: þeir munu sjá hann, í hvörn þeir stúngu. Þar eptir þá er qvöld var komid, af því þad var adfánga-dagur, hvörr ad er fyrir Sabbatsdaginn, kom madur nockurr ríkur af borg Gydínga Arimathía, Jóseph ad nafni, heidurlegur Rádherra, gódur madur og réttvís, hvörr ecki hafdi verid samþyckur þeirra rádagjörd og breytni, hvörr og var einn af lærisveinum Jesú, þó heimuglegur, fyrir ótta sakir vid Gydínga, sá er og vonadi eptir Guds ríki; hann dyrfdist ad gánga inn til Pílatum, og bad um, ad hann mætti taka nidur líkamann Jesú. En Pílatus undradist ad hann væri begar látinn, og kalladi Hundrads-höfdíngjann, og spurdi hann ad: hvört hañ væri fyrir laungu andadur? og er hann var þess vís ordinn af Hundrads-höfdíngjanum, leyfdi Pílatus og skipadi, ad Joseph skyldi afhendast líkaminn, og gaf honum hann. Þá kom hann og tók nidur líkamann Jesú. Og hann keypti líndúk, og tók vid líkamanum, og sveypadi hann í hreinu lérepti: þar kom og Nikódemus,

sá er fyrri kom um nótt til Jesú, færandi samblandad myrru alóe, nær hundrad punda. Þá tóku þeir líkamann Jesú, og sveypudu hann í líni med dýrmætu salve, eins og Gydínga sidur er til ad greftra. En þar í þeim stad, sem hann var krossfestur, var grasgardur, og í grasgardínum var ný grøf, í hvørja enginn hafdi eñ verid lagdur; og Jóseph lagdi hañ í þessa sína egin nýju grøf, hvørja hann hafdi úthoggva látid í steini, og velti stórum steini ad grafar-dyrunum, og géck í burt. Og þad var adfánga-dagur, og Sabbatsdagurinn tók til, þángad løgdu þeir Jesúm, fyrir sakir adfánga-dagsins Gydínga, því sú grof var nærri. En þar var María Magdalena, og ønnur María Jósephs, og þær konur, sem komnar vóru med honum af Galílæa, fylgdu eptir, sitjandi gégnt yfir frá grøfinni, og skodudu grøfina, sáu til hvar og hvørnig hans líkami var lagdur. En þær snéru aptur, reidandi til dýrmætar jurtir og salve; en um Sabbats-dagiñ vóru þær kyrrar eptir løgmálinu. Og annañ dag þann, sem eptir adfánga-daginn er, søfnudust saman þeir yppurstu Prestar og Pharísæar ásamt, til Pílatum, og søgdu: Herra! vær

vær minnumst á þad, ad þessi svikari sagdi, þá er hann lifdi: eptir þrjá daga mun eg upprísa; af því skipa þú ad vakta grøfina allt til ens þridja dags, svo ad ecki komi hans lærisveinar á nóttu og steli honum í burt, og segi fólkinu, ad hann sé upprisinn frá daudum, og verdi hin seinni villa argari þeirri fyrri. Pílatus sagdi til þeirra: þar hafid þér vardmennina; farid! vaktid, sem þér hafid vit á. En þeir gengu í burtu, og vøktudu grøfina med vard-mønnunum, og innsigludu steininn.

# I. Føstu-Hugvekja.

Jesú gánga til Olíu-fjallsins, Jóh. 18.

Nú var þad í sídasta sinni, sem Jesús géck til Olíu-fjallsins, hvar hann svo marga nótt ádur vakad hafdi á bænum til síns himneska fødurs. Þañ sama stadiñ, sem hañ í hinum gódu døgunum valid hafdi sér til samtals vid Gud, útvaldi hañ sér nú, þá ángistar tímiñ nálgadist, til undirbúníngs siñar pínu. Jerúsalem, þessi samansofnunar stadur synda og hávarra heimsins lystisemda, fañst honum ecki sá staduriñ, hvar hañ verid gæti sína efstu lífstunda nótt, med því hugar fari, sem písl hans útkrafdi; hañ vissi þad fyrir, ad hañ átti ordugt stríd fyrir hønum, og þetta strídid vildi hañ heja, án þess ad hafa þar marga votta ad. Hann géck því í afvikinn stad, hvørt hans ástfolgnu vinir fylgdu honum á eptir; þeir, sem þángad til høfdu med honum hlutdeild tekid í allri hans armædu. Hann géck í þeim tilgángi til Olíu fjallsins, ad hann yrdi nú forlíkunar-offur fyrir heimsins synd-

C ir,

ir, og lagdi ſig þvi viljugur undir þær píſl-
ir, ſem hans Fadir á þeirri nóttu hafdi
honum áqvardadar. Hvílíkann lærdóm
ſær oſs ecki géfid þeſſi inngángur Jeſú
ýnu; þegar vér gætum ad Jeſú hegdun
vid útgaungu hans til Olíu-fjallſins, þá
fáum vér af honum lært hvørſu vér egum
ad hegda oſs, þegar vér høfum mikilvæga
hluti fyrir høndum, og þó hvad hellſt þá,
er vidvíkja ſáluhjálp vorri. Midt í heim-
ſins hávada og lyſtiſemda ſolli, fær mad-
ur traudlega ígrundad þad, ſem nockru
vardar, ad minnſta koſti má þvi qvída, ad
þvílíkt glepji fyrir, og leidi þánkana frá
þvi, ſem vér vildum umþenkt hafa. Þar
fyrir, þegar vér viljum tala vid Gud ed-
ur renna þaunkunum til vorra umlidnu
ſynda, ellegar búa oſs vid dauda vorum,
þá egum vér ad flýja þá ſtadi, ſem leida
kunna vorn huga frá voru umþenkingar
efni. Hvørki má vanaleg ſkémtun, né
vina vorra umgengni vera oſs ſvo dýr-
mæt, ad vér ecki ſlítum oſs í burtu, og tøk-
um oſs afvikinn ſtad, til ad tala í leynum
vid vorn Fødur. Allraſíſt kunna nock-
ra hugar-róſemi ad géfa á neydarinnar
tíma þeir ſtadir, á hvørjum vér í gódu
døgunum drýgt høfum fáfengilegar at-
hafn-

hafnir; miklu framar vekur þeirra endurminníng hjá oss blygdun og sárt hugarángur: en sérhvörr sá stadur, á hvorjum vér einmana hofdum umgengni haft vid Gud, eda gjört vora bæn til hans, í sameiníngu vina vorra, ellegar æft nockur godverk, sá stadurinn verdur oss víst í nauda-edur daudans tíd ad miklum hugfroa. Þá mun vor bænarstadur, þegar vér deyjum, verda vor uppstígníngar-stadur, eins og fjallid Olíveti var sá stadur, hvadan vor Jesús uppsté sídan til himna. O! ad vér mættum einnig nema þá ment af vorum Lausnara, ad lifa rólega og deyja sáluhjálplega! eins sæll og hann fengi hvörr af oss ordid í dauda sínum, ef vér kynnum med sanni ad segja eins og hann: Fadir! eg hefi auglýst þig á jördu, og fullkomnad þann gjörníng, er þú hefir géfid mér ad gjöra, Joh. 17. Fyrr géck ecki vor Frelsari út í dauda sinn, enn hann hafdi gjört allt þad, sem hans medalgaungu embætti krafdi af honum, og umhyggja sú, er hann bar fyrir sínum lærisveinum; þá sídustu nótt lífdaga sinna brúkadi hann enn þá til ad advara, undirvísa og hugga þá; og svo hér í viljum vér breyta eptir honum, því óvissari oss er vor dauda-

dagur, því umhyggjusamlegar viljum vér brúka sérhvörn vorra lífdaga, til útréttingar öllu því góða, er vér orkað fáum. Vér viljum í tíma sorga fyrir voru húsi, fyrir þeim, sem oss eru áhángandi, og fyrir vorri sálu; þá fáum vér eins rólegir gengið á móti vorum dauða og Jesús, og munum þá ecki huglausir verda við neina þá þjáníngu, sem vér sjáum oss að höndum koma, miklu heldur munum vér þá hughreysta hina, sem í enum góðu dögunum voru vor gledi, vora náúnga, vor börn og vora beztu vini, og vera hughraustir á þeim vonda degi. Og hvörsu yfirmáta huggunar-ríkur er þá ecki þessi partur Jesú pínu! þessi vors Lausnara gángur hefir grundvöllinn lagt til allrar þeirrar sælu, sem vér þacka egum hans friðþægjandi pínu; án þessarar hans sjálfviljugu gaungu úti dauðann, hefðum vér orðið án bjargar; en þareð hann viljugur géck úti sína pínu, megum vér nú vera fullvissir um vora endurlausn. Trúfasti Lausnari! þackir séu þér fyrir þína frívilju gu hlýðni, sem þú sýnt hefir í þinni viljugu gaungu til þíns dauða! þackir séu þér fyrir þá huggun, sem þú þar við hefir afrekað oss í vorum dauða! æ! vér egum einn-

einnig einn gáng fyrir hendum, já, bitrann, ordugann gáng, í gégnum daudans myrkva dal, inn fyrir þíñ dóm; vér hljótum eiñig ad yfirgéfa heiminn, vort jardneska føđurland, og alla vora kjærustu vini. Styrktú oss þá, þegar þar ad kémur, o Drottiñ Jesú! og lát oss svo rolega, glada og hug-góda, sem þú varst, heiminn yfirgéfa, og inngánga til þeirrar eilífu gledi og dýrdar, sem þú, med þinni himna før, hefir tilbúid oss hjá þínum Fødur.

## 2. Føstu-Hugvekja.

Jesú sálar-ángist á Olíu-fjallinu, Matth. 26.

Hvílík umbreyting er hér á ordin! rétt fyrir skømmu var vor Jesús svo gladur og hughraustur, þá hañ géck uppá Olíufjallid, nú verdur hañ í einu svo hriggur, og tekur til ad skjálfa. Hans sála, sem aldrei fyrr kéñt hafdi nockurs hugar-výls né qvída, verdur nú í einu velfángi yfirfallin af ángist og qvøl. Víst hefir þad vera mátt eitthvad sérlegt, sem brugdid fengi hans rólega gédslagi. Skodum Lausnara vorn í hvorju helst lífsins áslgkomulagi og umbreytingum, sem hañ var staddur, alltaf fiñum vér hann med hinu

 sama

sama rólega sinnislagi, sem plagar samfara ad vera hjartans fullkomnasta sakleysi. Eckért fáum vér fundid þad af útvortis orsøkum, sem honum svo miøg mætti bregda vid, ad þad fengi nidurvarpad honum þañig til jardar; daudans ótti gat þad ecki verid; þvi mundi hann hrædast sinn dauda, sem hafdi syndlausa náttúru, og þaradauki hafdi þad framyfir alla daudlega, ad hans daudi vard blessan fyrir gjørvallt mannkyn? þvi mundi sá skélfast fyrir þvi smánarlegasta og qvalamesta lífláti, fyrir hvørs krapt øll blódvitni og píslarvottar hugdyrfd fengu, til ad deyja med glødu stødugllyndi? þegar vér sjáum einhverja manneskju, hvørrar sérhvørn lim tekur ottalegur hrædslu-skjálfti af qvída fyrir daudans adkomu, sem stríðir þannig á móti daudanum í stærstu ángist, þar til kraptarnir þverra, og þessi qvídi margfaldast vid eilífdarinnar ognanir og þeirra umþenkíngu, þá þarf- oss ecki ad undra þad, þvi sá deyandi er syndari, hvørjum daudiñ, og þar á eptir komandi dómur má efalaust vera ognarlegur, en Jesús var saklaus, óflekkadur og hreinn af allri synd, hafdi þvi einkis fordæmíngar dóms af réttlæti Guds ad qvída. Ecki ad sídur

ur hverfur hans hreinu sál allur móður, ecki að síður titra öll hans liðamót, ecki að síður fossar útaf hans gjörvalla líkama blóðugur ángistar-sveiti, ecki að síður finnur hann það, sem enginn dauðlegur nockru sinni hefir jafn freklega fyrr fundið, þvílíka ángist, sem varpar honum til jarðar, og færir hans líkama nærstum því til grafarinnar; hvørr fær skilið þennann leyndardóm? að sönnu enginn dauðlegur, en ecki að síður fær það ógrípanlega í þínu þessari leidt oss til að skynja orsökina til Jesú qvala, sannarlega, þessi er dómsins tími, sem koma átti yfir einn og sérhvørn af mannlegu kyni; á þessu ángistar augnabliki, varpaði Drottinn öllum syndum vorum uppá hann, og lét hann einann sæta því straffi eptir strángasta dómi, sem allur heimur fullur syndara verðskuldað hafði. Opnar lán nú fyrir hans alskygna auga, allar yfirtroðslur, sem drýgðar vóru og drýgjast mundu frá hinni fyrstu Adams synd til þeirra, er af hinum síðustu mönnum drýgjast munu. Á honum lá sérhvørs deyjandi dauða ángist, þeirra ótti fyrir dauðanum, grøfinni og dóminum, allar hinar óútmálanlegu qvalir, sem eins syndara uppvakin sam-

 vitska

vitſka fær fundid til, allt þetta lá á hon-
num, og nidurþryckti honum til jardar.
O! hvílíka ángiſt hefir ecki Jeſús þolad í
þeſſu áſigkomulagi. Sé þad ſkélfilegt ad
ſjá uppá, þegar ſakamanninum er réttad
fyrir drýgda glæpi ſína; ſé ſú qvøl oút-
málanleg, þegar þúngi vorra egin ſynda
fellur yfir oſs, og Gud ſtraffar oſs í ſinni
brædi, hvørſu obærileg hlýtur þá ecki ad
hafa verid Jeſú qvøl, þágjorvalls heim-
ſins ſyndir lá á honum, eins og bjarg, er
ecki matti yfirſjá? þarf þad þá ad undra
oſs, þo Jeſús titri hér í ſini neyd? þo hon-
num hverfi modur, þo hann ſtrídi vid daud-
ann og fallt nidur í duptid fyrir dómar-
ans reidi, undir þvílíkri ógna byrdi? æ!
mig aumann! hvørſu hefdi mér farid í
míns medalgángara ſtad á þeſſum ángiſt-
ar tímum? þegar hinn allra heilagaſti
hlýtur ad hriggjaſt og huglaus verda und-
ir Guds dom, hvílíkann dauda, hvílíka
ørvýlnun, hvílíka helvítis ángiſt hefdi eg
þá ecki mátt fiña? o! einúngis eitt augna-
tilit hins ſtygda domara, hefdi mig ſund-
u knoſad! ecki nema eitt ord hans ſtroff-
unar-dóms, hefdi þurft til ad varpa mér
nidur til helvítis! o! vertú oſs bleſſad-
ur, þú lambid Guds, ſem borid hefir

þó

þá stórkostlegu heimsins synda-byrdi! þú, sem einnig borid hefir vorar syndir! í þinni dandans-ángist, í þínum skjálfta, í þínum blóduga sveita, blessum vér þig, þú, fyrir oss sundurknosada og pínda Guds Lamb! en med ótta og skélfingu þenkjum vér til þín, vér skodum óttafullir þá óútmálanlegu pínu, sem þú lidid hefir fyrir oss; svo stórar eru vorar misgjordir, svo spillt er vort hjarta. Þvílík vidurstygd eru vorar syndir fyrir Gudi, ad þú, eilífi Guds Son! varst svo aumkunarlega sleginn og píndur fyrir vorar yfirtrodslur! fáum vér enn nú fengid af oss ad trúa því, ad þad sé einúngis lítilsverd sök ad styggja þann almáttuga! æ! oss þánkalausa syndara! hvad opt höfum vér ecki ad undanförnu yfirtrodid Guds lögmál án þess ad hugleida, hvörsu óbærileg byrdi Guds reidi er, og hvörsu sérhvör yfirtrodsla krefur hans skélfilega hegníngar-dóms yfir oss! vér viljum nú láta oss vekja af vorum synda-svefni og leida til eptirþánka: þín ángist, ó! Jesú! kénnir oss ad þeckja vorra synda stærd, hvörsu óbærileg sé Guds reidi, og hvörsu strángur hans dómur. Vid sérhvörja tilhneigíngu til syndar, vid sérhvörja yfir-

trodſlu þíns løgmáls viljum vér renna
þaunkunum til þinnar pínu og ſkélfaſt,
já! ſkélfaſt viljum vér, en ecki ørvýlnaſt;
þegar vor uppvaknada ſamvitſka, á freiſt-
íngar-tímanum, ſetur oſs fyrir ſjónir
fjølda vorra drýgdu misgjørnínga; þegar
ver ſtrídum vid ángiſt og efaſemdir; þeg-
ar engin huggun fær endurnært vort
ſundurknoſada hjarta; þegar kaldur áng-
iſtar-ſveiti flýtur yfir voru gjørvalla lík-
ama, þá jafnvel viljum vér ecki módlauſir
vera; þín pína á fjallinu Olfveti, ſkal
ſannfæra oſs um þad, ad Gud vilji ecki í
dómi vid oſs gánga, og ecki høndla vid oſs
eptir vorum ſyndum. Jeſú! vor Herra
og vor Gud! lofadur vertú fyrir þeſſa
huggun, ſem þú med þinni ſálar-pínu hef-
ir oſs afrekad! ſvó opt, ſem vér grátum
vorar ſyndir, viljum vér príſa þig fyrir
þad, ad vér ecki þurfum huggunarlauſir
ad gráta. Svo opt, ſem vorar misgjørd-
ir ſkélfa oſs, viljum vér príſa þig, fyrir
þad, ad vér fiña megum róſemi vegna þiñ-
ar ángiſtar. Lokſins, þegar oſs ad ſídustu
yfirfellur ſamvitſkuñar ángiſt, þegar vor
ſála í daudans ſtrídi berſt vid ſkélfíngu og
qvída fyrir þínum dómi; þegar vér ad lok-
unum ſtanda egum fyrir þínum tróni til ad
heyra

heyra vorn dóm, þá viljum vér eñ þá þacka þér, ad þú med þiñi daudans ángist og med þeim dómi, sem yfir þig géck, hefir styrkt vora sálu og afrekad oss frelsi. Máské á þessu augnabliki, sé á einum edur ödrum einmana stad einhvorr deyandi, sem í mikilli sálar ángist leitar nú þíns andlitis; o Jesú! miskuna þig yfir hans sálu, og láttú hana ecki fortapast! vegna þiñar pínu og þíns dauda vertú honum nádugur, og géf honum þinn frid, o Jesú! Amen.

# 3. Föstu-Hugvekja.

Jesú bæn í grasgardinum, Matth. 26.

Midt í þeirri óútmálanlegu qvöl, sem Jesús útstód í grasgardinum, skín þó klárlega í vorum augum guddómur hans. Hvörsu, sem þúngi Guds reidi, er á honum lá, nidurþryckti honum, styrkti hans sála sig þó med óbifanlegu trúnadartrausti á sínum himneska fødur; hvörsu bitur, sem hans pína var, leggur hann sig þó med viljugri hlýdni undir þad, sem áqvardad var ad yfir hañ skyldi koma, og heldur alltaf stødugum þeim sama fúsa vilja, ad taka uppá sig pínu og dauda til mannkynsins endurlausnar. Hans

sál,

sál, sem hrigg var til dauda, leitadi nú og fann í bæninni léttir á sinni qvøl; hann bidur: ad sínar þúngu písiir, sem trúlegt var hann mundi ecki útstadid fá, mætti styttast; en svo hjartanlega sem hañ æskti sér nú endurnæríngar, afhendti hann sig þó undir síns fodurs vilja, hvørn hann si-fellt hafdi sér fyrir augum, og sýndist ein-úngis þess vegna lánga eptir léttir nock-rum, ad hann ødlast mætti enn þá nýja krapta til ad fá afborid písiirnar, sem hañ átti fyrir høndum. Æ! nú sjáum vér, hvørsu biturt þetta ógna stríd hefir ordid honum: alla sína æfi var hann fátækur, ásóktur af mørgum freistíngum, mørgum ofsóknum; allar þessar þjáníngar þoldt hann med stoduglyndi, án þess hann beiddi um, ad þær af sér léttust eda stytt-ust, en hér vard hans mañdómlega nátt-úra ofveik til ad útstanda áføllin af svo margslags písium, þvi bidur hann svo ákaflega og ítrekar bæn sína, ad þessi ka-leikur mætti þó frá sér víkja, þessi úthlut-ada písl frá sér takast. Æ! hvørsu meg-um vér ecki blygdast vid þetta hans dæmi, þegar einúngis ein lítilvæg þjáníng mætir oss, hvørsu óþolinmódt og vantrú-arfullt verdur þá ecki vort hjarta? og ef ad

þad

þad þócknadist Drottni ad leggia á oss
þúnga hørmúnga-byrdi, hvorsu ólíkir
munndum vér þá verda vorum Lausnara!
og svo þá ment viljum vér leitast vid ad
læra af þér, vor Lausnari! ad lída rólegir
og med stødugglyndi þjáníngarnar. Æ!
med hvorsu styrkri og sonarlegri trú snýr
þú þér ecki til þíns Fødurs! hann sýnist
ad hafa nejtad þér øllum kjærleika, þegar
hann í sinni dómara-reidi lagdi á þig allra
syndaranna straff, en þú leggur þig þó
ljúfur undir hans vilja, med þeim vid-
qvæma kjærleika, sem uppfyllti þitt gjør-
valla hjarta; einnig þá, ávarpar þú hann
med því sæta Fødur-nafni, þegar hann,
sem Dómari, lét þig finna til þess, hvorsu
strángur hann var. Komi nú yfir oss
hvør ángist, sem koma vill, vér viljum ecki
orvæulnast, vér viljum ecki rángfæra gæd-
sku þinna vega, ecki vikja frá vors Fødurs
kjærleika, eiñig þá, þegar þú høndlar vid
oss sem Domari, og vér fáum ad finna til
þinnar þúngu typtandi handar, einnig
þá, viljum vér segja: Abba, minn Fadir!
og vér megum voga ad segja svo, þared þú
hefir afrekad oss rétt til ad kalla Dómar-
ann fødur; en þessi sonarlega trú, vors
bidjanda Medalgángara, er sameinud
djúp-

djúpustu audmýkt og andsveypnustu hlýdni; flatur liggjandi á knjám, á sínu andliti, í jardarinnar-dupti andvarpar hann harmþrúnginn til Guds. En vér þá, sem erum dupt og aska, hvörsu fáum vér nógu djúpt lítillækkad oss fyrir vors Guds hátign! hvornig fær vort syndugа hjarta nægjanlega sundurknosad og audmýkt sig, fyrst hann, sem er allra Drottinn, sá saklausasti allra manna, nidursöckur svo djúpt í nidurlægingunni! æ! gétum vér séd vorn Jesúm andvarpa svo opt í þvílíkri audmýkt, án þess ad þenkja til vors dosúa, kalda og drambsama hjarta! Þrísvar snýr hann sér í klögunar-bæn til síns födurs; ecki hættir hann, ad bidja fyrr enn hans Fadir sýndi sig fúsann til bænheyrslu, og viljum vér þá örvænta strax, þo vér verdum ad hropa til hans optar enn einusinni fyrr enn vér fáum bænheyrslu! nei, vér viljum vona á hann, vér viljum ecki víkja frá honum; hann mun þó loksins endurnæra vort hjarta med sinni nád, sem vér svo lengi hefdum andvarpad eptir; þvíad þegar vér höfum med þolinmædi í neydinni hrópad til hans um stund, mun vor Fadir loksins heyra vora grátbeidni; hann mun

upp-

uppvekja oss vin, sem taki oss ad sér, ellegar ad minnsta kosti sendi oss engil á vorri daudastundu, sem flytja mun sálu vora í himneska sælu; máské vér verdum svo luckusælir, eckért ad finna til þeirrar samvitsku ángistar, þeirrar sorgar, þeirrar qvalar, sem nidurþryckir á stundum jafnvel styrkvastann kristinn. En hvorr veit, nema tíminn sé nálægari enn vér hyggjum, sá skélfilegi tími, þá vér nockud skulum smacka af þeim bitra kaleik, sem vor Jesús hefir fyrir oss oldúngis í botn útdruckid, og kann þad ecki ad bera til á vorri sóttar-sæng, ad vor lengi svæfda samvitska vakni, og vorar drýgdu syndir leggist á oss eins og bjarg? géta þá ecki þúsund atvik adborid, í hvorjum vér huggunar-, ráds- og hjálpar-laus-ir vanmegnast hljótum undir vorum þjáníngum? þá munum vér fá ad þeckja, hvorsu þarflegt þad sé, í gódu dogunum ad búa sig undir ángistarinnar tíma, og í luckunnt ad leita þess Herra, frá hvorjum madur í óluckunni óskar sér huggunar. Þá munum vér vidurkénna, ad þad hjarta, sem snéri sér til Guds, og féck fullvissu um hans kjærleika, hefir besta endurnæríngu undir þjáníngunum. Vér viljum þá læra

þá

þá ment af vorum Endurlausnara, ad vera hughraustir, þó jafnvel adkomi þau óþægilegustu tilfelli; bænin, og sú rósama umgengni med Gudi, skal vera vor dagleg æfíng, og þó oss verdi þá borinn einn þjáninga kaleikur, fyrir hvors beiskju vor náttúra titrar, viljum vér taka á móti honum af vors födurs hondum, med rólegri audsveypni, og segja med vorum frelsara: skyldi eg ecki drecka þann kaleik, sem minn fadir hefir mér géfid; já, fadir! eg vil drecka hann; ecki minn, heldur verdi þinn vilji!

## 4. Fóstu-Hugvekja.

Jesú adferd vid lærisveinana í hans sálar-ángist, Marc. 14, 37—42.

Alla vegu er Jesús þjádur af ángist og pínu; hjartad skélfur í brjósti hans; dómarinn reidur er uppyfir honum; í kríngum hann eru fáir veikir og huglausir vinir; sérhvört af þessu mátti þegar svipt hafa hvorn einn, jafnvel þann hugþjarfasta, ollum mód, en vor medalgángari sýndi sig hvörvetna sem hetju; hjartans ángist og ótta sigradi hann med þolinmædi og óbifanlegu trúnadar-trausti á sínum födur. Á móti dómarans strángu

ásfelli

áfelli setti hann sakleysi sitt, sína viljugu hlýdni og innilegu bæn, en sínum veiku lærisveinum sýnir hann umburdarlyndi og kjærleika. Látum oss þá í rósemi hugleida þá sídustu røksemd, sem vér finnum í Gras-gardinum uppá hans vidqvæmu hjarta-gædsku. Hvílíkann andans og hjartans mikilleik sýnir Jesús ecki midt undir tilfinníngu hinna bitrustu sálarþjáninga. Undir þvílíkum harmqvæla þúnga, hefdi þad ecki undur verid, þó ad hañ einúngis þenkt hefdi til sjálfs síns, en látid um vini sína verda hvad vildi, en hann elskadi sína til enda; og svo á þeim tíma, þegar allir hans þánkar vóru snúnir til Guds, þenkti hañ til sinna lærisveina, hann þenkti med svo vidqvæmri elsku til þeirra, ad vér megum falla yfir því í forundrun. Svo veika, sem þeir hofdu sýnt sig undir freistíngunum, svo hætti hann þo ecki kjærlega ad minna þá á skyldu sína, ad bera fyrir þeim umhyggju, og hafa þolinmædi yfir þeirra veikleika. Jesús hafdi nú útstadid þad fyrsta ørduga stríd, ørþreyttur ordinn af svo margs slags qvøl gék hann til sinna lærisveina, sem hañ svo ástudlega bedid hafdi ad vaka hjá sér, og bidja med sér, en hann fann þá sofandi.

Í annad sinn var hann genginn nockur fótmál burt frá þeim, til þess á ný ad gánga útí stridid. Hann skélfur, hann strídir vid daudann, hann hropar til síns fødurs med sárustu qvørtun og brennandi tárum. Hálfdaudur snýr hann til baka til vina sinna, og siá! þeir sofa, þeir vóru svo syfiadir, ad þeir vissu ecki hvørju þeir svørudu honum. Í þridja sinni gengur Jesús framá stridsplátsid til ad drecka þad eptir var þess bitra qvalanna kaleiks; og þá hann aptur fann sína læri sveina í djúpum svefni, vekur hann þá og segir: o! viljid þér nú sofa og hvílast? gat nú Jesús med meiri umburdarlyndi, med meiri ástúd farid med sína lærisveina? þeirra ítrekudu yfirsiónir þreyttu hann ecki, þeirra yfrid stóra leti giordi hann ecki reidann. Í stadinn þess ad tilkynna þeim þeirra adgætslu- og umhyggju-leysi med þeim bitrustu brígl-yrdum, géfur hann þeim þær ástúdlegustu advaranir, og sýnir vid þá undrunar-verda þolinmædi. Hvad ólíkir erum vér hér, vor Lausnari! hér í? tídum høfum vér þess varir ordid, ad þjáníngarnar þúngi vakti oss til óþolinmædi, og hvad brádlega gleymdum vér ecki í þreyngíngunum gódsemi og kjærleiks

leiks-skyldum vid vora medbrædur, því lengur, sem vorar þjáníngar vidvara, því møglunarsamari og styrdgédjari plegum vér ad verda, því strángar dæmum vér vina vorra miñstu yfirsjónir, því óánægdari verdum vér med allt þad í kríngum oss er; ad minnsta kosti meinum vér ad ega sjálfskilid af þeim umburdarlyndi, þó vér í eymdum staddir hugsum ecki um adra enn sjálfa oss. Og skyldum vér þó ecki miklu framar sýna þessar kjærleikans skyldur brædrum vorum, þá þú, vor Lausnari! ber svo mikla þolinmædi med oss í øllum vorum breiskleika, og ecki burtkastar oss frá þínu auglitti, þo oss hvad eptir annad yfir sjáist? æ! hvad opt blandar sér ecki leti og hálfvelgja í vora gudsdýrkun? hvørsu tídum erum vér ecki tilfinníngarlausir og kald-gédja vid íhugun þiñar pínu? hvørsu opt syfjar oss ecki, þegar holdid freistar vor? og hvad vildi þá af oss verda, ef ad þú yfirgæfir oss í eymdunum? æ! vér vidurkéñum þad, vor Frelsari! þad er þín náð, sem enn þá vidheldur oss, sem endurnærir, og svo kroptuglega styrkir oss, sem med svo styrkri hønd kippti oss svo opt til baka frá fordjørfunarinnar afgrunni, í hvørt vér í vorum synda-svefni nær því

 vór-

vórum fallnir. Æ; hættú ecki, vor blessadi Endurlausnari! ad vaka yfir oss veikum, ad líta med miskunsomu lánglundargédi til vor aumra, og uppvekja oss af vornm dofinleika svefni! aldrei, aldrei nockurntíma rádi vort egid hjarta svo fyrir oss, ad vér géfum voru holdi tauminn. Sífeldt erum vér í mestu hættu staddir ad forgánga undir freistíngunum, ef þú snýr þínu auga, og þinni miskun frá oss. Vér felum oss á hendur þinni styrkjandi nád, á freistínganna tíma. Hvørsu audveldlega kunnum vér í umgengni med heiminum freistadir ad verda til synda, en vér vitum þo ecki hvada freistíngar oss á sérhvørjum degi búnar eru. Í øruggu trúnadar-trausti til þín, vor Gud og Frelsari! viljum vér útgánga í heiminn, og aldrei sleppa þér frá augum vorum, hvad sem adkémur. Og ef vér sjáum nockra af brœdrum vorum og vinum ega ad strída vid þúngar freistíngar, þá viljum vér, þad framast oss er møgulegt, leitast vid ad létta undir þeirra stríd; en séum vér ecki þess megnugir, viljum vér þó bidja fyrir þeim, hughreysta og hugga þá; styrktú oss þar til, vor Frelsari! med þinni almegnandi nád!

5. Fostu-

# 5. Föstu-Hugvekja.

Svikarans Júdasar koma í grasgardinn, Matth. 26.

Varla var sá blódugi sveiti þornadur af Jesú andliti, varla hafdi hann fundid minnstu svíun qvala þeirra, sem á honum láu, fyrr enn nýtt áfall neyddi hann til ad sýna nýjann hetjú móð. Á medan hann enn þá var ad hughreysta sína veiku víni, adkom þad augnablik, á hvörju sjálfur hann þurfti vid nýrrar hugstyrkíngar. Þad sárasta, sem Jesú svo mæddum gat nú mætt, var þad, ad sjá Júdas sinn eginn lærisvein koma, sem oddvita í óvina flocki, til ad forráda hann, sinn Herra og meistara, í þeirra blódþyrstu Gydínga hendur. Hvílíkir sorgar-þánkar er ecki náttúrlegt ad í Jesú sálu nú vaknad hafi, þegar hann sá sinn vin og lærisvein gjörast sinn svikara? hvörsu munu ecki fjör-ráð þessi af sínum egin lærisvein hafa svídid hjarta hans, þessu vidqvæma, manelskandi hjarta, hvörju svo nærri géck sérhvör vina sinna, jafnvel minnsta yfirsjón? med hvörsu medaumkunarsömu auga mun nú ecki Jesús hafa litid til Júdasar? æ! gatstu þá, Júdas! sjed daudans

ángistina afmálada á Jesú ná-bleika andliti, sem sveitt var enn þá þeim blóduga sveita, án þess ad skélfast? féckstú þá af þér enn þá ad auka qvalir hans? gatstú litid augum til þíns saklausa Meistara, án þess ad láta þig binda í hans stad? gatstú sjed hans andlits útlit, í hvørju stód afmálad hans guddomlega sakleysi og hin rólegasta hugprýdi, án þess ad verda var hjá þér pínandi samvitsku-nøgunar? gatstú þañ-inn nálægst þinn Herra, án þess ad falla vid sérhvørt fótmálid til jardar? gatstú — o! þu gatst drýgt allt, eptir ad þú eitt sinn afhendt hafdir herradæmid yfir sálu þinni þeim skammarlegustu lastanna tilhneigíngum. Þín samvitska var sofandi, þitt hjarta forherdt og øll rádvendnis tilfinníng af ásettu undirþryckt. Med stærsta vidbjod, vyrdum vér fyrir oss þeñann svikara Þannig hefdum vér aldrei hagad oss, hugsum vér, aldrei hefdum vér svo skammarlega høndlad vid vorn velgjørara, vorn frædara og vorn vin; aldrei skyldum vér hafa forrádid Jesúm; en — þeckjum vér þá ogsvo rétt grant vort egid hjarta? þorum vér ad trúa vorn egin vitni og tilfinníngu um rádvendni vora? þó ad vér ecki hefdum drýgt þvílíkann glæp, kunn-

kunnum vér samt ad gjera oss bluttakandi í vidlíku vondsku verki, svo minna á beri. Er ecki voru hjarta þannig varid, ad þad elskar tídum skin-gœdi í stad þess sanna góda, og hvad skammt egum vér þá til ad drýgja Júdasar synd? trúa viljum vér ad sonnu samvitsku vitnisburdi vorum til þess, ad vér hefdum traudlega framid slíkann glœp, sem Júdas framdi; en vér gétum uppá margann máta ordid Júdasar líkar. Mjög tídum látum vér oss locka til þess, ad verda ótrúir vorum Lausnara, og hvad skédur, þegar vér fyrir gódra daga, edur heimsins vináttu sakir, fleckum oss med viljandi syndum, niðurþoggum samvitskunnar advaranir, og afneitum rádvendni? for-rádum vér ecki Jesúm, þegar vér syndgum undir gudhrœdslu skini? for-rádum vér ecki Jesúm, þegar vér leitumst vid ad skada vini hans, undir vinsemdar og kjærleiks verka útliti? for-rádum vér ecki Jesúm, þegar vér oktum hans kærdóm og pínu litils, edur sameinum oss spotturum þeim, er vanvyrda hans evangelíum? for-rádum vér ecki Jesúm, þegar vér leidum adra til ad verda otrúa og meinsœra vid Gud og hañ. Framar viljum vér nú ecki áklaga Júdas,

 nei!

nei! sjálfa oss viljum vér áklaga. O! vér berum einig svikult forrádandi hjarta í voru brjósti. Ecki nema nockur fá fótmál høfum vér ófarin fram á lastanna vegi, til ad fá nád Jesú svikara gudleyst. Vér viljum þvi láta Judasar dæmi þéna oss til vidvørunar, og umflýja vareygdarsamlega sérhvørt tækifæri, sem vorri sálu mætti fárlegt vera. Aldrei skal kjærleiki til þess jardueska festa svo djúpar rætur í vorri sálu, ad vér fyrir þess sakir gleymum vorri trú, samvitsku og sálu-hjálp. En — vernda þú oss sjálfur best, vorrar trúar byrjari og fullkomnari! frá því ad yfirgefa þig nockurntíma, en adhyllast þína kross-óvini; fyrirgéf oss þad, ef vér høfum hingad til gleymt þér, og misbrúkad þína nád, einnig fyrir vort óstøduga og ótrúa hjarta hefir þú forlíkad, vertú oss þar fyrir nádugur, og burtkasta oss þó ecki frá þínu augliti!

# 6. Føstu-Hugvekja.

Jesús synir almætti sitt, Jóh. 18.

Híngad til høfum vér Jesúm fyrir augum haft í sínum mesta vanmætti, undirþrycktann af øllum þeim píslum, er hann

hann þola hlaut, sem mannkynsins borg-
unar-madur. En þá fáum vér sjed nock-
urn geisla hans guddómlegu hátignar,
vér sjáum hann, sem hinn sterka Gud, er
ecki þarf nema ad tala eitt ord, þegar hans
óvinir skulu til grunna gánga; stór flock-
ur hans óvina kémur med grimdar-full-
um stríds-útbúníngi í Aldingardinn, hvar
Jesús var, til ad leita hans. Jesús geng-
ur fram og adspyr þá: ad hvörjum leitid
þér? og þá þeir svara: ad Jesú af Naza-
reth, svarar hann þeim med hugprúdum
djarfleika: eg er þad; en vid þetta ord
hörfar þessi óbljúgi, þessi alvopnadi skart
til baka, og fellur til jardar. Hér fáum
vér ad þeckja þig á ný, vor Lausnari! í þinni
guddómlegu hátign. Skömmu ádur, þeg-
ar þú á fjallinu Olíveti varst til jardar
nidurþrycktur undir Guds reidi byrdi,
þegar þú skalfst þar og titradir, þá spurd-
um vér sjálfa oss í huganum: er þessi sá
sterki Gud? er þad sá Herra, sem géfur
öllum sképnum anda, líf og styrkleika? er
þad hann, vid hvörs reidi tillit allar skap-
adar sképnur mega forgánga, og sérhvörr
syndari verda huglaus? já! þú ert þad!
þetta krapta-verk sýnir almætti þad, sem
í þér bjó. Hvílíkann sigur vannstú þá

ecki á þínum fjandmønnum! þeir nálæg-
jast þig og þinn litla verjulausa hóp, stol-
andi með oflæti uppá sína makt, uppá sinn
líds-fjølda, uppá sín vopn; vissir um sig-
urinn gledjast þeir þegar í vondsku sinni
yfir því, ad hafa svo svíksamlega yfirfallíd
þig, og vlds-vegar dreift vinum þínum.
En hvørsu gjørdir þú ecki þeirra rádslag
til skammar; eitt ord af þínum munni
fellir þá, og þar liggja þessir stolltu sjálf-
byrgíngar, líka sem væru þeir af þrumu-
slagi til jardar nidurvarpadir, og máttu
þó vænta sér lífs á ný af þinni nád. Já!
það var vors Jesú nád, ad þeir vid hans
ord urdu einúngis skélfdir en ecki skadadir,
einúngis felldir til jardar, en ecki eydilagd-
ir; hann sýndi þeim hvad hann gæti gjørt,
ef hann vildi høndla vid þá eptir makt
sinni, en þeir blygduduft hvørki vid makt
hans, né hrærdust vid hans gædsku. Od-
ar enn þeim var megn géfid til ad standa
á fætur aptur, byrjudu þeir á ný sitt svik-
sama fyritæki. Svikarinn, sem ecki lét
sér aptra vid þad, sem hann sjálfur vænt-
anlega mátti var verda vid, ásamt hinum,
er hlut-takarar vóru med honum í sama
vondsku-verki, nálægdi sig Jesú til ad
kyssa hann, og géfa þar med fylgjurum
sín-

sínum til kynna, ad nú væri tími til ad grípa hann, og í því sama þustu þeir ad, og lögdu hendur á Jesúm. Þessir Jesú óvinir, eru lifandi afmálun allra Jesú og hans nádar foraktara; hvad opt leggur ecki Gud óvini sína í sóttar-sængina, edur nidurvarpar þeim og lægir mód þeirra vid önnur tilfelli? hvörsu tídt leidir hañ þá ecki rétt fram á grafar-backañ, til ad fá þá vakta af sínum svefn-værdum vid dómsins og eilífdarinnar skélfingar? en hvörsu sjaldan ávinnur hañ þad, sem hañ ætlar til? varla eru þeir komnir til heilsunnar, varla hafa þeir stígid heilum fæti á jörd aptur, fyrr enn þeir haldo áfram í sinni fyrri vondsku. Þjófurinn brúkar þá krapta, sem honum á ný vóru géfnir, til ad svíkja adra og pretta; hiñ lausláti heldur áfram í sínum villudýrs girndum; mordínginn og mannhatarinn endurnýja sína fjandskapar áreitni; sá andvaralausi úteys sínum gömlu eidum og blóti á mótt Gudi og mönnum; en hvílíka orsök hafid þér ecki, sem þañig farid ad rádi ydar, til ad skélfast yfir sjálfum ydur? ef þér haldid áfram ad gánga eptir ydar óumvendta hjarta, hvílík qvöl og ángist mun þá ecki eitt sinn yfirfalla ydur, þegar Drottinn

kém-

kémur med miklum krapti og dýrd? ef hans óvinir máttu lída nidur vid þad, ad einúngis eitt ord útgéck af hans munni, þá í hans djúpustu nidurlægíngu, hvad meinid þér þá af ydur verda muni, þegar hann birtist, sem dómari? ó! hvörsu ógnarlegt mun ydar fall verda, þá hans grimdarrødd talar til ydar: eg er sá, sem þér hafid spottad og foraktad; eg er sá, sem þér svo ílla hafid høndlad vid, þá þér misþyrmdum mínum trúudu; eg er sá, sem þér hafid krossfest med ydar syndum, farid frá mér allir þér, sem ílla breytt hafid! en fyrir oss, sem trúum á Jesúm, er nærsta huggunar-ríkt ad hugleida Jesú adferd vid sína lærisveina, og hans kjæru umhyggju fyrir þeirra velferd. Þeir vóru nú í mestu lífshættu staddir, því ecki var annars von, enn óvinir þeirra mundu ætla sér ad taka þá einnig til fánga, til þess þeir í einu fengju útrudt bædi frumqvødli þessa lærdóms, er þeim var svo hatadur, og øllum hinum, er til hans høfdu hnígid. En Jesús tók sína hjálparlausu vini í sína vernd, hann sá, ad þessir sér áitfolgnu mundu ecki hugdirfd hafa til ad gánga í daudann med sér; hann vissi hvad á því reid, ad þeir lifdu eptir hann látinn, þar þeir vera skyldu

vitni

vitni hans upprisu; þess vegna frelsadi hann þá úr þeim lífsháska, sem þeim var búinn, en sjálfur framboðdur hann, hugprúdur og med hetju-móð, hendur sínar til ad bindast, líkama sinn til þeirra grimmilegu medferdar; og líf sitt í daudann. Ó! hvørsu mikill, hvørsu óumrædilegur kjærleiki! hvørsu finnum vér hjarta vort léttir, þegar vér hugleidum þetta, og tileinkum oss þær hugganir, sem vér í sérhvørjum lífsins tilfellum megum draga hér af? nú kunnum vér vera óqvídnir, hvørsu margir ovinir, sem setja sig med allri makt sinni á móti oss, þó oss séu búnar óttalegustu háskasemdir, í hvørjum vér mættum forgánga, því Drottinn er vor styrkur og vor hjálp, í sérhvørri neyd, sem oss mæta kann; vér høfum á umlidinni æfi vorri, reynt þad tídum, hvørsu máttugur vor Frelsari er til ad hjálpa, jafnvel þá, þegar oss sýndist øll hjálprædis-von þrotin, eilífslega viljum vér því á hann vona; allatíma mun hann vel vid oss gjøra; en kannské einhvørjar adrar sorgir megi olla oss órósemi; máské vér qvídum barna vorra oförum; máské vinir vorir séu í eymdum staddir; máské Jesú kirkju þreyngíngar og árásir olli oss ángursamra þánka; ecki vil-

viljum vér vid neitt þvílíkt láta vorn hug-
móð hverfa; vorra vanda-manna sak-
leysi og lucku-kjör mun Drottinn taka í
sína varatekt; sitt ord, sína limi og sína
gjörvalla kirkju, mun hann vardveita á
móti öllu óvina yfirfalli. Ef ad hann
gat í sinni nidurlægíngu bodid sínum of-
sóknar-mönnum ad láta sína lærisveina ó-
hrærda, o! þá mun hann miklu framar
nú, þegar hann upphafinn er yfir alla
himna, fá gjört sinna óvina rád til skam-
ar. Guds stadur mun rólegur blífa med
sínum borgurum, því Drottinn er innan
múranna, þar fyrir mun hann vel blífa.
Hans óvinir hljóta ad verda huglausir,
og allir sterkir mega falla, þegar hann læt-
ur sig heyra, Drottinn Zebaoth er med
oss; Hallelújah!

## 7. Föstu-Hugvekja.

Jesú fríviljuga afhending í óvina hendur,
Jóh. 18.

Einhvörr hinn huggunar-ríkasti og
mikilvægasti sannleiki, sem Jesú
Píslar-saga kennir oss, er sá, ad vér
megum vera þess fulltrúa, ad Jesús frí-
viljuglega géck útí sína pínu. Hefdi hans
pína

þína einúngis uppákomið af náttúrlegum orsökum, máttum vér sífeldt vera í efa um það, hvørt vor friðþægíng við Gud, hefði með hans pínu orðið afrekuð; en gjørvøll Jesú Píslar-saga géfur oss óræk rök fyrir því, að allt hvað hann leið, hafi hann liðið frívilјuglr, og eptir fyrirfram áqvørðuðu ráði; til að sañfærast um þeñann fríann og fúsañ vilja hans, þarf einúngis að skoða, hvørsu fúslega hann flýtir sér til dauðans; hann gat varnað því, að óvinir hans, sem við hans eina orð féllu til jarðar, á ný uppstæðu, og legðu hendur á hañ; hann gat útbúið þennañ litla hóp vina sinna með guðdómlegum krapti, og látið þá eyðileggja óvini sína. Ecki nema eitt orð hefði það kostað hann, að láta engla fylkíngar framkoma, sem með ósýnilegri makt haldið hefðu hans óvinum til baka; hvørsu auðveldlega gat ecki náttúrunnar Herra brúkað allar høfuðsképnurnar til sinna hefndar verkfæra? en hvað þurfti hann annara hjálpar við? hans egið í honum búandi almætti, með hvørju hann sigraði fjølda óhreiña anda, með hvørju hann leiddi þá dauðu til lífsins, með hvørju hann svo opt gjørði að engu siña mótstandara flærðar hrecki, og ráð-

rádslaganir, þetta sitt guddómlega almætti gat hann einnig nú brúkad til ad gjøra sinna mordíngja vondsku til skammar. Ad hans bodi hefdi jørdin opnad sig, og uppsvelgt þennañ vondskufulla samsvarna flock; ad hans bodi hefdi eldur af himnum fallid, og fortært þeim; já, hans einsamalt augna-tillit hefdi gétad gjørt þessa vogunar-djørfu ad engu; en hann brúkar nú ecki þessi medøl til frelsis sér, þad fór svo fjærri, ad þegar lærisveinar hans vildu taka til varnar med vopnum, þegar Pétur jafnvel særdt hafdi eiñ í óvina flocknum, þá bañadi hann honum þessa vorn, og læknadi hann særda þénara. Øll adferd hans, þegar hañ var til fánga tekiñ, sýnir fúsañ vilja hans, til ad offra sér sjálfum til frelsis heiminum. Skal eg ecki drecka þann kaleik, segir hañ, sem miñ fadir hefir mér géfid!! og hvørsu bitur og fullt mældur var ecki kaleikur sá, sem hans fadir hafdi honum útmældañ, en þó var hann viljugur til ad drecka hañ? já, hans ómælanlegi kjærleiki til þeirra óluckulegu Adams nidja, var svo sterkur, ad hañ beiddi um þeña bitra kaleik; hann vildi ecki láta hyrma sér, hann vildi ecki hafa gledi, heldur lída, hann vildi verda daud-

daudans offur fyrir mannkynid; hvílík hugprýdi! hvílíkur mannkjærleiki! lofadur veri Gud! nú þurfum vér ecki ad orvýlnast vegna vorra synda, þá sámvitskan skélfir oss fyrir Domarans áfallandi reidi, fríviljuglega hefir vor Jesús lagt sig undir þad straff, sem vér lída áttum, viljugur hefir hañ, svosem af Gudi áqvardad forlíkunar-offur, látid sér vorar syndir tilreikna. Med frium og fúsum ásetníngi géck hann sínum dauda á móti, og undirgéckst allt þad, sem útkrafdist til mañana endurlausnar. Þó ad vér hefdum aldrei nockur onnur, edur sterkari rök, fyrir réttlætíngu vorri, þá mættu þó þessar röksemdir géta styrkt oss í trúnni á hañ krossfesta; vér erum þá forlíktir vid Gud, þvíad vor Jesús leid viljugur í vorn stad; med svo fúsum vilja tók Jesús uppá sig þær bitru þjáníngar; en því erum vér þó ecki einnig sinadir eins og Jesús var, þegar lítilfjörlegar þreyngíngar bera oss ad höndum? því tokum vér oss ecki uppá allteins frívilljugir og þolinmódir Jesú kross? því berum vér ecki med sama setníngi og stödugly ndi þjáníngarnar? hvad vantar ecki á þad, þegar vér moglandi og naudugir tokum á moti þeim motlætíngum,

 sem

sem vér fáum ecki hjá komist. Jafnvel lítilsverd ógédfeld tilfelli, uppfylla hjarta vort ángist og ónæði. Ef vér líktumst Jesú, þá bøgudum vér oss ad ollu edruvísi; undir byrdi hinna þýngstu mótlætínga, sem oss á herdar legdust, mundum vér þá segja: skal eg ecki drecka þann kaleik, sem minn fadir hefir mér géfid? þegar Gud hyrtir oss sem hardast, mundum vér þá ecki íhuga, ad þad er fodur-hønd Guds, sem leggur á oss hyrtínguna, sem, hvørsu þúng hún jafnvel vera kynni, er þó eins og ekkért ad reikna á móti því, sem vor Jesús lída mátti. Hvør helst þjáníng, sem oss er útmæld, er þó í raun réttri ecki þúngbær, þared hún varir ecki lengi, og má því ecki kallast verd þeirrar dýrdar, er vid oss skal opinberast. O Jesú! géf oss svo fúsann vilja, sem þú hafdir, til ad leggja oss undir hvørsslags eymdir, sem adkoma kunna, og styrktu oss til ad bera þær; þad hlýtur þó ad gánga oss, eins og þinn vilji hefir áqvardad; vér egum kannské fyrir høndum enn þá, og megum vænta þess svo lengi vér lifum hér, ad reynast í mótlætínganna skola. Þegar þar fyrir nockud mótdrægt mætir oss, á vorri Pílagríms-ferd, viljum vér med trúndu og gud-

audmjúku hjarta segja: veri þad svo, vér viljum lída þad, Drottins hægri hønd kann øllu um ad breyta; loksins megum vér þess fulltrúa vænta, ad vér munum, eins og Jesús, frelsast frá øllu vondu, og inngánga í þad hvíldar- og eilífrar rósemdar-ríki, hvar Gud mun oss endurnæra, eptir allar útstadnar mótlætíngar þessa lífs.

## 8. Føstu-Hugvekja.

Jesús forlátinn af sínum Lærisveinum, Marc. 14.

Hvad heyrum ver! lærisveinarnir forláta Jesúm, og flýja nú frá honum! þeir, sem fyri fáum tímum høfdu svarid, ad þeir reidubúnir væru ad gánga í daudann med sínum meistara! hvørnig bar þad til, ad þeir svo snøgglega gleymdu sínum dýru heityrdum? hvørsu fengu þeir svo brádum sinnaskipti, og létu hugdyrfd fyrir hugleysi, krapta fyrir veikleika, kjærleika fyrir kaldsinni? líklegt mátti þykja, ad þessir einustu vinirnir, sem Jesús átti á jørdunni, mundu gæta í því skyldu sinnar og þacklætis vid hann, ad létta hvad þeir gátu und'r hans margføldu þjáníngar, ad minnsta kosti verid

nálægir sjónar-vottar ad písllum hans, því eckért meira krafdi Jesús af þeim; þeir áttu ecki ad lída sjálfir, heldur einúngis sjá hvad hann leid; þeir áttu ecki ad deyja med honum, heldur einúngis fyrir hans krossins dauda, gjørast hæsilegir til ad verda hans krofs-prédikarár. Ef ad vér hefdum verid í þeirra stad, hvad mundum vér ecki hafa gjort fyrir vorn Meistara? vér vildum hafa þurkad hvørt tárid af kinnum hans, og huggad hans sorgmædda hjarta; nej! aldrei skyldum vér hafa forlátid hann; vér skyldum hafa fylgt honum frá Gras-gardinum til þíng-húsfins, frá þínghúsinu til Golgatha, já! képpst eptir þeirri æru, ad bera hans kross eptir honum í Símons stad, og máské, ad vér hefdum gengid í daudann med honum. Þannig þenkjum nú vér, þá vér álengdar skodum í huga vorum Jesú pínu, en — mundum vér hafa verid hugdjarfari enn Jesú lærisveinar, hefdum vér sjed uppá pínu hans, eins nálægir og þeir voru; mundum vér hafa verid hugadri enn þeir vóru, þá allt þad þeir sáu afmáladi þeim opinn daudann fyrir augunum. Vér ímindum oss tídum daudann, sem ysrid léttan þegar vér erum heilbrygdir, og mein-

meinum ofs enn þá lángt ega til grafar-innar. En munum vér verda vid sama hugar-far, þegar vér erum ad henni komn-ir, edur hættulegur sjúkdómur géfur ofs ad skilja, ad vér egum skammt ad henni ó-farid? þañig sjáum vér, ad Jesú lærisvein-ar møttu þad fyrifram lítilsverdt, og sig fullstyrkva til ad gánga í daudann med honum; þeir ígrunduðu hvørki, þegar þeir fám tímum ádur hétu honum því, hvørsu bitrar hans qvalir verda mundu, né hvad veikir þeir sjálfir vóru, til ad standast þær píslir, sem honum vóru búnar. Þad of-dyrfsku traust, sem þeir høfdu á egiñ krøpt-um sínum, blindadi svo þeirra hjørtu, ad þeir gættu ecki síns vanmáttar, síns hug-leysis né andvaraleysis; og þetta er sama ástandid, hvar í vér erum staddir. Nú erum vér nógu djarfir til ad heita øllu, en hvad lítid verdur ecki úr ofs, til ad halda þad, þegar á skal reyna. O! allt of-margir af vorum med-kristnum hafa sañ-arlega sama ásetníng, sem vér meinum ofs nú ad hafa; stólandi uppá sína egiñ krapta, voga þeir sér út í þann freistínga-fulla heim. Þeir hugleida ecki, hvørsu audveldlega til-lockanir og af-vega-leidsl-ur fá munu enn þá sigur unnid yfir þeirra

hjørtum, og tídum allt offeint, þá þeir eru fallnir, fá þeir þad fyrst þeckt, hvørsu veik-ir, fordjarfadir og lausgédja þeir eru. O! vor Frelsari! gjarnan viljum vér vidurkénna þad, ad vort hjarta er bædi dárlegt og duglaust. Audveldlega fær þad ské, ad vér yfirgéfum þig og gleymum þeim trú-skap, sem vér høfum svarid þér; hvad mundi af oss verda, ef þú krefdir af oss ad taka hlutdeild í þinni pínu? mundum vér þá verda nógu viljugir og sterkir til ad fylgja þér á eptir, þá gylda ætti ad bera á eptir þér þíns kross þúngu byrdi? hvad mundi ské, ef þínir kross-ovinir hæddu þig ad oss nærverandi, í gledi samqvæmum? mundum vér þá hafa hugdyrfd noga til ad vidurkénna þig opinberlega, og verda þér óumbreytanlega trúir? hvad mundi ské, ef ad ríkdómur, metord og lystisemdir á eina sídu lockudu oss, en fátækt, vanvyrda og píslir á hina sídunа ognudu oss? ættum vér nú til hinnar luckn ad vinna, ef vér forlétum Jesúm, en hljóta þessa ólucku, þegar vér vildum vera honum trúir? hvad mundum vér gjøra, værum vér þannig staddir? mundum vér verda svo edalþenkjandi, sem Moses, ad vitni Páls: ad halda Krists vanvyrdu fyri stærri ríkdóm

enn

enn heimsins audæfi? hvad mundi ské, ef vér mæta ættum lángvarandi harmqvælum, mundum vér þá aldrei efast um Guds vernd, edur leita annarstadar huggunar enn hjá honum? æ! hvad mikla orsök höfum vér ecki til ad hrædast vort egid hjarta! Þad gétur skéd med óteljanlegu moti, ad vér verdum Jesú eins ótrúir og hans lærisveinar, og ef vér rötum í þá ólucku, ad verda óstödugir í Jesú kjærleika, þá erum vér staddir í stærstu hættu; þvi ef vér eitt sinn höfum gleymt honum, þá má þad audveldlega adbera, ad vér þá, þó vér forrádum hann ecki af ásettu rádi, þó samt af hugleysi og hálfvelgju afneitum honum, og ad miñsta kosti gleymum honum vegna lauslyndis. Hvar viljum vér þá finna frelsi vorum sálum, endurnæríngu undir þjáníngunum, rósemi fyrir samvitskuñar nögun, djörfúng í bæniñi, huggun í daudanum og fríun í dóminum? Dýrmæti Lausnari! verndadú oss med þiñi nád frá þessari óumrædilega störu ólucku. Vidhaldtú oss í þínum kjærleika, og lát oss aldrei af ásetníngi missa hann, hvörki í hinum vondu né gódu dögunum. Vilji vort óstöduga hjarta snúast frá þér, þá byrdstú, almáttugi Jesú! ad halda oss vid

þig stødugum, og styrkja oss med þínum voldugа armlegg. Láttú hvørki lucku né ólucku, hvørki maña-ótta né maña-gunst, hvørki drambsemi né dugleysi, hvørki líf né dauda nockurntíma skilja oss vid þig. Skyldi vort hjarta verda máttfarid, og vort hold vanmegnast í strídinu, æ! svo styrktú og upplífgadú oss med voniñi um þá koronu, sem þú hefir heitid þínum trúir eptirfylgjurum. Herra Jesú! vér lofum því, aldrei ad yfirgéfa þig! vér endurnýjum þann eid, sem vér í skírninni hofum gjort, og lofum þér því, vegna þess óútmálanlega kjærleika, sem þú hefir audsýnt oss, vegna þiña bitru qvala, vegna þíns dauda á krossinum, af einlægu hjarta lofum vér þér því, ad vera þér óbrygdanlega trúir hédanaf til æfiloka.

## 9. Föstu-Hugvekja.

Guds áqvardada rád um Jesú dauda, Jóh. 18.

Á medal þeirra, sem vid Jesú fordæmíngu høndludu eptir fordjørfudum heimsins vísdómi, var Kaiphas eiñ hiñ helsti. Ecki gætti hañ, sem domari, þess, hvad løgum og réttvísi væri samqvæmt, heldur hins einúngis, sem einn slúnginn bragda-

bragda-refur, ſ er horfa mundi til egiñ gagnsmuna. Hañ hafdi feſt ſér þad þánka-mid: ad betur færi ad einn ſaklaus dæi, heldur enn ad heil þjód ſkyldi til grunna gánga, fyrir eins manns lífs ſakir. Eptir þeſſari þánka-reglu, meinti hann þad gagnlegra fyrir landid ad Jeſús dæi. Svo ógudlegur, ſem þeſſi þánki var, ſvo brúkadi Gud hann þó til framqvæmdar ſínu, frá eilífd, áqvardada rádi, um Jeſú dauda, og þetta vísdómsfulla og heilaga rád Guds, viljum vér nú í róſemi hugleida, oſs til nytſemdar. Vid Jeſú pínu hafdi engin blind hendíng ſtad, þad ſkédi ecki af neinu óforvarandis tilfelli, ad hañ mátti þola þá edur þá vanvyrdu, þá edur þá píſl. Allt ſkédi hér, rétt eins og þad eptir Guds rádi var ályktad, og öll atvik ſameinudu ſig til ad opinbera Medalgángarann á millum Guds og manna, í Jeſú píndu perſónu. Strax, þégar hañ afhendti ſig í ſinna óvina hendur, og hans læriſveinar vildu med makt hafa forſvarad hánn, gaf hann þeim ad ſkilja, ad þetta væri Guds áqvardada rád; hvørnig ſkyldu, ſagdi hañ, Ritníngarnar annars uppfyllaſt, þad hlýtur þannig ad ſké. Þad ſama er ad ſegja, um Jeſú dauda; þad mátti þannig

ské, að Messías uppá þeñañ hátt og eng-
ann añañ skyldi dauðann þola; og svo
lítilsverðt sem það sýnist, á hvörjum stað,
á hvörri tíð, af hvörjum orsøkum einhvör
ønnur manneskja deyr, svo mikilvæga má
þo álíta alla þessa atburði við Jesú dauða.
Eptir Guðs ráði var tíðin áqvørðuð, nær
vor Frelsari skyldi deyja, hañ mátti ecki
deyja, fyrr enn sú tíð kom, á hvörri hann
vissulega dó, vegna þess, það var nauð-
synlegt, að hañ áður sýndi sig sem Messí-
as, og fullkomnaði allt það, sem honum
var fyrisett. Þegar í barnæsku mátti hañ
verða lífi sviptur af fjørráðum Heródes-
ar; en hefði það skéð, þá hefði hañ ecki feng-
ið heimiñ farsælañ gjørt með sínum lær-
dómi, sínu dæmi og kéñíngum; ecki hefði
hañ þá uppfyllt Spámañaña spádóma,
né liðið svo qvalafullann dauðdaga, sem
fortakslaust krafdist af meðalgángara.
Sømuleiðis opinberaði vísdómur Guðs
sig í því, að Jesú dauði bar að rétt undir
Páskana; fregnin um pínu hans og
dauða, gat á engum tíma fljótar og al-
mennilegar útbreiðst, enn á þeirri tíð, þá
mørg þúsund Gyðínga vóru samankomn-
ir til Jerúsalem frá svo mørgum fjarlæg-
um lands-álfum; eða var það ecki sam-
hljóða

hljóða vísdómi Guðs, að sá, sem með Páskalambinu var fyrirmindaður, skyldi á sömu tíð og þessi offur-dýr framfærð vóru fyrir Guð, fullkomna sitt offur: eptir Guðs ráði var staðurinn áqvarðaður, hvar hañ deyja skyldi, ecki mátti það ské, að Messías væri líflátiñ í svo litlum og auðvyrðilegum stað, sem hans fæðíngarstaður var, heldur átti sá að vera staðuriñ, hvar hann endaði líf sitt, þar sem hann svo optlega áður kénnt hafði, þar, sem hañ gjört hafði svo mörg kraptaverk; sá staður, hvar allar fornir og opinber guðsþjónusta átti að framfara; sá staður, sem í sambandi stóð, við svo mörg öñur lönd, sá skyldi vera staðuriñ, hvar vor meðalgángari liði sínar bitru pýslir; en hvörs vegna skyldi hañ enda sitt líf utan borgar á fjallinu Golgatha? Páll leysir úr þessari spurníngu (Ebr. 13.): hvörra dýra blóð, sem innborið verður af enum æðsta Kéñimañi í hið heilaga fyrir syndirnar, þeirra sömu hræ skyldu uppbrennast utan herbúðanna, fyrir því hefir einnig Jesús, uppá það hañ helgaði fólkið fyrir sitt egið blóð, utan borgar-hliða látið sitt líf. Eptir Guðs ráði var það ályktað, hvörjum dauða Jesús deyja skyldi; það

vár

var krossins dauði, sem vor Medalgángari hlaut ad líða; þessi daud-dagi var ad sönu einhvørr hinn qvala mesti, sem hinnast mátti, en því undrunar-verdari er sú rósama þolinmæði, med hvørri Jesus þoldi hann án allrar möglunar, og því dýrmætara má oss vera það þolgædis-dæmi, sem hann þar med hefir gefið oss. Þvílíkur Jesú daud-dagi var einnig ádur fyrirmyndadur, því eins og Moses uppreisti eyrorminn í eydimörkinni, svo skyldi Mannsins-sonur upphefiast á krossinn, uppá það, ad allir þeir, sem á hann trúdu, ecki fortapast skyldu, heldur hafa eilíft líf. Eptir Guds rádi, vóru þeir áqvardadir, sem sviptu Jesúm lífi; hann skyldi líflátast af hvørutveggja því folki, er á þeim tídum byggdu jördina; þetta átti ad þéna til sönnunar því: ad eins og Gydingar og Heidingjar voru undir bölvuninni, svo skyldi Messías afreka hvøru-tveggjum blessunina. Eptir Guds rádi var þad áqvardad, hvad af Jesú dauda fljóta skyldi; hann átti, eins og Spámadurinn Esajas fyrirsegir: ad siá sína lyst og hafa nægtir, med sinni vidurkenníngu skyldi hann, sá Réttláti, gjöra marga réttláta; honum skyldi géfast mikid herfáng, og siálfir þeir sterku

skyldu

skyldu géfast honum ad herfángi; hann skyldi ødlast fjølda afqvæmis, sem honum þjónadi, og hans storu gjørnínga skyldu menn tilkynna barna-børnum, Es. 53. Þessa spádóms-uppfyllíng er skén í vors dýrmæta Endurlausnara persónu, og sérhvørr, sem med athygli adgætir þetta, má þar vid upphvattur verda, til ad tilbidja vísdóm Guds, og prísa hans kjærleiksfullu rádstofun. Já, alvísi nádugi Gud! í djúpustu audmýkt tilbidjum vér þitt vísa ráð, sem ályktadi vors Frelsara dauda. Sannarlega er þitt ráð undarlegt, og þú framqvæmir alla hluti dýrdlega. Nú megum vér, fyrir Jesú dauda, fullvissir vera um vora fridþægíngu. Forgéfins hefir Gud víst ecki gjørt þvílíka rádstofun, forgéfins kunni vor Jesús ecki ad deyja svo sérlegum og óvenjulegum daud-daga; forgéfins er þad ecki, ad spádómarnir um Jesú dauda eru svo ýtarlega uppfylltir; nú erum vér fulltrúa, já! lifum og deyjum vissir um þad, ad vér fyrir vors borgunar-manns dauda erum frikeyptir frá øllu straffi; en því dýrmætari og ómetanlegri á þess vegna hans daudi ad vera oss; og því skyldum vér nú syndga svo mótþróanlega á móti vorum Gudi, ad vilja gjøra ad engu

med

med ydrunarleysi Jesú dauda, er hann í vorn stad leid! einneginn má vor daudi oss ogsvo dýrmætur vera; sá sami vís-dómur, sem áqvardadi allt hvad vidbar vid Jesú dauda, mun og þannig haga öll-um atvikum vid vora burtfor frá heimi þessum, sem oss best hentar, hann hefir á-qvardad vorn dauda-dag, og utdurradad ollu fyrirfram þannig, ad oss, sem léttbær-ust verda mætti vor sídasta stund. Máské vér deyjum á vorum blomstrandi aldri; máské og komnir á efri aldur, þad skal engrar áhyggju auka oss. Tíminn, á hvør-jum þú, godi Gud! hefir áqvardad oss ad deyja, er víst hinn hæfilegasti; stadurinn jafnvel, hvar vér deyja skulum, er af þér fyrisjedur, hvørt heldur vér deyjum á fornum vegi, í voru húsi, á medal vorra vina edur ovina, í voru fødurlandi, edur á framandi stødum, þad er oss allt hid sama; vér kunnum ad deyja rólegir og holpnir á hvørjum helst stad, sem áqvard-adur er oss ad dauda-stad, þá vér einúngis deyjum, sem rétt-kristnir; en kannské þad gjøri oss qvída, ad vér vitum ecki sjúkdóm þann eda daud-daga, sem enda á vort líf; en því skyldum vér fyrir þá skuld bera á-hyggju? vors lífs Herra hefir áqvardad

øll atvik dauda vors eptir sinni alvísu gædsku; þad skédur ad hans rádi, hvørt heldur vér deyjum brádum dauda, edur eptir lángvarandi sjúkdóm, hvørt heldur med hægri tilfinníngu edur med mikilli pínu; einnig fyrir því, sem fljóta má af dauda vorum, hefir Gud borid þá vísustu umsorgun. Nú þegar hefir hann ætlad litinn hvíldar stad andvana líkama vorum, nú þegar hefir hañ hyggun geymda vinum vorum, er harma munu vora burtfør; hvørsu ánægdir megum vér þá ecki vera med þína rádstøfun, alvísi Gud! hvørsu rólegir og gladir kuñum vér þá ecki úr heiminum útgánga! þér, vor lausnari! þøckum vér alla vora lífs luckn, og vora sídustu rósemi! vertú ofs nádugur á þessum vorum sídustu lífs tímum, sakir þíns saklausa, fridþægjandi dauda; miskuna þig yfir ofs, o Jesú!

# 10. Føstu-Hugvekja.

Jesú hugprúda forsvar fyrir Kaiphasar Rétti, Matth. 26. Jóh. 18.

Í þessari Jesú adferd sjáum vér þañ ávinníng, sem god samvitska og hjartans sakleysi géfur, sérdeilis á neydariñar tíd.

tíð. Sú fyrsta hugleiðíng, sem hjá oss vakna má við sjón þessa ens áklágaða, er óneitanlega þessi: hvörsu æruverdugt er þið líðanda sakleysi! Jesús stóð hér framm fyri þeim yppurstu Prestum, Skriftlærðum og Oldúngum fólksins; þetta samqvæmi var að ytra áliti mjög æruverð samkunda, en eptir innvortis sinnislagi þeirra, samansafn skinhelgra hræsnara, svikara og mannhatara; hann vissi hvörs hann hafði að óttast af þessara manna skinhelgu vondsku. Pareð Kaiphas, frumqvöðull þessa blóð-ráðs, var þess forstjóri; hann, sem laungu áður hafði svarið Jesú dauða í hjarta sínu; þessi maður setti nú upp það domara yfirbragð, sem réttlæti elskar, og til að sýna, að hann fordast vildi allt hefndar-girnis skin, spurði Jesúm um hans kénníngu, og þann fjølda lýðs, er hann fengið hafði, sem tilheyrendur. Jesús, sem þeckti síns domara dula tilgáng, sá grant þessa spurnsmáls undirferli, og svaraði því spursmálinu með þeirri einurð, sem eingiñ, nema sá saklausi, hafa kañ, og með þvílíkri speki, sem einúngis mátti stað hafa hjá honum. Um sitt gjörvalla framferði mátti hann skjóta til vitnis alþýðuroms, og þeirra manna, er hann heyrt

hofðu;

høfdu; á medal þeirra jafnvel, sem fella vildu nú yfir hann dauda-dóm, vóru nockrir þeir, sem sjónar-vitni verid høfdu ad framferdi hans, Hann hafdi kénnt opinberlega, og eckért í leyndum talad þad, sem ecki var sambljóda hans opinberu kénníngu, því hvørr sá, sem illt hefir adhafst, dregur sig hellst í hlé, en hinn, sem gott gjørdi, lætur sig sjá fyrir almenníngs augum, og gjørir sín verk opinberlega. Vér viljum leida oss þad í huga, ad vér værum þeir, sem mæta skyldu fyrir veraldlegum Dómara, eda hitt, sem er svo miklu meira verdt, fyrir Guds dómstoli, hvar vér forsvara ættum framferdi vort. Mundum vér þá svo óskélfdir, sem Jesús, frambórid géta forsvar á móti þeim sakargiftum, sem þar mættu á oss berast? æ! hvad lítid høfum vér opinberlega gott gjørt, en því fleira íllt í leyndum adhafst! hvørsu margir mættu ecki med átlaganir oss á móti framkoma, sem vér hneixlad høfum med framferdi voru, styggt í ordum og kjærleikslaust vidhøndlad. Þad mátti nú géfa Lausnara vorum yfrid stóra hugsvølun, ad hann gat med stærstu hjartans rósemi skodad allar síns umlidna lífs athafnir, og engrar einustu var ordid, er ecki

 stofn-

stofnadi til eblíngar heimsins velferdar. Hvørsu grant, sem hann prófadi líf sitt, fann hann sig allt hafa rétt gjørt fyrir Guds og manna augum, því hann var sér einkis brests né breiskleika medvitandi, þess vegna gat hann mætt fyrir augsýn sinna dómara, med svo frímódugu sinni. Andsjed er þad hér af, hvørsu mikilsverd góð samvitska er, og hvørsu sá, hvørjum samvitskan um eckért brixlar, hafi litla orsok til, ad láta sér hugfallsa vid þad illgjarnasta baktal; enginn, nema sá rádvandi rétt-kristni, fær sýndann svo stórann hugmod vid áfelli rángra dóma. Honum liggur þad í hægu rúmi, þó hann færdur verdi fyrir manna dóma, hvørt honum hrósast af einum, edur hann lastast af hinum; því hvørt hann mætir æru edur vanæru, íllu edur gódu umtali, huggar hann sig þar vid, ad sig muni rétt ské af Gudi, og ad heimsins almennilegi doms-dagur muni sakleysid í ljós leida. Hér í heimi er ecki fullkomins réttlætis ad vænta, en þegar sá saklausasti á medal allra mannanna barna, hlaut ad mæta, sem sakamadur fyrir ogudlegra rádi, ætti oss þá vid þad ad bregda, sem at engri fullkominni dygd hofum ad hrósa oss, þó

vér

vér lída mættum kjærleikslausa dóma og illgjarnt baktal? nei, vid hvílíku megum vér búast ávallt í heimi þessum, en án þess vér látum þesskonar dóma hræda oss, skal sú vera vor sífeld ástundan, ad vardveita goda samvitsku fyrir Gudi, og þá mun sá þánki gefa oss hugar-mod: Drottinn er sá, sem dæmir mig; hvílík lucka er þad ecki, med sanni ad géta sagt: einkis erum vér oss þess medvitandi, er ollad géti oss fordæmíngar á dómsins degi. Vér erum oss ecki þess medvitandi, ad vér af ásettu rádi foraktad høfum vorn Lausnara, misbrúkad hans fridþægíngu, né lítils virdt hans evangelium. Vér erum oss þess ecki medvitandi, ad vér viljandi høfum nockurn forsmád né ólucku-legann gjørt. Þad er vor hrósan, sem er vitni vorrar samvitsku, ad vér høfum framgengid í heiminum í einfaldleika, og Guds grand-varlegleika (2 Cor. 1.), en med øllu þessu erum vér þo ecki réttlátir fyrir Gudi; þitt auga, o þú alsjáandi Gud! sem skodar grant vors hjarta huldustu fylsni, sjer þess oteljandi bresti, og gétur í ljos leidt þær syndir í fari voru, sem vér þeckium ecki sjálfir. Vér fengjum því ecki stadist fyrir þínum domi, ef vor Jesús tæki ecki vorn

F 2 mál-

málſtad, og gjørdi ſitt réttlæti, vor vegna, hjá þér gyldandi. Fyrir hans ſakir vertú oſs, o vor Gud! nádugur í þínum dómi, og þegar vort hjarta áklagar oſs fyrir þér, þá láttú oſs fríkénnda verda, vegna þeſs blóds, ſem hann einnig úthellt hefir fyrir vorar ſyndir.

## II. Føſtu-Hugvekja.

Péturs hugleyſi, Jóh. 18.

Ef ad vér hefdum átt ad dæma eptir þeim hugmód, ſem Pétur ſýndi, þegar Jeſús var til fánga tekinn, og eptir þeim heityrdum, ſem hann ádur géfid hafdi, mættum vér þenkt hafa, ad hans ſtødug-lyndi og trúmennſka vaxid hefdi því meir, ſem háſkinn vóx, er Jeſús var ſtaddur í; en hvørſu ſnøgglega hefir hann nú fengid ſinnaſkipti? nú, þá þeſs var-ad vænta, ad hann ſýndi hetju-mód, verdur hann hug-laus; hann minniſt ad ſønnu heityrdis ſíns, ſnýr til baka af flóttanum, og fylgir Jeſú eptir, en ecki nema álengdar, því hann qvídir ſømu hættu, ſem hans meiſtari er ſtaddur í. Ótti fyrir mønnum ſýnir ſig í øllum hans athøfnum og tali; hann ſam-lagar ſig hópnum, ſvo hann því ſídur þeckt-

þecktur yrdi. Þad sýniſt ad ſoñu vera ofurhugi, ſem dreif hañ til ad fylgja Jeſú bundnum eptir inn í Kénnimanna-hofdíngjans ſtofu, en þad var ofdyrſka, því laſtverdari, ſem hún var meiru hugleyſi blöndud. Þad var ofdyrfd, ad voga ſér í þad hættu-ſtríd, ad raunarlauſu, hvar hann mátti vita ſér óſigur búinn; þad var oflæti, ad ſýna á ſér útvortis hugdyrſku, en búa í hjartanu yfir megnum otta. Hvörſu mjög megum vér því ecki vaka yfir hjarta voru, og leitaſt vid ad ſigra þann ángiſtarſama ótta, ſem oſs ſvo tídt yfirfellur, og ollir því ad vér hindruſtum frá ad fordaſt þad vonda, en ydka gott? ollir því á tídum ótti fyrir mönnum, ad vér gjörumſt Jeſú Evangelió ótrúir, og forſómum ſkyldu vora af qvída fyrir álaſi edur athlátri manna? er þad ecki ótti fyrir yfirfallandi eymdum, ſem dregur hjarta vort frá því trauſti, er vér áttum á Gudi ad hafa? er þad ecki ótti fyrir daudanum, ſem gjörir oſs hañ ſvo ſkélfilegañ, ad oſs þegar hverfur hugur ef vér hugſum til hans? er þad ecki þræls-ótti fyrir Gudi, ſem fær oſs ſvo ákaflega ſkélfda vid ſérhvörn hans ſtröffunar-dóm, og nidurſlær oſs til jardar vid ſérhvörja hættu? er þad

ecki ótti fyrir helvíti, sem aptrar oss ad sønnu ad fremja stór glæpi, en upphvetur oss þo ecki til ydni og gódverka! opt høfum vér kannské leitast vid ad dempa þennann ótta, strída á móti honum, eda ad øllu fá hann nidurþryckta; en hvørsu ávaxtarlausir urdu ecki allir vorir vidburdir? þessi ótti yfirféll oss jafnódt aptur, þo vér meintum oss hafa hann sigrad. Æ! oss auma! hvørr vill fría oss frá þessum ótta? þú, vor Jesús! fær þad gjørt! tilgángur komu þinnar í heiminn, og þinnar pínu, fullvissar oss um þad, ad vér finna munum hjá þér rosemi fyrir sálu vora. Þegar samvitskan gjørir oss skélfda fyrir hegningu Guds; hvørsu rolegir megum vér þá ecki verda, þegar vér trúum á vorn Frelsara, fyrir hvørs blod syndir vorar eru afmádar? þá fær allt, sem þángad til var oss skélfilegt, annad útlit; vort mædusama líf, verdur oss vegur til fullkomnunar; þær háskasemdir, sem umkríngja oss, medal til vorrar trúarstyrkíngar; vor dauda-dagur verdur vor lausnar-dagur, og rotnan líkama vors, tilreidsla undir þá eptirkomandi forklárun; þegar vér þannig vyrdum fyrir oss þetta, sem oss var svo óttalegt, hverfur allt þad, sem ádur

ur ógnadi oss; veki vor vanmáttur og eymdir otta í hjarta voru, styrkjum vér oss í trúnni á Jesú náð. Vilji qvídi fyrir missir þessa heims forgengilegu muna, gjøra oss orolega, styrkjum vér oss í von oss ýnilegra gæda, sem oss geymd eru á himnum, um hvør Jesú pína, gefur oss fullkomnustu vissu; ecki ad sídur er oss þad naudsynlegt, til egin vareyhdar, síkeldt ad bera forsjálann otta, og fyrirfram búast vid motlæti, sem oss máské mæta kunni. Hefdi Pétur fyrirfram betur íhugad hugleysi sitt og þá hættu, sem hann stofnadi sér í, mundi hann traudlega hafa látid sigrast vid fyrsta freistínga áfall; flestar mótlætíngar, sem mæta oss, verda því tilfinnanlegastar og skadvænastar, ad þær adkoma óvørum. Oss er því hafla naudsynlegt ad venjast vid, ad setja oss fyrir sjonir midt í vorum lystisemdum og velgengni, þau mædu tilfelli, sem kynnu ad mæta oss, og segja til sjálfra vor: nú lifi eg ánægdur, og fyrir allri áhyggju frí; en hvørsu brádum gétur ecki sá tími adkomid, sem uppfylli sálu mína ángri og órósemi? nú er eg hughraustur og hefi djarfann hug til motstodu hvørju hellst freistínga áfalli; en hvørsu snarlega kañ

 ecki

ecki þad hættu tilfellt adbera, sem gjørt mig duglausann? nú elska eg Jesúm og hans kross; en hvørsu fljótt má ecki heimsins umgengni leida mig afvega, til ad verda hans kross-óvinur? nú hefi eg vidqvæmt hjarta; en hvørsu audveldlega má þad ecki ské, ad því lengur, sem eg þjóna syndinni, því hard-gédjadri verdi eg, og tilfinníngarlausari? nú er eg heill heilsu; en hvørsu snart kann ecki hættu-sjúkdómur ad leida mig fram ad daudans dyrum? ad øllu leiti fáum vér aldrei vorn ótta sigradann, á medan vér búum í heimi þessum. Alla tíma erum vér óvinum og háskasemdum umkríngdir, sem halda mega oss sſhræddum um sjálfa oss. Kom þú oss því veikum til hjálpar, Drottinn vor Frelsari! med þínum almáttuga krapti, vertú vort ljós, vor sáluhjálp og vor lífs-kraptur, ad enginn ótti megi fá oss svo skélfda, ad vort hjarta dragist frá þér! vardveittú oss fyrir øllum freistíngum, sem oss kynnu ad skada, og lát oss þjóna þér alla vora lífdaga án þrældóms ótta.

12. Hug-

# 12. Føstu-Hugvekja.

Jesú þolinmædi vid hans óvina álygar, Matth. 26:

Svo opt, sem Jesús vor lausnari gengur fram á strída-vollinn, sjáum vér hañ koma þadan krýndañ heidri og æru, jafnvel þá, viñur hañ dýrañ sigur, þegar hañ sýnist sigradur. Hans blód-þyrstu óvinir høfdu med snidugasta undirferli búid øll brogd, er þeir meintu ad fá hañ fángadañ med. Vrtxlyrdi høfdu þeir uppþenkt, af hvørjum þeir væntu sér áviñíngs; fjolda fals-votta fengu þeir framleidt, hvørra vitnisburdur verka mætti blód-dómiñ, er gánga skyldi yfir Jesú. En hvar vóru í þad siñ vitni hans sakleysis og gódgjørdasama kjærleika? hvar vóru þeir, er reynt hofdu sjálfir hans undrunarverdu hjálp? þvî framkomu þeir nú ecki, né hroktu med egin dæmum Jesú fjandmaña vitnisburd? nú var þó tími til, ad fjoldi aumra, er reynt høfdu Jesú medaumkunarsomu hjálp, hefdu med þacklætis-tárum og søñum vitnisburdi leidt Jesú sakleysi í ljós, því komu þeir ecki og søgdu med edla hugprýdi: þessi Jesús, sem svo illa er medfariñ, hefir ecki verdskuldad hvad þér vid hañ gjørid; mér hefir hañ ad bæn miñi géfid heilsuna apt-

ur; mér hefir hañ géfid mitt audvana barn aptur lifandi; mig hefir hañ med einu almættis ordi frá líkþrá hreinsad; fyrir hans hjálp vard eg, sem var mállaus, talandi; daufur heyrandi; halltur rétt gángandi; mér hefir hañ fyrirgéfid mín stóru afbrot! mundi ecki þessi samhljóda þacklætis vitnisburdur hafa mátt frelsa hañ saklausa Jesúm, eda þacklát kjærleikans rødd halltra, blindra, daufra, spitelskra og svo margra fleiri aumra, hærra kuña ad láta, eñ mañvondskuñar ljúgandi áklogun? o! engiñ af øllum þessum lætur sig nú sjá, engiñ þeirra vogar ad forsvara siñ velgjørara, hañ þarf ecki heldur þessa forsvars vid: Hans sakleysi sigradi án allrar annarar hjálpar, jafnvel hans óvinir sjálfir hlutu ad hjálpa til sigursins. Var þad ecki sigur fyrir hañ saklausa Jesúm, ad svo mikid ómak, sem óvinir hans gjørdu sér fyrir ad uppljóstra um hañ allskyns lognu lasti, er þeir uppspuñid fengu, ad enguin vitnum, sem þeir ad því framleiddu, samanbar? var þad ecki sigur, ad Jesús þagdi til allra lýgifullra sakargifta? sakleysi hans þurfti enga afsøkun, þad var hvørjum audsætt. Vér gledjum oss, o Jesú! vid þitt sakleysi; ef vér máttum vænta oss ad álitast réttlát-

ir

ir fyrir Guds dómi, hlautstú saklaus ad finnast fyrir Gudi og mönnum. Þitt forþénandi réttlæti er vor hyggan þegar vort hjarta fordæmir oss, og samvitskan vitnar í gégn oss. Æ! hversu ófarsælir mundum vér ordid hafa, þegar vér á sídan mæta skyldum fyrir þínum dómi, ef allar vorar drýgdu syndir, og öll tár saklausra, sem vér höfum áreitt, hrópadi hefnd yfir oss; æ! hvørs ættum vér þá, ad sjálfs verdugleikum vænta, nema fordæmíngar? en lofadur sértú nú eilíflega, o Jesú! fyrir þitt sakleysi! fyrir þess sakir megum vér nú vona ad úrskurdast saklausir í dóminum. Lofadur sértú einnig fyrir þessa þína pínu, sem þú med svo rólegum hetju-mod þolad hefir, undir hádúngum þinna óvina. Hvørnig fáum vér þína þolinmædi nógsamlega undrad! ekkert fékk bifad þína rólegu sálu, sem styrktist af þínu sakleysi. Ecki jafnvel sú miskunarlausasta medferd, fékk þig sviptann rósömu stöduglyndi; þú þegir, svarar engu; þetta er allt þitt forsvar, oll þín hefnd! þessa dygd viljum vér af þér læra, vor medalgángari! einkis viljum vér meta vanvyrdu þá, sem oss mætir óforþént. Vér viljum læra ad þegja, því máské vort tal leidi oss til nýrra synda.

Vér viljum med hógværu umburdarlyndi hughreystast gégn vorra óvina áráſum. Fordæmi oss ecki vort hjarta, høfum vér djørfúng ad mæta øllum vorum baktølurum og offóknar-møñum. Vér viljum því, med adstod gudlegrar nádar, svo framgánga, ad heimsins gjørvøll falsvitni gégn oss verdi til ſkamar; og þó ad vort sakleysi ætti hér offókn ad lída, kémur þó sá dagur, þegar þad ſkal vinna sigur á øllum hatursfullum ákløgunum.

## 13. Føstu-Hugvekja.

Medhøndlan Jesú fyrir andlegum Rétti, Marc. 14.

Þetta var nú sá tími, þá Jesús vard hinn fyrirlitnasti allra, þegar hañ þola hlaut þvílíka vanvyrdu, ad sérhvørr snéri sér frá honum, og enginn vyrdti hañ vidlits. Hann leitadi ad huggara, er sig aumka vildi í sínu sinni, en þar var engiñ, sem bæri medaumkun med honum, engiñ, sem huggadi hann. O! þú vanvyrdti og sár píndi Jesús! hvílík undur, ad til þín ſkyldi enginn líta medaumkunarsønu sorgar-auga! ad minnsta kosti vildum vér ecki horft hafa tilfinníngarlausir á þína píni.

þinn. Voru hjarta blædir, ef vér vyrdum fyrir oss þínar píslir. Eru þad ecki vorar syndir, sem gjørdu þér þvílika mædu og erfidi? var þad ecki vor vanvyrda, sem þú barst? æ! lát vor augu fest vera á þessari sorgar-sjón, og þegar vér skodum þig í þinni vanvyrdu, láttú oss þenkja til sjálfra vor, berja oss á brjóst, og gráta vorar syndir; hvorsu grimdarfulla vondsku máttir þú ecki útstanda, vor Jesú! allt sameinadi sig til ad auka þínar qvalir. Sá villuflockur ógudlegra manna, dyrfist ad høndla óheyrilega vid þig; því hvad er grimdarfull misþyrming og medhøndlan, sé þad ecki ad hrækja saklausum í andlit, ad slá hann med knefum, ad gjøra hann ad spotti og athlátri? og þetta gjørdu þessir vondskufullu þrælar vid þig, þú saklausasti og besti medal mannanna sona! þeir hrækja í þína ásjónu; þar hafa þá enn stadid máské storknadir blód-dropar, máské qvølin, þú leidst í Gras-gardinum hafi eñ á þinu andliti verid þeckjanlega afmálud. Ad miñsta kosti var audsjen í andliti þínu hin vinsamlegasta hógværd, hinn hreinskilnasti mann-kjærleiki og djúpasta sorg; allt þetta féck ecki miñstu verkun gjørt á þeirra hardsvírudu hjørtum. Þeir slá

þig

þig med knefum, þeir slá þig, sem engri mañeskju nockuratíma amadir; þig, sem eckért hafdir adhafst, er ynni til straffs; þig, sem aldrei hegdadir þér ødruvísi, enn sem manna velgjørari, og þó er enn ecki tilsfa þeirra þar med sødd; þeir hæda þitt heilaga embætti; smánarlegustu hádúng gjørdu þeir þér med því ad byrgja þitt andlit, og krøfdu, ad þú, sem Spámadur, opinbera skyldir, hvørr sá verid hefdi, sem á þér æfdi mann vondsku sína. Enn hvørnig vefdi farid, ef ad þú opnad hefdir þinn munn, og bodid ad þessir gudleysíngjar, samstundis medtaka skyldu forþént laun: en— þú leidst þessa vondsku med oútsegjanlegri þolinmædi. Fríviljugur baudstú þína ásjónu fram undir hrákana, og þinn hrygg undir høggin. Æ! hvad gjørdi þig þá svo fúsann til ad gángast undir þvílíkar qvalir? hvad annad enn kjærleiki til syndaranna; og sakleysi þíns hjarta, styrkti þig undir øllum þessum píslum. Þu hafdir fyrir augum þá blessun, er spottyrdin, sem þú þoldir, afreka áttu mañkyninu; þú vissir ad engin vanvyrda, hvørsu stór, sem hún var, gat nidrad sakleysi þínu. Þú þecktir dýrd þá, sem þér var geymd ad píslum þínum útstodnum,

þess

þess vegna þoldir þú krossinn og aktadir ecki vanvyrduna. Þessi hádúng var einig af Guds ásettu rádi yfir þér ágvórdud, af engri hendíngu var þad, ad þessar sómu, og engrar adrar písslir mættu þér. Vér setjum oss fyrir sjonir, ad þú vid þessa vondsku medferd hafir lída mátt fyrir syndir þær, sem drýgjast á móti kristilegri trú; þú leidst þína spádóma ad hádi hafda, nú finnum vér þad ecki undrunarverdt, ad svo márgir spottarár med frekum hádyrdum vanvyrda þitt ord: med þessari þinni pínu hefir þú frísad þá frá strasfinu, sem yfir þá hefdi átt ad koma, midt í því, ad þeir svo illa vanbrúkudu þitt ord; burtryckist þeir ecki í skyndíngu í þinni reidi, fái þeir enn þá tíma til ad snúa sér til þín, er þad þinni fridþægjandi pínu ad þacka, þessari, sem þú lída máttir, undir ovina þinna hádúngum. Framkomi hér blodþyrstir, hardgédja og grimdarfullir miskunarleysíngjar, og sjái vorn pínda Lausnara; alla þá hardhýdgi, sem þeir vid þá aumu í framimi hofdu, þau hógg, sem þeir saklausu lída máttu af þeim, alla þá brædi, sem þeir vid minnstu yfirsjón létu falla yfir hinn meinlausa, fyrir allt þetta hefir þér hinn saklausasti hlotid ad lída. Þeg-

Þegar þér, hardgédja manneſkjur! vægdarlauſt medhöndlid hinn ſaklauſa, vid hvørt eitt tárid, ſem þér preſſid út af hans augum, vid hvørt mein, ſem þér gjørid honum, vid hvørt eitt ſpottyrdi, þér hædid hann med, rennid þaunkunum til Jeſúm og hugleidid: ad þér í ydar ſaklauſu brædrum hafid fordum misþyrmt ydar Lauſnara, og fáid þér vid þeſſa hugleidíngu eñ þá afram haldid í hardýdgi og miſkunarleyſi? lát oſs aldrei gleyma, ó! vor Frelſari! þeirri vanvyrdu, er þú lída máttir? þánkinn um hana aptri oſs frá því ad ſyndga, og géfi oſs hugar-mód til ad lída þær hádúngar þolinmódlega, ſem oſs kuña ad höndum bera. Ecki ſkal þad undra oſs, þó vér þola megum hádyrdi fyrir vidurkénníngu hins lærdóms, þó vér mæta megnum forakti af heiminum fyrir þad, ad vér eptirfylgjum þér; þó ad vér í heimſins augum haldnir verdum fáráðlíngar, ſem ecki þecki heiminn, og kunni ecki eptir aldar-mód ad lifa, viljum vér una því þolinmódir, og hvørki med valdi né brögdum láta oſs draga frá þér. Þegar endiriñ kémur, mun þad þó lokſins ſjáſt, hvørt ſá hædandi edur hiñ hæddi, hvørt Kriſts kroſselſkari, edur hans óvinur, vard luckulegri.

# 14. Føstu-Hugvekja.

Péturs fall, Marc. 14.

Nú kom þad fram, sem Jesús hafdi fyrirsagt Pétri um fall hans. Af hans dæmi má sjá, hvar sá lendir, sem stofnar sér vísvitandi í hættu, og vogar sér úti freistíngar þær, sem hann er ófveikur til ad yfirvinna. Ef dæma skyldi um Pétur eptir hans kárlmenſku heityrdum fyrifram, hefdi því traudlega mátt trúa, ad herſkiileg daudans hætta hefdi hrædt hann; en hér þarf lángtum minna til ad taka úr honum allañ dug. Sjáum! þessi lærisveiñ, sem ádur var svo hugadur, hañ, sem einn vildi berjast vid heilañ flock af alvopnudu stríðsfólki, hañ fær nú ecki stadist tillit eiñar ambáttar og nockurra þénara; fyrir þessum audvyrdilegu persónum verdur hañ svo skélkadur, eins og hann ætti af þeim ad takast til fánga og líflátast. Og, hefdi hans afneitan ecki skéd nema einusinni, mátti honum hafa sýnst nockurt vorkunar-mál; en hañ afneitar Jesú hvad eptir annad, þar hañ þó hafdi tíma til umþenkíngar yfirsjón siñi, frá því ambáttin kastadi ordum á hañ í fyrsta siñni. En, hann géck af ásettu úti nýja freistínga-

 hættu,

hættu, og þegar hañ fyrst með lausum orðum afneitað hafði meistara sínum, gjörði hann það skömmum seinna með eiði og formælingum. Með meðlíðunarsömum kjærleika og viðurkénningu vors egiñ veikleika, íhugum vér þetta Jesú lærisveins fall, í hvílíkt fordjörfunar afgrunn féll ecki Pétur hér, hann, sem áður hafði sýnt sig svo mörgum öðrum fremri að hugprýði og frómlyndi? það var ecki að undra þo Júdas gjörði sig sekañ í þeirri synd, sem hann drýgði, hann hafði ætíð haft illann mann að geyma, aldrei elskað sinn meistara af einlægu hjarta, og aldrei það aðhafst, sem hann mátti æru hafa af; en, að Pétur, sem elskaði sinn Meistara með svo einlægum og heitum kjærleika, hann, sem hafði svo næg rök um Jesú guddóm, og við sérhvört tækifæri sýnt hafði sig ofurhuga, að þessi Pétur skyldi við svo litla reynslu huglaus verða og falla, það er undrunarverdt. Hvar er nú þessa lærisveins mikla hugprýði? hvar hans laungun að bera sannleikanum vitni? á þeim stað, hvar hann afneitaði Jesú, átti hann að aflegg ja óræckann vitnisburð um Jesú sakleysi; hér hefði Pétur átt að leitast við að sannfæra Jesú óvini um ránglæti þeirra, straffa

þeirra

þeirra blódgyrni, ad minnsta kosti vekja nockra medlídun hjá þeim vid hiñ saklausa Jesúm; en á þessum háskasama stad, hvar hann var staddur, gætti hann engrar þessarar kjærleiks-skyldu, hann ígrundadi hvorki Jesú óvina hardhýdgi, né hans sakleysi, því sídur skyldu sína ad vidurkénna haň opinberlega; hann hugsadi einúngis til sjálfs síns, og hvornig hann fá mætti lífi sínu borgid, þad var honum dýrmætara enn Jesú líf, og hans nafns vidurkéñíng. Sá píslar-daudi, sem hann qvída mátti ef hann játadi sig Jesú lærisvein, ógnadi honum svo mjøg, ad haň héldt þad best úr-rædi strax ad afneita Jesú Þessa Péturs afneitun féck nú Jesús ad heyra þá, er honum mátti falla sem þýngst, midt í því hann var dæmdur til dauda af ránglátum domurum, midt í því hann þola hlaut grimdarfyllstu medferd í þrælahøndum, midt í øllu þessu bar Péturs afneitan til, og hvad mátti nú ecki auka á qvalir þær haň leid, ad þessi einhvørr hans trausti lærisveinn skyldi afneita honum, og ecki vilja kannast vid hann. O! Jesú! hvørsu mikil hefir í þad sinn verid þín sálar-qvøl! ecki voru þad litlar píslir, sem þú leidst af miskunarlausri medferd þrælaña,

sem hæddu þig, hræktu þér í ásjónu og slóu þig, en hvørsu miklu stærri qvalar má þó ecki hafa ollad þér afneitan þíns egin lærisveins, sem í stad, þess ad hughreysta þig í þinni miklu qvøl, særdi þitt hjarta svo tilfinnanlegu sári; en þetta útheimtist og til ens fulla mælirs þinnar písla, sem þér var af Fødurnum áqvardadur; þú áttir ad pínast bædi fyrir þinna óvina misgjørdir, og þinna vina yfirsjónir; sá veiki eins og sá sterki, spottarinn eins og meinsærismadurinn, sá óstøduglyndi eins og hinn ótrúi, áttu allir ad finna fridþægíngu í þinni pínu. Hvørsu hugguuar-ríkt er þetta ecki fyrir oss, sem engu stødugglyndari erum enn Pétur; hans Afneitunar-saga, er orðrétt afmálan vors egin hjarta; hans fall má vera oss til þeirrar varúdar, aldrei ad stóla á vora eginn krapta, og aldrei af ótta fyrir mønnum, ad verda Frelsara vorum ótrúir. Þessarar varúdar þurfum vér því heldur vid, sem sá heimur er hættulegri, í hvørjum vér lifum, þar afvegaleidslur og tálsnørur á allar sídur umkríngja oss. Þær, sem jafnvel gjøra mættu hid stødugasta hjarta óstødugt. Hvørnig megum vér nockurntíma treysta eginn vitsmunum vorum, rádvendni edur setníngi? lítilvægt

til-

tilfelli, sem vér ecki fengum fyrirsjed, ellegar, sem ofs vyrdtist einkisverdt, fær tídum í einu gjört vorn einlægasta ásetníng ávartarlausann. Hvørsu opt hafa ecki leidast látid til óstødugleika, ákøfustu Evangelií vidurkénnarar, og gudhrædslunñar einlægustu elskarar hneigst til ad vikja frá réttum vegi, jafnvel fyrir léttvægustu tilefni, svosem fyrir lítilfjørlegt smjadur, gladlegt spaug, máské fyrir óttasakir ad misþocknast þeim, hvørra vinfengi þeim reid á nockru; máské fyrir lucku þeirra og metorda skuld á komandi tídum: máské af eintómri gédlempni þeirri, ad haga sér eptir annara þenkíngar-hætti, eda þúsund ødrum tilefnum, sem í sjálfu sér adgætt, eru nær því einkisverd, og þegar vér skeikum í fyrstunni, megum vér þegar qvída brádu falli. Pad fyrsta afvik á lastanna veg ollir því, ad vér fáum ecki umflúid ad villast lengra; ad minnsta kosti vill torveldara veita, ad snúa aptur, þegar madur einusinni hefir vogad sér á lastanna afveg. Til ad ná þeckjanlegum framførum í gudhrædslu, útheimtist margra ára æfíng, en til ad falla í stóra misgjørnínga og syndir, nægja fáir dagar, jafnvel nockrir tímar, hvørsu sem hjartad

er vandad. Hvørsu litid megnum vér veſælar manneſkjur, ef vér einir ſkulum fyrir oſs ráda? hvørsu ſnøgglega verdum vér ecki ſigradir, ef vér í tranſti á eginn kreptum vorum, vogum oſs útí ſtrídid? mundi þurfa til vid oſs bál edur aftøkuſtadi, eda pínu-becki, eda grimdar medhøndlun, ad vér ſvørudum: ecki þecki eg Jeſúm? miña þarf tilefnid: ecki nema ad oſs ſé ſmjadrad, ſvo afneitum vér Jeſú. Hvørsu margar tillockanir til þvílíkra ſynda, géfur ecki tímaña vantrú? má ecki af mergum heyra hádyrdi á móti trúnni? kanníké vér þola megum med forakti til vor ſagt: þeſſi er eiñig einn af þeim, ſem trúa á Jeſúm af Nazareth; vér kuñum kanníké ad haldaſt þvílíkir, ſem ecki þeckja réttann lifnádar-máta, ſem miltis-ſjúkir eda mann-óvinir; ef vér ecki tøkum hlutdeild í almaña lyſtiſemdum, þá er þad og vid øll þvílík tilefni og tækifæri, ad vér vaka megum yfir hjarta voru, ad þad láti ecki ſigraſt af þvílíkum freiſtíngum. O! Herra Jeſú! þegar vér ſtaddir erum í þeirri hættu frá þér ad lockaſt, vyrdſtú þá ad miſkuna þig yfir oſs; réttú oſs þína hægri hønd, þegar vér ætlum ad ſøckva nidur í eymdanna afgrunn; látú þad aldrei ſké,

ad

ad vér lockumst frá þér; géfdú oss náð til að leita hælis hjá þér í óluckuñi, en gleyma þér aldrei í luckuñi, æ! að vér mættum reynast þér trúir til dauðans! það mun verða vor hrósan á þínum tilkomu-degi.

## 15.Föstu-Hugvekja.

Jesú gæðska við Pétur fallinn, Lúc. 22.

Varla hafði Jesús sjeð siñ elskaða lærisvein af freistíngunni sigraðann og fallinn, fyrr enn hann með flýtir fékk honum á fætur hjálpað og útryckt úr voðannum, sem hann var staddur í; óðar eñ hann féll, varð hann aptur á fætur reistur; svo ótrúann, sem Pétur sýndi sig nú Meistara sínum, svo ástúdlegann sýndi Jesús sig þó honum. Hvörr fær nóglega ígrundað mikilleik þessa Jesú kjærleika? hvörr gétur ánægjanlega skilið, hvörsu mikið að tåibindi þessi orð: Jesús leit til Péturs? þessi qvaldi maður átti nú að stríða við svo margskonar eymdir, að eckt máttu undur þykja, þótt hann einúngis þenkt hefði um sjálfann sig, og um þær píslir hann leið. Sínu andliti, vanvyrdtu með hrákum og höggum, augunum þrútnum af tárum, snéri hann nú frá öllu og

til þess, sem nú jók honum mesta qvöl. Máské Jesús hafi nú stadid bundinn vid stolpa, og lidid, án þess ad géta hrært sig, alla þá vanvyrdu, sem honum var gjörd; engin medhöndlan, hvörsu grimmileg, sem hún var, fékk honum viktd frá rósemi sinnar sálar, en þegar hann heyrdi, ad hans eginn lærisveinn formældi sér med mörgum eidum, þá snéri hann sér vid til þessa manns, sem gaf honum lángtum tilfinnanlegri slög, enn hin vóru, sem hann þola mátti af grimmum þrælum; hann leit til hans, til þessu ótrúa, hrædda vinar, sem ecki einúngis hafdi gleymt honum og vanvyrdt hann, heldur þad, sem enn þá var þýngra, afneitad honum; hann leit til hans, þo ecki med því reidi tilliti, sem grimm hjartadur hegnari lítur til fángans, ecki med þeim grimdar-augum, sem hinn, er órétt leid, lítur til síns mótparts, ecki med því stollta tilliti, sem hinn voldugi lítur til hins vesæla, sem hann þykist styggdur af; ecki þeim hefndar-augum, sem drepa vildu hann óvin, er sekann hafdi gjört sig í nockrum misgjörníngi, hvílíkt tillit gat ecki stad haft hjá honum, hvörs heilögustu augu sýndu einúngis hreinasta mann-kjærleika. Þad tillit hann gjördi

til

til ſíns fallna lærisveins, var þad augna-tillit, sem ſýndi sárustu sorg og vidqvæmasta kjærleika; hefdi Jesús gétad talad, enn máské hann hafi nú verid svo medfarinn, máské svo ørmagna, ad hañ hafi ecki, vegna pínunñar, fengid ordum uppkomid, en hefdi hann gétad talad, med hvílíkum harmi og vidqvæmri ástúd, mundi hann ecki ávarpad hafa sinn lærisvein, minnt hann á sín heityrdi, géfid honum til kyña sína hjartasorg? þó var augnanna mál enn þá eptirtakanlegra fyrir **Pétur**; Jesús þurfti eckí nema ad líta til **Péturs**, til ad segja honum þarmed allt, hvad jafnvel ecki hin kroptugasta ordsnild mundi hafa sagt gétad; hvad sá **Pétur**, þegar hans augu mættu Jesú augna-tilliti? al-blódugt náhleikt andlit, augu, af hvørjum tárin útfossudu; og hvad sagdi þessi sjón honum? **Pétur**! svo grimmilega er mér misþyrmt, og þú, þú villt líka auka mína pínu; sjádú! hvørsu miknir óvinir hafa útleikid mig; eg þoli høgg og hádúngar, og þú villt einnig auka þær, hvørsu djúpt, ó! **Pétur**! hvørsu djúpt ertú fallinn! Jesús leit til **Péturs**; þañig lítur máské trúfastur fadir til sonar síns, sem fyrrum var hans yndi, og væntanleg elli-stod, enn er nú afvegaleidd-

ur ordinn ad gudleysíngi, nú, þegar dauð-
inn nálægir sig hinum aldrada fødur, læt-
ur hañ sinn fortapada son kalla ad bana-
sæng sinni; dandans ángist hefir svipt
hann málinu, svo hann gétur engu ordi
uppkomid; en hañ lítur til sonar síns, og
þetta sídasta tillit af þess deyjanda fødurs
hálf-brostnu augum, á ad sýna syninum
hans sárheita kjærleika og brennandi á-
hyggju um hans velferd; en þessi afmál-
an er allt of sljó til ad ímínda sér þá vid-
qvæmni, er sýndi sig í Jesú augna-tilliti
til Péturs. Med ómótstandanlegri mañ-
gædsku horfdi hann á hann, og svo aumk-
unarlega, sem ásjána hans var útleikin,
svo var þó audþeckjanleg í hans gjørvøllu
andlitsfalli hin stærsta hógværd, vinsemd
og mannúdlegleiki; og, o Pétur! í hvíl-
íkann eymda afgrunn hefdi ecki sála þín
nidursockid, hefdi ecki Jesú vidqvæma til-
lit nú hjálpad þér! hvørsu nálægur varstú
ecki þeim háska, sífeldt lengra ad fram-
gánga á lastaña vegi, ætíd ad verda kald-
sinnadri vid meistara þinn, og forherdtari
í hjartanu á móti sannleikans verkum?
máské þú, blindadur á lastaña vegi, hefdir
svo lengi áfram haldid, þar til þín sam-
vitska loksins uppvaknad hefdi med pín-
andi

andi ørvǿſnun; hvílíkur óútmálanlegur kjærleiki! Jeſús lítur til þín, nú þegar ſvo ſtórt vidliggür; hans augna tillit átti ad minna þig á heityrdi þín; hans augna tillit átti ad úppfylla hjarta þitt hlygdun og hugar-ángri, vekja þig af þínum ſvefni, varna þér framhalds í ſyndinñi, vera þín huggan í þinni einſemi, og ſannfæra þig um þíns meiſtara vidvarandi kjærleika; állt þetta vildi Jeſús med ſínu tilliti til Péturs hafa áuñid, og lofud veri hans nád, ad hann ecki bar forgéfins umhyggju fyrir þeſſa fortapada ſyndara frelſi; en þín nád hefir einnig, eilífi Miſkunari! gjørt ſig dýrdlega á oſs; ertú ecki ſá, ſem leiddir oſs til baka frá fordjørfunarinnar afvegum á dygdanna veg? O vor Gud! fyrir laungu værum vér í vorum ſyndum til grunna gengnir, eda vort hjarta forherdt ordid móti øllum gódum hræríngum, hefdir þú ecki vyrdt oſs þinnar umhyggju. Med hvílíkri trúfeſti fylgdir þú oſs ecki eptir? med hvílíkri gædſku uppleitadir þú oſs ecki? med hvílíkri makt útrycktir þú oſs ecki úr hættuñi, þegar vér gengum á ſkadlegum afvegum? hvad áſtúdlega leitadir þú ecki ad oſs, þegar vér med hræſni afneitudum þér, ad vor ſála ecki ſkyldi tapaſt?

ast? o vor Herra og vor Gud! taktú aldrei þína náð frá oss! líttú medlídandi auga til vor, þegar vér med ordum, gjørdum edur hugreñíngum afneitum þér, svo vér ecki deyjum sem þíns kross óvinir! líttú til vor med vidqvæmri miskunandi medaumkun, þegar freistíngarnar vilja fella oss, ad vér fá megum hugar-móð og styrkleika; líttú til vor, þegar vér huggunarlausir ætlum ad falla í örvýlnun vid endurminníngu vorra synda, svo vér fiña megum rósemi vorum sálum; æ! líttú til vor, þá lokssins ad því kémur, ad vér liggja hljótum hjálparlausir, veikir og gledi fyrrtir á vorri bana-sæng, svo ad vér þá fiña mættum endurnæringu í vorri daudans ángist.

## 16. Føstu-Hugvekja.

Péturs ydran, Lúc. 22.

Hvílíkann krapt hafdi þess sár-qvalda Jesú augna tillit. Hér sýndi Jesús sig í fjøtrunum sem Herra þañ, er allra manna hjørtu hefdi í sínu valdi. Hvørsu máttfarin og ávaxtarlaus eru ecki tídum vor ástúdlegustu og medlídunarsomustu augna-tillit, hvørsu sjaldan luckast gódum fodur, ad fá sitt tapada barn leidt frá villu-

villu-vegi, med því hrærandi augna-máli eda ødrum medølum þeim, sem ástsemi hans óskadi ad fá honum snúid med? Ødruvísi var Jesú tillit til síns fallna vinar. Þetta augna-tillit þreyngdi sér inn í Péturs sál, og sýndi honum í einu bædi stærd hans synda, og þann háska, er hann hafdi varpad sér í. Þetta augna tillit vakti hann af svefninum, sem hann var fallinn í, og leiddi í einu til hugleidíngar misgjørníngs síns. Pétur féck ecki stadist Jesú tillit, med flýtir géck hann út af Biskups-stofunni, sem honum var ordin svo fárlegur stadur, hann gaf sig nu úr þeim syndara solli, sem leidt hafdi hjarta hans frá sínum Meistara; einvera var nú ad sønnu sorgleg fyrir hann, en þar hjá nytsamleg. Í einrúmi gat hann íhugad stærd síns misgjørníngs, og stærd Jesú nádar, þar gat hann ransakad med gaumgæfni, hvørsu hans hjarta var ásigkomid, er leidt var afvega af þeirri hrædslu, sem yfirféll hann; þar gat hann íhugad hvørsu smámsamann hann leiddist afvega, þar til hann loksins féll. Enginn efi er á því, ad vér mundum lángtum lengra komnir á gudræknínnar vegi, ef vér þannig fylgt hefdum Péturs dæmi. Svo lengi, sem

vér

vér sáum ecki slitid oss frá gjálifis solli og gledskap, í hvörju hjarta vort míst hefir sakleysid; svo lengi, sem vér leitum oss á-nægju í ydnglegum vellystíngum, lysti-semdum og óhæverskn samtali, sem nidur-drepid hafdi híngad til hjá oss sérhvörn gudræknis þánka; svo lengi, sem vér ecki umflýjum þá stadi, sem bjóda oss tækifæri til þeirra synda, sem vér erum hneigdir til, eda kunnum leidast til ad drýgja, svo lengi verdur ad engu sérhvörr gódur ásetn-íngur, sem vér tøkum oss fyrir hendur. Byrjadú því, kristinn madur! med þeirr-ar ædstu nádar adstod, ad yfirgéfa sem fyrst þessa vegi. Settú þér fyrir sjónir, med hvörsu medlíðunarsømu auga Jes-ús muni til þín líta, er þú svo tídum afneit-ar honum, med ósidsamri késkni og margs-konar fáfengilegum lystisemdum. Hug-leidtú, hvört þú mundir vilja hafa þann ad sjónar-vitni þíns ósidsama framferdis, hvörjum þú ert skuldbundinn ad veita mik-inn heidur; nú er Gud, þinn Jesús og engl-arnir ætíd ósýnilegir vottar ad þínum syndsamlegum athøfnum, og vildir þú þá drýgja syndir þær, í svo heidvyrdra vitna nærveru, sem gjøra þig ad vidbjód í þeirra augum? æ! umflýdú þær lystisemdir, sem os-

ofmjög iñtaka þitt hjarta; flýdú þá stadi hvar Gud og Jesús kann ecki nálægur ad" vera med siñi náð. Gjördú þér ómak, fyrir Guds anda krapt, ad sundurslíta þau fjøtur og hlecki, sem halda þér faungudum í lastanna valdi. Leitadú einveru þeirrar, sem þér var hyngad til svo gledisnaud, því lengur, sem þú venur þig til einveru, því ábatasamara er þad þínu egin hjarta; þú lærir þar med þá kunnst, ánægdur ad vera fyrir utan háreystis gledisoll, og ánægdur einmana, án afvegaleidandi vinafélags; þá muntú fyrst fá þeckt þíns egin hjarta rétta ásigkomulag, sem þér var dulid á medan þú lifdir í gjálífum heimsins solli. Pétur huldi sitt hofud af blygdun og ángri yfir drýgdum misgjørdum, er hañ géck út frá þessum synda solli. Nú var honum horfid sjálfbyrgíngs oftraustid á sínum eginn kroptum, sem hann stóladi uppá ádur, þegar hann vogadi ad segja til Jesúm: Herra! eg er reidubúiñ ad gánga í fángelsi, og í daudañ sjálfann med þér; nú héldt hañ, ad hvørr einn, sem fengi sig augum litid, mundi géfa sér brixlyrdi fyrir veikleika siñ og óstoduglyndi, sérhvørr rádvandur mundi nú kasta á sig forakti. Æ! hvad mikid vantar oss á ad vera þañ-

ig siñadir; máské vér séum svo lángt komm-
ir á lastanna vegi, ad vér drýgt gétum stór-
syndir blygdunarlaust fyrir utan allt áng-
ur og trega. Máské vér jafnvel ecki rodn-
um framar vid, þó vér tolum hádyrdi,
klám, baktal edur lýgi, edur heyrum þvi-
likt skammarlegt tal af ødrum. Máské
vér leitum vorrar æru í því, ad vera hér í
simradir, sem fordjarfadur almenníngur,
og þó vér séum enn ecki ordnir svo blygd-
unarlausir í lastanna æfíngu, megum vér
þó vidurkéña oss stór-syndara ámoti Gudi.
Ad sønnu leidumst vér til blygdunar yfir
brestum vorum, þegar samvitskan, edur
trúr vinur, minnir oss á þau, en því eru
þau oss þá svo kjær og ástfólgin? ó! Gud!
þú þeckir vora vanart, audmýktú vor
hjørtu, og haldtú oss vid þig stødugum!
Pétri, sem híngad til sýndist hugsunar-
laus um þann sálar-voda, hann steypti sér
í, og tilfinníngarlaus vid qvälir þær, sem
Jesús leid, brá svo vid Jesú tillit, ad hañ
ecki einúngis géck út úr þessum þræla-hopi,
heldur grét beisklega; þetta var sú fyrsta
hægd, sem hans særda hjarta gat fengid;
en þad var og hin fyrsta verkun þess gud-
dóms kraptar, er samfara var Jesú augna-
tilliti. Hjarta Péturs var enn ecki for-
herdt

herdt ordid, á móti samvitskunar brísl-yrdum, hañ fann stærd syndar siñar, sem olli honum óþolandi sálar-órósemi, en fañ léttir í ad úthella bitru tára flódi; ecki sídur høfum vér orsøk til ad gráta biturlega vor afbrot. Gud vardveiti oss frá því tilstandi, ad verda tilfinníngarlausir, þegar vér yfirvegum fjolda og stærd vorra synda! hann vardveiti oss frá, ad gledjast nockurntíma af því, ad oss luckast ad syndga! hvørr, sem ecki finnur efni til ad ángrast yfir sínum syndum, hann fær ecki heldur gladst af því, ad vita sig til nádar tekinn. Gledja má þad oss, ad vér erum enn ecki svo forherdtir. Hugleidíng synda vorra og þeirra pýsla, sem Jesús fyrir þær leid, vekur nú, þá vér vyrdum þetta fyrir oss, í hjarta voru trega, og pressar oss tár af augum, en hvørsu skjótt eru ecki þessi tár þornud, og med þeim horfin sú einlægasta ydran, og hiñ besti ásetníngur? varanlegri var sú verkan, er Péturs ydrunartár høfdu, varla munu þau þornad hafa ad fullu, hans líf var þadan af síseld ydran. Hafi hans kjærleiki til Jesúm veikur verid, þegar hann afneitadi honum, hvørsu sterkur, hvørsu ákafur og brennandi var hann þá ecki sídan, þegar Jesús

 spurdi

spurdi hañ: Símon! elskar þú mig? já, Herra! sagdi hann, þú veitst alla hluti, þú veitst ad eg elska þig. Í þetta sinn áfneitadi hann Jesú fyrir hans ovina augsýn, en hvørsu hugdjarfur medkéñdi hañ þá ecki Jesúm sídan, ecki fyrir litlum hópi, heldur fyrir mørgum þúsundum hans mótstandara? þó ad hañ flýdi nú frá dómstóli hinna ránglátu, med hvílíkri gledi lét hann sig ecki sídan færa frá einum dómstóli til annars, frá einu landi til annars, og til skiptis leida fyrir Gydínga og Rómverja rétt? þó ad hann hafi nú verid ofhugdeigur til ad útgéfa lífid fyrir Jesúm, med hvílíkri gledi gaf hann sig ecki sídan í daudann fyrir hans nafn, og mundi þúsundsinnum hafa gengid med honum í daudann? o! ad vor ydran, vort ángur og tár, hefdu eins varanlega verkun! o! ad vér, sem híngad til høfum Jesúm svo lítils aktad, mættum hér eptir elska hann því heitara, og verda honum því fastar áhángandi! en hvad megna þessar vorar óskir? Jesú! þiñ almáttugi kraptur beygi vorn vilja til þessa góda ásetníngs, og styrki oss til ad framqvæma hañ! þú, sem ecki útskúfadir þínum Pétri, þegar hañ grátandi leitadi nádar; medaumkunarsami, nádar-

nádar-ríki Lausnari! láttú oss og finna þitt andlit, þegar vort hjarta úthellir tárum og klögunum fyrir þér! styrktú oss í þeim ásetníngi, ad offra þér oss, og eins og vér híngad til verid höfum heimsins eign, syndarinnar þénarar og offur vorra lystínga, svo láttú oss hér eptir vera þína eign, þína þénara og þitt offur, og verda þad um alla eilífd!

## 17. Föstu-Hugvekja.

Guddómur þess lídandá Jesú, Lúc. 22.

Því framar, sem vér sannfærumst þar um, ad sá píndi Jesús sé hinn sanni eilífi Gud, því betur styrkist vor trú, um Jesú mátt og nád til ad fá oss hólpna gjört. Jesús sætti því hendtugu tækifæri vid hvort hann fengi gefid sínum óvinum vitni um hvörr hann væri. Híngad til hafdi hann þagad til allra spurnínga, sem honum vóru gjördar, hann þoldi án mögl-unar alla misþyrmíngu, sem vid hann var í frammi höfd, en þegar til þess kom, ad hann vitna skyldi um sitt medalgángara embætti, og sinn guddóm, þá talaði hann med allri djörfúng og alvörugéfni; hann gaf sínum óvinum klárlega til kynna: ad

almættis hans og hátignar opinberan, skyldi innan skamms byrja, þá nefnilega er heilagur Andi yrdi sýnilega úthelltur, og hans reidi-dómur yfir Jerúsalem framkæmi. Og hvad mátti sanna Jesú guddóm framar enn uppfylling þessa spádóms, sem skédi ad fáum vikum lidnum, og þegar sá fyrisagdi hegníngar-tími kom yfir Jerúsalem, vóru eñ þá margir þeirra lifandi og nálægir, sem nú heyrdu hans ord. Vér finnum ecki einúngis þessa, heldur miklu fleiri órækar røksemdir Jesú guddóms, jafnvel í hans djúpustu nidurlægíngu. Fyrifram vissi hañ hvørr sig mundi for-ráda; hann fyrisagdi tímañ, nær Pétur mundi afneita sér; med einu ordi varpadi hann óvinum sínum til jardar; hann gjørdi krapta-verk í sama bili og hann var til fánga tekinn; hann fékk med einu auga-tilliti fallinn Pétur vakiñ til umvendunar; hann sañadi af krossinum, ad þad stód í hans valdi, ad taka syndarana til nádar, og þegar hann var nidurstíginn á lægstu nidurlægíngar-tröppu, og leid daudann, hvørsu dýrdlega vard hann þá ecki, svosem Sonur Guds auglýstur? sólin formyrkvast, jørdin skélfur, grafirnar opna sig, og allt verdur samfara, til ad opin-

opinbera þessa deyjandi hátign. Hvörsu kröptugar huggauir finnum vér ecki í öllu þessu? vér sjáum að guddómurinn styrkt hefir þá líðandi manndómlegu náttúru Jesú, svo að hún fengi staðist, og borið písl- ir þær, er Frelsarinn hlaut að líða mann- kyninu til forlíkunar. Vér sjáum nú að vors Lausnara píslir, hafa ómælilega stórt gyldi, og nú fær fyrst Jesú pína og dauði í vorum augum sitt fulla verð, nú er það andsjeð, hvörsu það, sem Jesús leið, óendanlega yfirgengur það, allir hans píslar-vottar síðan líða máttu; mundi vor Jesús, einúngis fyrir þá skuld, útstaðið hafa svo margfaldar píslir, og svo smán- arlegann dauða, að vér í honum hafa mættum dæmi fyrir oss til eptirbreytíng- ar í vorum þjáníngum og vorum dauða? skyldi hann einúngis hafa þess vegna lið- ið, þá fáum vér ecki skilið, hvors vegna Guds Sonur var eginlega þar til valinn; og hvar til mátti þetta dygdanna ypp- arsta-munstur nota oss, ef vér ecki ásamt fengið hefðum krapta til að líkjast því? nei! vér erum þarum sannfærðir, að Jesú pína, er af óendanlega æðra verði; vér sjáum í vors líðanda Jesú persónu, ecki einúngis trúarinnar píslar-vott, heldur og hennar

 hof-

höfund og hetju, og í hvörju fótmáli, sem hañ framgengur á sínum píslar vegi, ecki einúngis munstur, heldur eiñig offur fyrir syndugt mannkyn. Þad má í einu ordi segja: ad vér finnum sameinad í Jesú Píslar-sögu vorrar trúar- og sida-lærdóm, í Jesú persónu vorn Frelsara, og í vorum Frelsara vorn Gud. Jesú daudi, hvílíkur daudi, og fyrir oss! ad vera Gud og verda madur, til þess ad géta lidid óendanlega mikid, verda sá foraktanlegasti og lítilmótlegasti á medal maña; sveitast blódugum sveita í Gethsemane í stridi vid dau'ann; hrópa á krossinum: **Gud miñ! Gud miñ! hvar fyrir hefir þú yfirgéfid mig?** og deyja fyrir þverbrotnar mañeskjur, fyrir upphlaups-meñ, fyrir oss, hvílíkur daudi er þetta? þañig dó eingiñ Stephán. eingiñ Jakob, eingiñ Páll. Ef ad vér yfirvegum Jesú Píslar-sögu med réttu hugar-fari, er þad ómögulegt ad vér fáum hana lesid, edur um hana þenkt, án þess ad vekjast til undrunar, medlídunar, trúar, kjærleika, þacklætis og eptirbreytíngar. Med hvörsu brennandi kjærleika ættum vér ecki ad elska vorn Lausnara, sem svipti sig þeirri hátign og sögnudi, er hann hafdi hjá sínum födur, til

til ad fá oss fríada frá þeim eymdum, sem syndin steypti oss í? hvørnig kann þacklæti vort ad verda nógu brennandi, þegar vér yfirvegum þá óendanlegu sælu, sem vér egum vorum medalgángara ad þacka. AE! vort óþackláta hjarta, sem enn þá elskar oflítid þann, sem oss elskad hefir allt til daudans! hrær þú, o Jesú! med þíns anda krapti, vort kalda hjarta, ad í því upptendrast mætti brennandi elska til þín, af þínum guddómlega kjærleiks eldi; haldtú oss stødugum í trúnni á þér æfinlega, þú, sem med þínum dauda hefir afrekad oss óendanlega sælu!

# 18. Føstu-Hugvekja.

Tilgángur Guds ad afhenda Jesúm í Heidíngjanna hendur, Jóh. 18.

Jesú Krists Píslar-saga er partur af søgu um Guddómsins huldu stjórnun, ellegar hún má miklu framar heita: samansøfnun undrunarverdustu adburda, sem nockurntíma hafa á jørdunni vidborid. Jafnvel þó Guds heilagleiki leyfdi ecki, ad hann med nockru móti styrkti mannanna vondsku, til síns sonar lífláts, er hitt þó óneitanlegt, ad vér í sérhvør-

jum parti Jesú ýmu, fáum ad sjá augljóst
ust rokum guddomlega forsjón. Þad var
Guds forsjónar-verk ad framqvæma þad,
sem hañ hafdi ályktad yfir Jesú, einúngis
med því ad lída og leyfa athöfnum mañá
frjálsann gáng, og sameina undrunarlega
adskiljanleg tilfelli, sem sýnduft ské af eintómri
hendíngu. Þad var verkun Guds
forsjónar, ad leida flárædi Gydínganna,
sem afhendti Jesúm í Heidíngjanna hendur,
ad þeim tilgángi, sem útkrafdist til
framqvæmdar þessu miklu forlíkunarverki.
Í þessu efni hondludu Gydíngar
eptir rádi síns spillta hjarta. Þeir vildu
med Jesú afhendíngu til Heidíngja, velta
folksins sjandskap uppá Rómverja, og olla
honum þvílíks dauda-straffs, sem gjöra
mátti hann ad vidbjód í alls Gydínga-
lýds augum. Þessi vondi ásetníngur luckadist
þeim, en þad, sem hér af flaut, var
komid undir stjórnun ædra vísdóms, þeir
hugsudu illt, en Gud hugsadi þad til ens
góda. Án þess ad skérda í nockru hans
heilagleika, var Guds fyrirfram áqvardada
rád, ad Jesús afhendast skyldi í Heidíngja
hendur. Hefdi Jesús dáid undir
Gydínga-lýds hondum, þá hefdi fregnin
um dauda hans, ecki svo audveldlega út-
bor-

borist til hinna heidnu landa, heldur hvílst einúngis iñan takmarka Gydíngalands. Rómaborg og Grícklandhefdi þá trauðlega fengid hérum nockrar fregnir. En þá Jesús var af døgum ráðiñ af hvorutveggjum sameiginlega, Gydíngum og Rómverjum, hlaut fregnin um hans dauda, því kuñari og útbreiddari ad verda, jafnvel á medal þeirra þjóda, sem í engu sambandi stódu vid Gydínga. Fregnin um krossfestann krapta-verka gjørara, opnadi þegar veginn fyrir Evangelíum, fyrreñ Postularnir gátu komnir verid til hiña heidnu landa. Margir, sem heyrdu þennann atburd, urdu þar vid leiddir til gódra þánka um Jesúm, ad minnsta kosti hrærdir til medaumkunar vid hañ, og nú kuñu Jesú vitni, þegar þeir bodudu vorn krossfestañ Frelsara, ad skírskota hér til, svo sem þess efnis, er bædi Gydíngum og Heidíngjum mætti alkunnugt vera, Þeir gátu nú bodad Jesúm hiñ krossfesta, hvorutveggju þjódiñi, sem þeirra Frelsara, þared hvorutveggju þessara lýda hofdu hjálpast ad Jesú lífláti. Hefdi Jesús dáid undir Gydínganna hondum, þá hefdi hann ecki gétad lidid krossins dauda, sem einúngis var dauda-straff á medal Rómverja. En Jes-

ús átti eginlega, eptir Guðs áqvarðaða ráði, að líða þetta lífslát, í hvörju sameinnd var yfrið stór háðúng hinum allrabitrustu qvölum. Að sönu hefði hans dauði mátt forlíka, þó hann hefði verið hálshöggvinn, sem Johannes Skírari, ellegar grýttur eins og Stephán, en hvörsu gátu þá fyrirmindanirnar uppfyllst, sem Jesús sjálfur þýddi uppá sinn dauð-daga? hvörsu gat Davíðs spádómur þá rætst, þar hann svo mörgum hundruð árum áður spáð hafði: að Heidíngjarnir mundu setja sig upp á móti Messías, og samansafnast í hópatali, að menn mundu ígégnumstínga hans hendur og fætur, og kasta hlutkésti um klæði hans. Einúngis af þeirri orsök var það nauðsynlegt, að Jesús liði krossins dauða, og dæi því undir Heidíngja höndum; en við náqvæmari eptirþánka lærum vér að þeckja enn þá annann tilgáng Guðs, því hann lét Jesúm þenna dauðdaga líða. Frelsarans dauði átti að vera þvílíkur, að hann deyjandi, væri sem háðúng og aðhlátur fyrir allra augum; það átti að vera þvílíkur dauð-dagi, hvar við hann úthellti sínu blóði, hvar við hann yrði bölvan fyrir oss, hvar við enginn hans lima mætti sundurbrjótast, og hvar við hann í

tali

tali sínu og gjørvallri adferd, gæti meddeilt dýrmætustu lærdóma og øbluguſtu hugganir. Allt þetta gat audveldaſt ſkéd vid kroſſins dauda. Í djúpuſtu audmýkt tilbidjum vér, o alvíſi Gud! þitt rád, ſem í sérhvörju atvíki vors Jeſú þínu, ſañfær-ir oſs kroptuglega þar um, ad þínn vísdómur hefir ſigur unnid yfir øllum þeirra ógudlegu rádſløgunum, og framqvæmt þid mikla verk, fyrir hvört heimuriñ ſkyldi frelſaſt. Hvörſu dýrmæt má ecki ſála vor vera í þínum augum, þar þú ſvo mikid gjort hefir heñi til frelſis? en þú hefir med því einnig ſýnt mikilleik þinnar ſpeki og gædſku; þeſſa gædſku þína vill ecki heimurinn þeckja, þitt alvíſa rád er honum heimſka, og Jeſú kroſs hneixli. Í vorum augum eru þínar rádsályktanir tilbeidſluverdaſti vísdómur; Jeſú kroſs er oſs verduguſt vidurkeñing, vor æra og vor trú; þó ad heimurinn rádſlagi á móti þér og þínum ſmurda, nuu hann þó, án ſinnar vitundar, já, jafnvel á móti vilja ſínum, neydaſt til ad framqvæma þitt rád; mikli Gud! hvörſu hugguñar-ríkur er ecki þeſſi ſañleiki fyrir oſs, í þeſſa lífs umbreytíngum? eckért getur oſs í heiminum mætt, nema hvad hiñ alvíſi hefir frá eilífd fyrir-ſjed;

sjed; þegar vér trúum á Jesúm og elskum hañ, þá mun allt, jafnvel hid íllgjarnasta vélrædi, sem menn høfdu á móti oss uppspunnid, hljóta ad þéna oss til besta, hann mun og reynast nógu máttugur til framqvæmdar sínu ályktada rádi med oss, hvada hindranir, sem mæta kunna; þad baktal, sem óvinir vorir vilja fella oss med, mun upphefja oss; háð-yrdi þau, med hvorjum þeir spotta oss, munu falla til baka á sjálfa þá, ; órósemin, hvorrar þeir vilja oss olla, mun efla vora lucku, og þó ad þeir svipti oss lífinu, mun þó daudinn opna oss inngaungu í betra líf. Þess høfum vér einúngis ad gæta, ad hjarta vort sé sinnad, sem Jesús var sinnadur, í øllum þeim þjáníngum, sem oss mæta. Sífeldt hljótum vér ad vardveita sama trúnadar-traust, vera svo undirgéfnir og hlýdnir Gudi, sem vor Jesús var, og varast ad olla oss samvitsku ákløgunar, þá gétum vér óskélfdir mætt øllu, hvørju hellst, sem ad høndum ber, þá megum vér vera þess fulltrúa, ad allar ráds álygtanir vors Guds, munu loksins endast med nád og vegsemd, því séum vér honum trúir, heldur hañ í vora hægri hønd, leidir oss eptir sínu rádi, og medtekur oss loksins til æru.

19. Fostu-

# 19. Føstu-Hugvekja.

Jesú sakleysi sannad af hans óvina sakargiftum, Lúc. 23.

Híngad til høfdu Jesú óvinir framfært þær sakargiftir honum á móti, sem í einfaldra augum máttu bera nockurt sannleiks skin; en þegar þeir fengu þad nú reynt, hvørsu gagnlaus þeim vard þvílík vidleitni, blygdudust þeir ecki vid ad uppdikta opinbera lýgi, Jesú til áfellis. Þeir dyrfdust ad ljúga uppá Jesúm þvílíkum sakargiftum, sem øllum var audsætt ad ósannar vóru, því hvør lýgi var ótrúanlegri eñ sú, ad hann skyldi hafa frásnúid fólkinu, og viljad æsa upphlaup, hañ, sem einkis leitadi framar, eñ stilla til fridar og rósemi, og flúdi úr høndum alþýdunnar, þá fólkid vildi hafa gjørt hann ad Kóngi? á medal þeirra morgu á hvørjum hann sýnt hafdi sín dásemdar verk, hafa efalaust nockrir verid svo þacklátlega siñadir, ad þeir viljugir hefdu umbunad honum þegna velgjørnínga med hvørju helst í þeirra valdi stód, en vér finnum þess hvørgi røk, ad hann þád hafi edur þyggja viljad miñstu umbun edur áviñíng fyrir sín mildiríku kjærleiks verk. Aldrei

leitadi hann med þeim-egin fordildar edur ábata, hann vildi heldur lifa í forakti og fátækt, enn sýna minsta egingirnis skin, í gódgjørdum sínum. A hvada røkum byggdid þér þá, íllgjørnu Gydíngar! ad Jesús hefdi uppæst lýdinn? hvar hafdi han nockurntíma þá kénníngu framfært, sem gæfi hid allra minnsta skin til þessarar sakargiftar? af hvørjum hans lífs athøfnum fæst þad í gátu leidt, ad hans fyrirtæki væri þvílíkt? optar enn eitt sinn hafnadi hañ þeim voldum, sem alþýdan vildi hefja hañ til; hefdi honum verid añt um, ad fá sér flock alþýdu til fylgis, var þad audunnid, því fólkid, sem eins undradi hans kénníngu og kraptaverk, var honum yfrid fylgisamt, og hvørsu fúslega mundu ecki þeir sjúku, fátæku og fyrirlitnu hafa tekid hans máístad, og styrkt hans fyrirtæki, hefdu þeir þess varir ordid, ad hann vildi gjøra uppreisn nockra í landinu? eda því var nú lýdur, þessi, añars svo nýjúnga- og upphlaups-gjarn, svo afskiptalaus, þá foríngi þeirra var til fánga tekinn? audsætt er því sérhvørjum hvørsu átillulaus þessi uppljóstur var. Ecki ad sídur svo blygdunarlaus og íllgjørn, sem þessi sakar-gift var, bættu þeir annari lýgi-

lýgilegri vid: Jesús hefir, segja þeir, bañad fólkinu ad borga Keisaranum skatt. Sá er eginlegleiki hins forherdta og forblindada, ad hañ loksins nær þeim framförum í löstunum, ad eckért sær framar miñstu verkun hjá honum gjört; þar til útkrafdist hvílík mannvondska, sem hjá Jesú fjandmoñum var nóg fyrir, ad kuña án blygdunar, án hugarhrellíngar, já, án tilfiñíngar, hlada eiñi ódygd ofaná adra. Í fyrstuñi, þá menn villast á lastaña veg, gjörir samvitskuñar áklagan þá stundum órólega; en sem þeir taka ad æfast í löstunum, þagnar samvitskan, og drýgja þeir þá hvorn glæpinn ödrum stærri, án minnstu hjartans blygdunar; þañig var nú Jesú óvinum varid, þeir upplugu þessari sakargift á móti honum, sem ecki hafdi miñsta sannleiks skin, því ecki nema fyrir tveimur dögum hafdi Jesús gésid Pharisæaña og Herodesar þénurum gagnstædañ úrskurd því, sem þeir nú frambáru. Uppá spurnínguna: hvört rétt væri ad géfa Keisaranum skatt? hafdi hañ svarad þeim: géfid Keisaranum hvad Keisarans er, og þad Gudi sem Guds er, og þó dyrfdust þeir nú ad frambera þad, sem gagnstædt var Jesú ordum, og gjöra þeñañ lýgi-áburd

ad

ad lífláts-sök. En í hvílíkri byrtu skín hér ecki vors Frelsara guddómlega sakleysi! svo vanvyrdandi og vondskufull, sem hans óvina lastmæli vóru, er þó eckért þeirra, sem nidri hans heilaga líferni; þeir hefdu víst ecki þagad um hiñ minnsta brest, sem fleckad hefdi hans líf, nú þá þeir leitudu alls þess, er honum mætti ad áfelli verda, heldur fagnandi valid til sérhvorja jafnvel ógætnis yfirsjón, sem í Jesú fari hefdi verid finnanleg, og fært honum til áfellis; en Jésú hreina og flecklausa líferni neyddi þá til ad grípa til lýgiñar, og grunda á lognum lastmælum hans fordæmingu; þvílíkañ ypparsta Prest skyldum vér hafa, sem væri heilagur, saklaus, ofleckadur og fráskilinn syndurunum, ef ad vér fríast ættum frá vorri skuld. Medalgángarinn sá, sem géck í borgun fyrir oss, mátti ecki fleckadur vera af nockurri synd, ef ad vér standast skyldum fyrir Guds dómi. O! hvörsu gledjum vér oss vid þitt sakleysi, vor lídandi Medalgángari! í eilífa örvæntun hefdum vér ordid ad falla, ef vér hefdum ecki þá huggun, þegar samvitskan áklagar oss, ad þú ert saklaus fundinn fyrir Gudi og mønnum.

# 20. Föstu-Hugvekja.

Svikarans Júdasar ólucksulegu æfilok, Matth. 27.

Þar stód sá ólucksulegi Júdas, adfram kominn þeim afgrunns-hyl, sem girnd̄anna afvegaleidandi villa, hafdi fært hann rétt ad, án þess hann gætti sín. Þar stód hann, sviptur allri hugar rósemi, hann sá afgrunnsins botnlausa djúp undir fótum sér, géck nockur fótmál til baka aptur, nálægdi sig honum á ný, og nidurvarpadi sér loksins í hann, fullur örvæntingar. Já, örvæntingarfullur! o! hvörr fær skilid, hvörr gétur í hug sér leidt fulla meiníngu þessa hryllilega ords? hvörr fær útmálad allar þær ógnanir, sem í því ordi liggja folgnar, án þess sjálfur ad hafa reynt örvæntíngarinnar písslir? og hvörr fær þessar písslir reynt, án þess ad gánga til grunna undir þeirra tilfinníngu, eins og þessi blindadi syndari? í hvílíka óluckn steypir syndin!.. Þad er hinn fyrsti lærdómur, sem þessa örvhlnada dæmi géfur oss. Þegar Júdasi kom fyrst í hug sá gudlausi gjörníngur, er hann sídan drýgdi, þá blindadi hans dárlega hjarta hann svo, ad hann féck ecki sjed þá óluckn, sem fljóta

mundi af hans synd, hann leit ecki lengra, ênn til hinna vesælu nota, sem hañ vænti sér af því, ad eignast fáeina peninga; hañ leiddi sér þá ecki í hánka, þá samvitsku ángist, sem uppfylla mundi hjarta hans, þegar hann framqvæmt hefdi misgjørníng sin, ecki heldur kom honum í hug stærd syndar sinnar, þá hann fyrir skammarlegs ávinníngs-sakir, vildi gieraſt svikari Meistara síns, og mordíngi síns velgjørara, og mátti þannig útslétta alla þacklætis, trúskapar- og rádvendnis-tilfinníngu úr hjarta sínu. Þannig gengur þad hinum druckna, honum kémur þad ecki til hugar, í hvílíkañ háska, hañ í sínu dryckjuskapar-ædi steypir sér vid hvørt fótmálld, sem hañ framgengur; hann hrædist ecki þann afgrunn, sem hann fetar ad, hann aktar ad engu vareygdar advaranir; en hvílík ángist má hann ecki yfirfalla, þegar hann aptur raknadur úr rotinu, verdur þess var, hvørsu stór sú hætta var, sem hann hafdi steypt sér í, þegar hann sjer þá vanvyrdu, sem á hann er fallinn, og eymd þá, sem hañ er kominn í, án þess neinn fái hjálpad honum. Í þvílíku ásigkomulagi var Júdas staddur, þegar samvitskan vaknadi og endadi ædi hans óstyrtlátu girndá. Nú setur hann

hann sér fyrir sjónir misgjørning sinn svo viðbjóðslegann, sem hann raunar var, hvørr einn þánki, sem hann rennir til sjálfs síns, fyllir hann blygdunar, ángistar og nagandi órósemi. Nú viðurkénnir hann, þá skammarlegu orsök, sem táldró hann til þessa svikræðis, þá lítilsverðu þrjá-hgi sylfur-penínga, fyrir hvørja hann seldt Meistara sinn, og nú, þegar hann sjer Jesúm til dáuda dæmdann, þenkir hann til sinnar fordæmíngar, er hann vænta má á þeim mikla dóms degi, fyrir engla og manna augsýn. Í þvílíkri þánkanna ángistarsamri órósemi, vyrðist honum, sem hann þegar sjái þann af sér forráðna Jesúm í sinni dýrð, sem dómara sinn, rétt eins og hann heyrði nú þegar þá þrumu-rødd, sem vísadi honum til hins eilífa elds; eins og hann þegar staddur væri á medal stallbræðra sinna í þeim stað, hvar allar píslir umkríngja hina fordæmdu. Til að svipta sig þessum ýknandi þaunkum, og til að stytta ángist sína, til hvørs grípur þá þessi blindaði? hann tekur fyrir sig verk, sem sýhr hans hugar ímindun til reyaslu þess, er hann ímindaði sér, og gjørir qvol hans óendanlega, hann gengur burt og hengir sjálfann sig. Svo ofboðslegur má þeirr-

ar manneskju daudi verda, hvorrar líf var svo vidbjódslegt! en til þess krefst eckt þvílík vondska og forherdíng, sem hjá Júdasi var, ad deyja í ørvǿlnun. Sérhvør synd, svo lítils jafnvel, sem hún er oktud, fær oss leidda ad þeim ógnarlega afgruñi, í hvørn svikarinn Júdas er fallinn. Sú synd, sem oss vyrdist eins og lítilfjørlegt sand-korn, á medan samvitskan liggur í dái, kann, þegar hún lokfins vaknar, ad þryckja oss, sem bjarg, og tortýna oss undir sínum þúnga. Nú er þad máské í vorum augum léttvæg søk, ad misþyrma hinum saklausa, ad draga eckjur og føðurlausa med ránglæti á tálar, ad setja til sídu þá skyldu, er vér audsýna egum foreldrum og yfirbodurum, en munum vér og svo þannig dæma, þegar daudinn er ad oss kominn? já! svorum vér, kómi hann til mín, þegar hann koma vill! setji mín samvitska mér fyrir sjónir stærd og fjølda minna synda, og skal þó ecki, sem Júdas, falla í ørvǿlnun. Med sannri ydrun og ángri vil eg sætta mig vid Gud, og þarmed gjøra mína samvitsku rólega. En, syndari! þú, sem leitast vid ad hughreysta þig med þessari huggun, þú gætir þess máské ecki, hvørsu ángurfullt og nidurbeygt hins ør-

orvhlnada Júdasar hjarta var, hvørnig hann leitadi allra þeirra medala, sem hann vænti nockrar hægdar af, sínu ángistar-fulla hjarta, hann var víst ecki svo rólegur, sem margur hvørr. syndari er, eptir drýgdann misgjørníng; hann fann til hins allra stærsta vidbjods fyrir sjálfum sér, og sínu vondsku verki; blygdun, ángist og hatur til syndar sinnar, var hjá honum samfara þúngsinni og hjartans sárri hrygd. Hann þeckti misgjørníng sinn, og skammadist sín ecki ad vidurkénna hann fyrir þeim, er vidurkénníng þessi mátti vera hin ógédfeldasta. Hann géck til hiña yppurstu Presta, og snaradi blod-peníngunum fyrir fætur þeim, hann leitadi huggunar hjá þeim, og meinti ad fiña nockra hægd hjarta sínu, þá hañ med þessu móti frfadi sig frá nockru af þeirri byrdi, er á honum lá; en allt þetta gat ecki læknad hans særdu samvitsku, eckért linad þá qvøl, sem endurmiñíng hans vondsku ollt honum, eckért frelsad hann frá sinni orvhlnun. Reyndú sjálfur, ó syndari! ad fiña rósemi í bitru hugar-ángri og trega, þá sál þín er særd og slegin. Uthelltu tára-flódi; láttu blygdun og vanvyrdu beygja þig til jardar, hvad ávinnur þú med því?

þad fer svo fjærri, ad hjarta þitt fái vid þad minnstu rósemi, ad þad miklu framar má bresta þar vid undir sinni egin qvøl. Leitadú þér þá hægdar hjá þeim, er verid høfdu lagsmeñ þínir í þínum drýgda misgjørníngi; o! þeir, sem svo grimmir vóru sjálfum sér, kunna ecki vid þig ad vera medlídunarsamir; þeir, sem sjálfir enga rósemi hafa, géta heldur enga rósemi veitt; þó ad þú fyrir þeim úthellir bitru tára-flódi, mundu þeir einnig máské svara þér: sjádú þar fyrir! o! vei þér! þegar þú ert einúngis komiñ uppá þitt egid rád! vei þér! þegar þín egin vernd á ad frelsa þig frá fordjørfuninni! hér er ecki nema einn vegur eptir, sem fái þér hjálpad frá þiñi ólucku. Láttú þitt ángur-pínda hjarta leita rósemi hjá þeim, sem úthellt hefir sínu blódi fyrir allar þínar syndir. Hefdi Júdas med ángist og trega yfir sinni synd, nálægt sig Jesú, hvørt mundi hañ med miñi hjartagæsku hafa á móti honum tekid, eñ á móti Pétri, sem afsór hañ? o! Júdas! því fundadir þú ecki til hans, sem þú hafdir med þínum misgjørníngi á móti brotid, heldur eñ ad gánga til hiña grimu skálka? fyrir honum skyldirdú úthellt hafa tárum, en ecki þeim, er þig høfdu táldregid; hann

hefdi

hefdi vist afþurkad þin tár. Fyrir hañ átt-
ir þú ad niđurleggja þad ydrunar offur,
sem þínir óvinir forsmádu, æ! hañ hefdi
tekid á móti því med gledi; honum áttir þú
ad vidurkéña þiñ misgjørnińga, hañ hefdi
fyrirgéfid þér allar þínar syndir, og hug-
hreyst þitt ángistarfulla hjarta med sí-nu
endurlausnar huggun. O! ad þessi hugg-
an væri æ lifandi í vorri sálu, þegar vér
enga rósemi fundid gétum, en vér med
hjartans ángri miñumst vorra misgjørda!
lát oss þá, o Jesú! ecki ad eins sjá stærd
vorra synda, heldur ásamt stærd þinnar
miskunar, sem hylji þær; þegar umþenk-
íng Guds réttlætis og heilagleika uppfyll-
ir vort hjarta skélfandi blygdun, láttú þá
íhugun þiñar miskunar aptur hughreysta
þad. Ogni oss tilhugsan þeirrar fordæm-
íngar, sem vér med vorum syndum høfum
verdskuldad, láttú þá oss í hug koma þad
fullgylda lausnargjald, med hvørju vér er-
um fridkeyptir frá eilífri fordjørfun!

## 21. Føstu-Hugvekja.

Jesú játníng fyrir Pilató, Jóh. 18.

Til eblíngar trúar vorrar og rósemi, er
harla naudsynlegt ad þeckja þig, vor

píndi Frelsari! ad vera Konúng, af hvorjum vér med rétti vænta megum alls þess, sem útkrefst til vorrar lucku og frelsis. Þínir egin lærisveinar hefdu kannské traudlega þeckt þigundir þeirri stóru vanvyrdu, sem þú lídi hlautst, þegar á þér var engin mind eda fegurd, þú varst sá foraktanlegasti og fyrirlitnasti, fullur pínu og kránkleika, svo foraktadur, ad menn huldu sitt andlit fyrir þér, sem fyrir þræl. Því var øll þørf, ad þú gjørdir játníngu um þína konglegu hátign; og þo ad þessi játníng væri fyrir Pílato ávaxtarlaus, er hún þad þo ecki fyrir oss. Oss er þad nærsta mikils verdt, ad vér vitum: ad Jesús er Kóngur, hann er hinn fyrirheitni Messías og heimsins Frelsari. Nú hverfa allar sannsýnilegar mótsagnir, sem vér híngad til sýndumst fundid hafa, þegar vér leitudum hans konglegu hátignar. Oskiljanlegt var oss þad, hvornig Jesús kynni Kongur vera, og þó svo foraktadur, svo skammarlega misþyrmdur, og svo djúpt nidurlæckadur; þad var oss ógrípanlegt, ad Jesús, sem Kóngur, kynni hafa svo fáa þegna, og svo fáa af hinum ríku og mektugu, sem heita mættu þegnar hans: ad Jesú skyldi géfin øll makt á himni og á jørdu, en ad jard-

jardarinnar Furstar deildu þó heimsins löndum og ríkjum á milli sín. Ad vera Kóngur og vera þó svo foraktadur, synist ad vera sjálfu sér motsegjandi; en nú upplýsist þetta myrkur; hann er Kóngur, en hans ríki er ecki af þessum heimi, hans ríki er sannleikans-ríki: vel sé oss, ad Jesú ríki er ecki jardneskt; nú hofum vér hugfróa, þo vér finnum hvorki vini, lucku né metord í heiminum, heldur eymd, forakt og fátækt; nú skal þad ecki villa oss, þó vér fáum ecki allt þad, sem vér óskum oss, og væntum hér í lífi. Jesú ríki er ecki af þessum heimi; þessu ríki er ødruvísi háttad enn jardarlanar Kóngs-ríkjum; vér þurfum ecki vid stórrar penínga summu; vér þurfum ecki ad offra blódi voru né audlegd, til ad fá oss stad keyptann í þessu Kóngs-ríki; vér þurfum ecki ad eydileggja oss sjálfa, til ad auka veldi vors Kóngs; ecki þurfum vér ad óttast fyrir missir audæfa þeirra, sem vor Kóngur hefir oss í hendur fengid. Jesú ríki er ecki af þessum heimi; jardnesk ríki eru undirkøstud vidvarandi biltíngum, þeirra makt og prýdi varir skamma stund, en þetta ríki mun útbreida sín takmørk lángtum vídar, heldur enn tídin ágvardar jardneskra ríkja varanlegleika;

þegar allir trónar og herradœmi uppbreñast, þegar Kóngar verda lítillæckadir og gjørdir jafnir ølmusu-mønnum, þegar einginn á neitt þad, sem hann megi yfir drottna, þá byrjar fyrst vort ríki, þá munum vér upphefjast til ædstu tignar, og ega alla hluti. Jesú ríki er ecki af þessum heimi. Þér dramblátu jardnesku Kóngar! stærid ydur eckí, þegar Jesú ríkis vinir standa fyrir ydrum dómstóli, þá vor Kóngur sjálfur má verda af ydur fordæmdur; hvørsu snøgglega munnd þér ecki svipttr øllum ydar gérsemum, allri makt, øllum heims vyrdíngum? hvørsu brádum munud þér ecki standa frammi fyrir þeim fordæmda Jésú, og vér munum upphefjast vid hans hlid, þegar þér verdid fordæmdir til eilífrar hádúngar. Jesú ríki er ecki af þessum heimi. Látum Kónga og kappa leita sér vegsemdar med inntøku landa og ríkja; látum þá audmýkja hina hofmódugu, og útbreida ógnanir og fordjørfun í kríngum sig; vor Kóngur er allra manna velgjørari, hans hrósun er ad gjøra vel, og ad gjøra øll jardaríñar lønd luckuleg; í hans ríki er óhult rósemi. Jesú ríki er ecki af þessum heimi. Þessi jørd med øllu hennar ríkidæmi og sýnilegu lucku, er of-

fá-

fátæk til ad umbuna einum Jesú undirsáta; hvad er allt þad, sem hún gétur géfid oss, á móti því, sem vér væntum oss í hinum heimi. Um þétta géfur vor trú oss óræka fullvissu; en því hogum vér oss þá ecki samsvarandi þessari trú? sé Jesú ríki, hvørs undirsátar vér erum, ecki af þessum heimi, því er þá vort hjarta eñ svo fast bundid vid þessa jørd? því gjøra þá lítilvægar þjáníngar oss módlausa? því hræduinst vér þá, sem deyda líkamañ, en kuña ecki ad lífláta sálina? því képpumst vér med svo stórri laungun eptir ríkdómi þeim, sem heimurinn máské býdur oss? því skélfumst vér þá svo mjøg fyrir daudanum, dóminum og eilífdiñi? mundum vér þañig ad fara, værum vér þar um fulltrúa, ad Jesú ríki ecki væri af þessum heimi? hvørju egum vér, hvørju gétum vér til þessa svarad, án þess sjálfir ad blygdast? vér erum ecki áqvardadir fyrir þeña heim; vér vitum, ad hiñ komandi heimur er sá, til hvørs vér egum ad gjøra oss hæfa, hvørn vér elska egum og meta øllu framar; en vort stundlega siñada hjarta sviptir trú vora krapti þeim, er hún sýna á; á þessu augnabliki fáum vér fundid, hvørsu ýfrid veikt vort hjarta er; vér sjáum med því-

hvílíkri djørfúng þú, ó! Jesú! gjørdir játníngu þína fyrir Pílati dómstóli, þó ad þú vissir, ad þessi játníng mundi olla þér nýrrar misþyrmíngar; þegar vér viljum heita þíns ríkis undirsátar, erum vér einnig skuldbundnir ad vidurkénna þig fyrir mønnum. Vér egum ætíd og allstadar ad vidurkénna þig, til hvørs nafns vér skírdir erum, þig, sem géfid héfir oss sjálfann þig til egindoms, og í hvørs ríki vér lifum. En hvad veika finnum vér oss ecki til æfíngar þessarar skyldu, ef vér yrdum krafdir til, ad strída fyrir Jesú ríki, ef einn dómari edur vantrúadur vildi spyrja oss, hvørn í sinn stad: ertú einn af þess krossfesta Jesú undirsátum? mundum vér þá djørfúng hafa til ad svara: já! ég er hans þegn; ég er til þess fæddur og endurleystur, ad ég skuli béra vitni sannleikanum. Qvída megum vér því, ef svo ástædi, ad vér mundum fyrr øllu afneita, enn missa fyrir þá skuld lucku vora, metord edur líf; vér mundum álíta Kóngsins nád, hinna vísu samþycki, ellegar ábata-von nægilega umbun fyrir missir sálu vorrar. En þo ad vér fengjum nú þetta skadlausa endurgjald um stundar-sakir, hvad mun þó þá af oss verda, þegar øll heimsins ríki og þeirra

dýrd

dýrd sýnast á daudastunduñi eins og einkomt diupt fyrir vorum augum? hvad fær þad notad oss, þó allar heimsins lystisemdir, fyrir hvørra sakir vér afneitudum Jesú, uppfylldu huga vorn, vér yrdum þó brádlega leidir á þeim, og finndum hvørsu léttvægar þær eru. O Jesú! svo dárlega megum vér aldrei breyta, ad meta heiminn meir enn himininn, veri þad oss øllum hlutum dýrmætara, ad vera undirsátar þíns ríkis, og hafa þess vegna þá glødu von, ad inngánga í þitt dýrdar-ríki, sem þú hefir oss afrekad.

## 22. Føstu-Hugvekja.

Þad Jesús leid vid Heródesar hof, Lúc. 23.

Med sama stødugl yndi og hjartans rósemi fiñum vér Jesúm allstadar, samur er hann, hvørt sem hañ hæddur er af Heródesi og hans hoffolki í Kongshøllinni, ellegar hañ er á allañ hátt þjakadur af miskunarlausum þrælum í Biskups-stofuñi og Pílati Dómhúsi, vid øllu þessu tekur hann med þøgn og þolinmædi. Þad var ecki lítil vanvyrda fyrir hañ, ad þola hádyrdi og grimma medferd af jardneskum Kóngi, hvørs skylda þad var, ad

taka

taka sakleysið í forsvar; en þessi medhøndl-
an skérdti ad engu Kóngs tign hans, því
hans ríki var ecki af þessum heimi. Jard-
ariñar Kóngar mega samankoma á móti
Drottins smurda, sá alvaldi gjørir þeirra
ráð ad engu. Þessara Jardar-guda há-
tign og veldi stendur tídum á svo voltum
fœti, ad þess grúndvelli er kollvelt fyrr
enn menn vænta þess; en Jesú ríki hefir
engañ enda, og þess takmørk skulu grund-
vallast vid hinar ytstu heims-álfur.
Enga skérdíngu gat því Jesú guddómlega
Kóngs-tign lidid af háduglegri vidhøndl-
un Heródesar, sem vøld sín hafdi þegid af
Rómverja náð; ad engu gat hann mínkad
veldi hans yfir endimørkum jardarinnar,
sem hann frá eilífd hafdi ad arfleyfd feng-
id. Engu-ad sídur mátti þad þó vera
Lausnara vorum nærsta sárt, ad vera
hafdur til háduglegs athláturs af þeim
gudlausa Heródesi og hans vildarmønn-
um. Þessi sæl-lífi Kóngur hafdi fyri laun-
gu gyrnst ad sjá Jesúm, og forvitni hans
gjørdi hann enn þá laungunarsamari ept-
ir ad komast í náqvæmari kunníngsskap
vid hann. Hann vard nærsta gladur vid
tækifærid, ad sjá þennañ svo nafnfræga
og undrada Spámann; og þegar hañ sá
hann

hann og fann þad ecki hjá honum, sem mettadi forvitni hans, þá blygdadist hañ ecki ad afhenda þann saklausa bundinn, sem hann engann rétt hafdi yfir, til síns hoffólks hædni og adhlátnrs. Heródesar adferd minnir oss á margra manna ad-ferd, sem vidurkénna Jesúm af hégómleg-um tilgángi, ellegar láta hjá sér sjá van-trúar blandna forvitni, undir lofsverdrar frodleiks laungunar skini, ellegar, sem of-djarflega vilja dæma um Guds almættis gjörnínga. Heródes, og hans líkar, veri oss til vidvörunar, hvörsu audveldlega vér af forvitni edur léttúd, leidast kunnum til ad forakta Jesúm, og falla þarvid í skad-væna vantrú; en munum vér þá halda þessari varúd sífeldt stødugri í hjarta voru? því er midur! vor egin sorgleg reynsla sannar bad, sem er þvert á móti. Eckért finnum vér óstødugra enn vort egid hjarta. Á einum tímanum unntum vér af öllu hjarta gudhrædslunñar sannleika, en hvörsu lengi varadi þad? skommu síd-ar var þetta goda hugar-far horfid, og vér vórum tilfinníngarlausir og kaldgédja ordnir vid gudhrædslu og allt þad gott er. Þad gétur skéd, ad þeir, sem nú hæda Gud, og hans heilögu trú med frekri léttúd og

gud-

gudleysi, hafi í fyrstu efast um Evangelii sannleika, géfið sig til að grubla hér í ofsrekt, framar af forvitni og drambsemi enn af kjærleika til sannleikans, og smámsaman inntók léttúð og oflæti svo sálu þeirra, að þeir mistu nú sinn eginn hugþótta meir enn klárar røksemdir um sannleikann. Þessir skirrast ecki lengur við, að brúka Guds ord jafnvel til skammarlegrar skémtunar. Gud varðveiti oss frá þvílíkri léttúð og fásinnu, og varni oss þeim vegum, er þar til leida, hann styrki oss veika til að vaka svo trúlega yfir oss, að vér géfum oss aldrei sjálfir tilefni til svo háskasamlegrar villu. En hvørsu nágvæma varúd hljotum vér ecki hér til að brúka, svo að vér leidumst ecki af heimsins drottnandi lifnadar-máta til að forakta voru Lausnara og hans Evangelium. Því midur! ecki einúngis í Konganna høllum og í hinna voldugu slotum, heldur jafnvel og í hinna ædri hýbýlum mundum vér finna, ef leitad væri, allt of marga, sem haga sér við Jesú lærdóm vidlika og Herodes hér med sínu hof-folki við Jesúm; og hvørsu varúdarsamlega megum vér þá ecki framgánga, ef vantrúin á ecki einnig að festa rætur í hjarta voru. Ó! Drottinn!

inn! vardveittú hjarta vort frá afvegaleckunum hinna vondu, og styrktú oss til ad vidurkénna þig óskélfdir fyrir heiminum, med følskvalausu hjarta, svo ad vér þurfum ecki á sídan blygdun ad mæta, þegar vér framleidast skulum fyrir þinn dóm.

## 23. Føstu-Hugvekja.

Jesú umbyti vid Barabbam, Jóh. 18.

Sjálfum himninum má ógna þad, ad Israel drýgir nú tvøfalda synd; hann frelsar mordíngjann Barabbas frá daudanum, en útgéfur hinn saklausa Jesúm í daudann. Hans líf, sem úthellt hafdi manna blódi, frelsast, en hinn, sem hafdi frelsad svo margra líf frá daudanum, aflífast. Þeir lída, ad sakamadurinn lifi, en svipta hinn saklausa lífinu. Varla er møgulegt ad ímynda sér, hvørsu vidbjodsleg þessi gudlausa aderd var; því ætíd er þad gudleysi ad leyfa og lída þad, ad hinn saklausi áreitist og mæti órétti; ætíd er þad himinhrópandi synd, ad þeir, sem vera áttu sakleysisins vernd og forsvar, gjørist þess áklagarar. En þegar mannr ondskan er svo lángt komin, ad løg og réttsýni fóttrodast, til þess ad fá

skadad hinu saklausa, og ad heldur skal unna løstunum enn forsvara dygdina, þad yfirgengur alla mannvondsku, en þannig høndludu þó Gydíngar vid hinn saklausa Jesúm. Þeir vóru jafnvel ecki ánægdir med þad, ad framselja hann undir allskonar misþyrmíngu, og gjøraſt hans ofsóknar-menn og áklagendur, þeirra gudleysi géck eñ þá lengra: þegar til þess kom, ad annadhvørt skyldi gylda, ad ráda af døgum mordíngjañ, edur þess mannlega kyns velgjørara, ad rydja af veginum Barabbas edur Jesú, hvad gjørdu þeir þá? þeir gjørdu þad, sem helvíti vildi hafa gjørt, til ad ebla laſtanna framgáng, en tálma dygdinni, þeir fríkénndu mordíngjann, en afhendtu hiñ saklausa í daudann. Hvørr fær nú útmálad edur í hug sér leidt, hvad Jesús hefir lída mátt undir þessari medferd? honum er samjafnad vid mordíngja, og éndalokin sýndu þad, ad menn héldu hann hvørjum mordíngja verri. Þad var ecki einúngis útvortis vanvyrda, sem mátti pína hann, hinn sáraſti þánka hans mátti sá vera, ad hans fólk, hans eginndóms fólk útskúfadi honum, og vildi hann ecki sem sáluhjálpara. Þrjú ár hafdi hañ allri áhyggju og ómaki varid til

til ad leita fortapadra sauda af húsi Israels; hann hafdi eydt kroptum sínum í straungu erfidi fyrir þeirra velferd. Øll hans kraptaverk, lærdómar og framferdi hans mátti sannfæra þá um hans ædri áqvørdun, ad minnsta kosti um sakleysi hans, en nú sýndi þad sig, ad hann hafdi forgéfins erfidad, og forgéfins leitast vid ad frelsa þeirra sálir. Med hvørsu miklum og óteljandi velgjørníngum hafdi hañ ecki gjørt sér sitt folk skuldbundid? og þetta áttu nú ad vera launin fyrir hans velgjørdir og ómak, fyrir hans næturvøkur, hans mædusømu reisur og allt þad erfidi, sem hann hafdi uppátekid sér til hjálpar aumum; mátti þad ecki sárt særa sálu hans ad sjá, ad lýdur þessi, fyrir hvørn hann hafdi útgéfid sig, var svo gleyminn alls þess góda, er hañ hafdi gjort honum, ad allir, svo ad segja, sem med einum muñi óskudu dauda hans? engu ad sídur bar hañ þo vanvyrdu þessa med ósigrandi þolinmædi; hañ hugsadi ecki svo mjøg til óréttar þess, er óvinir hans gjordu honum, sem til síns fødurs vilja, eptir hvørjum hañ reiknast átti á medal illgjørda manna. Hann hugsadi til gjørvalls mannkyns, hvørju þessi hans pína verda átti til for-

 lík-

líkunar, því þegar Jesús var útskúfaður af sínu eigin folki, bar hann þá skuld, sem á oss átti að hvíla, svo að vér þurfum nu ecki að qvíða útskúfun frá Gudi. En vér fáum ecki skilist við þenna sorglega part Jesú pínu, án þess að taka af honum lærdóm fyrir vort egid hjarta. Af því, sem fram við Jesúm kom, er oss audsætt almennings óstøduglyndi. Fólk þetta, sem fám døgum ádur hrópadi: hósíaña! til Jesúm, sem képptist þá vid að sýna honum vegsemd og heidur, hrópar nú fjøllunum hærra krossfestingu yfir honum. Hvørsu skyldum vér þá treysta mega alþýdu losi? hvørnig megum vér þá vænta stødugrar hylli? í dag erum vér med losi til himna hafdir, en á morgun med lastmælum eins nidurlæckadir. Og hvørsu rólegur má ecki hvørr af oss vera, þegar vér erum oss sakleysis medvitandi? hvørsu ánægdir gétum vér ecki verid, vid sérhvørja mótsøgn vid sérhvør hádyrdi, vid allskyns vondsku og hreckja-brøgd, þegar vort egid hjarta géfur oss þad vitni, ad vér framgengid høfum med rádvendni fyri Gudi og mønnum? látum því svo vera, ad vér álitnir værum fyrir afhrak og hreinsun veraldar, og útskúfadir úr sambúdum manna,

nægi þad oss þó, ad hafa gódrar samvitsku hrósun og vegsemd hjá Gudi, og vér þeckjum fyrir utan þenna heim óhultann tilflugts-stad, hvört vér flúid gétum, og þar í lifad eilíf́ri rósemi. Þegar vér géfum gætur ad heimsins drottnandi áliti, finnum vér þad ecki undrunar-verdt, ad Gydíngar voldu svo dárlega ámilli Jesúm og Barabbasar. Heimsins børn hugsa enn vidlíkt; en þá er synd og fýblska meira metin enn Jesús; lífid og daudinn, ljósid og myrkrid, frelsi og þrældómur, dygdir og lestir, eru mønnum af Gudi til vals fyrilagdir, en hvørnig velja menn þá almennt? burt med samvitsku, verdur opt svarid, géf oss góts og penínga! burt med Guds barna frelsi, géf oss syndarinnar hlecki! burt med Jesúm, géf oss vyrdíngar og vellyst! burt med himninn, géf oss heiminn! en hvørnig høfum vér þá sjálfir valid? æ! svo lengi, sem vér elskudum heim þenna og holdlegar girndir, var oss þad þægara ad frída vorar tilhnegíngar, enn ad taka uppá oss Krists kross; skamvinn nautn vorra lystínga var oss lángtum kjærari, enn tilfinníng Jesú kjærleika; heimsins vísdómur var oss lángtum mikilvægari, enn Jesú kross-

 vís-

vísdómur, æ! hvörsu aumir hefdum vér ecki verid, ef vér hefdum alltaf verid sjálfrádir í þessu vali? þegar vér ecki útveljum Jesúm, útveljum vér vora egin ólucku; þegar hann burtvíkur frá oss, víkur undir eins burt frá oss øll nád og blessan. J hvörsu óútmálanlega ánaud og eymd féll ecki folk þetta, er med þvílíkum mótþróa hafdi útskúfad Jesú? þeir vildu hafa bølvunina, og hún kom yfir þá og børn þeirra. Allt frá því augnabliki, er þeir úttalad høfdu þau skélfilegu ord, veik Jesús frá þeim med nád sinni, og í hans stad komu hyrdarar til þessa forherdta fólks, er leiddu þad á villustigu, mordíngjar, sem eydiløgdu þad, og táldragarar, er flýttu þess undirgángi. O Jesú! lengur viljum vér ecki haga oss svo óvinsamlega í gégn þér, né vorri egin velferd. Vort val er fast áqvardad: burt med heiminn, hans syndir og lystisemdir, vér viljum eignast Jesúm og himininn; vér viljum sáluhólpnir verda.

# 24. Føstu-Hugvekja.

Gydínga skélfilega ósk yfir sjálfa sig, Matth. 27.

Alldrei hefir nockur ósk gjørd verid med þvílíkri drambsemi, samdrætti og

ákéfd,

ákéfd, sem þessi Gydínganna, er krafdi Jesú blód yfir sig og børn sín; ecki var hún framfœrd af brádrœdi í reidum grimdarhuga, heldur af íllgirnis hatri og vondsku. Þetta blindada folk mátti þeckja Jesú persónu og sinnislag, þad var sjónar-vottur ad Jesú flecklausa líferni. Opt hafdi þad heyrt þá guddómlegu lærdóma, sem hañ framflutt hafdi, og sjed þau kraptaverk, er hann hafdi gjørt. Pilatus vardi øllu ómaki til optar enn eitt sinn, ad fá Jesúm fríadann, en þeirra hefndar-gjørnu og blódþyrstu hjørtu urdu ecki fridstillt, þeir hrópudu því ákafar: krossfestú! krossfestú hann! og þegar hinn heidni dómari sagdi sig sikn-saka af þess Réttláta blódi, hrópudu þeir: **hans blód komi yfir oss, og yfir børn vor!** þetta blód kom og yfir þá, og yfir børn þeirra. Þessi óttalega bølvan, svo stór hún ordid gat, féll yfir þeirra høfud. Sá gjørvalli lýdur, sem samankomiñ var í Jerúsalem til Páska hátídarinnar, drýgdi þessa himinhrópandi synd, og Guds hefnd féll yfir hañ á añari Páska hátíd, þegar allir Gydíngar vóru samansafnadir í Jerúsalem, svo ad enginn þeirra féck umflúid Rómverjanna sverd; þeirra misgjørníngur var, ad þeir útskúf-

udu þeim sanna Messía, og síðan var það uppspretta og tilefnið til allra þeirra eptirfylgjandi þreyngínga að þeir hvurfu aptur að þeim, er falsklega gáfu sig út fyrir að vera Messías. Með Jesú líflátí vildu þeir hafa hindrað, að Rómverjar kjæmu, og tækju frá þeim lønd og lýði; og þetta sama, er þeir hindra vildu, kom yfir þá; Rómverjar komu og gjørðu þá að þrælum. En við þetta beið þó ecki guðleg hefnd, heldur fylgir hún þeim síðan um víðar heims-álfur, og nú, eptir að þeir þegar meir enn átján hundruð ár, hafa landflotta farið, eru þeir í sérhvørrar þjóðar augum, sem viðvarandi og auðsjáanlegt minnis-teikn guddómlegrar hefndar. Gat nockur røksemd uppá Jesú guddóni og saklevsi ljósari verið og orækari, enn þessarar bølvunar oskar uppfylling á morðíngjum hans? hvørr fær aðra ályktun her af dregið enn þessa: engin þjóð hefir nockurntíma frá heimsins byrjun þvílíkustraffi sætt, sem þessi þjóð, sé það satt, að þjóða-straff fljóti af þeirra syndum, þá mun þessi þjóð hafa drýgt svo viðbjóðslegann misgjørníng, hvørs líka engin þjóð ønnur hefir drýgt, og hvørt glæpa verk fáum vér stærra tilnefnt enn Jesú blóðs-úthellíngu. Þetta blóð,

blód, hvörs skuld þá offækir, hefir saklaust blód verid en einkis saka-manns, Guds Sonar blód, en ecki almennilegrar manneskju. Hvörsu óransakanlega sjáum vér eckt hér í vegu guddómlegrar forsjónar! vegna krossins hneixlis og margskonar lítilfjörlegra atvika vid hans nidurlægíngu, létu spekíngar heimsins, þeir háu og voldugu, sér halda frá því, ad taka trúna; en þessi fordómur á móti kristiñdóminum, var hönum nær því til áviñíngs; þegar menn sáu Jesú mordíngja heimsókta med svo markverdu og óvenjulegu straffi, tóku menn til ad vidurkénna þess krossfesta Jesú verdugleika, og hans písla óendanlegu forþénustu. En hvílíkann vidbjód má ecki Gydínga ólucka hjá oss vekja vid þvílíkum glæpum, sem leida reidi Guds bædi yfir einstakar persónur, og gjörvöll lönd og lýdi! hafi sú þjód, sem Gudi var kjærust á jörduñi, Guds útvalda fólk misst rétt til Guds nádar og verndar vegna synda sinna, hvada fullvissu höfum vér þá um þad, ad oss ecki hitta muni sá sami dómur, ef vér foroktum og vanbrúkum hans nádar-veitíngar! kann ecki Guds ríki, hvörs vér gjörum oss óverduga, frá oss ad takast, og géfast því fólki, sem færir

betri ávöxt? æ! enginn af oss afneiti sínum Drottni, sem hann hefir endurkeypt; enginn af oss hafi hans krossfestingu eda lærdóma ad hádi. Hafi Gydíngar mætt svo ógnarlegum hefndum, hvörsu miklu hardara straffi munu þá þeir kristnu qvída mega, þegar þeir þvert á móti þeckíngu sinni, troda Guds son undir fótunum, og halda sáttmálans blód almennilegt, fyrir hvört þeir eru helgadir? þú, vor guddómlegi Medalgángari! vertú oss blessadur! þú skalt eilíflega vera vor hrósan, vor gledi og huggan! eckért er hjá oss ad finna nema vanmátt, óverdugleika og örbyrgd, en nú höfum vér þad, af hvörju vér megum hrósa oss, þad, ad vér erum endurleystir med Guds sonar blódi, komi þetta blód yfir oss til betrunar oss og miskunar, til styrkleika og huggunar, og þó allrahelst þegar vér framkomum fyrir þinn dómstól! o Jesú! lát þá þíns blóds minníngu endurnæra oss og þá trú, ad vér fyrir þad séum útvaldir til ens eilífa lífs.

## 25. Föstu-Hugvekja.

Jesú hádstroka, Matth. 27.

Væri þad mögulegt, ad englar úthellt gætu sorgar- og medaumkunar-tárum,

um, mátti þad hafa skéd, þegar Synt Guds, þeim saklausasta allra mannanna barna, var svo grimdarlega misþyrmt af gudlausustu skálkum. Hvílikt skodunar-spil! vid hvørs sjón himininn sjálfur klæddi sig sorgar-klædi, og eckt nema helviti sjálft kunni sigri ad hrósa, o! hvílikt skodunar-spil! syndarar! komid hîngad og skodid sár þau, benja-garda og blód-undir, sem hylja þañ heilagasta líkama; skodid hann, hans húdfletta og blóduga líkama, sem er sundurkraminn fyrir ydar misgjørda sakir, og ef þér hafid nockra mannlega tilfinníngu, þá berjid ydur á brjóst og grátid! grátid yfir ydur og ydar syndum! fáid þér talid hans sár, eda þá blod dropa, sem af þeim útdundu? hvørt eitt sárid, hvørr einn blód dropinn vitnar ydur á móti og fordæmia ydur, fyrir ydar misgjørda sakir. Hér ættud þér ad standa í ydar saklausa Jesú stad; hér ættud þér ad bera alla þá vanvyrdu, alla þá bølvun og allt þad straff, sem á honum lá, blæda átti ydur og deyja áttud þér í ydar egin blódi. En hér stendur hann, þessi ydar synda borgunar-madur, hans gódgjørdasømu hendur eru hér fjøtradar vid háduglegañ húdstroku

stroku-stólpa, sem svo opt ádur litast hafdi saka-manna-blódi; hér, bar sem hinir verstu mordíngjar og rænfngjar lidid hefdu sinna misgjørnínga hegníngu, hlýtur hinn allra saklausasti ad lída syndaranna vøndsku. Med miskunarlausri grimd rífa beir klædin af honum, sem var sú einasta eign hans á jordunni. Grimmir strídsbrælar, sem vanir vóru ad sjá manna-blód útrenna, og heyra hørmugleg vein, án allrar medaumkunar, flengja med ógurlegri grimd svipunum á hans nakta líkama. Sérhvørt slag, opnar nýjar og nýjar blód-uppsprettur, og bær fléttudu svipu-reimar, grafa med hvøssum endum djúpar rákir bædi á hans baki og brjósti, svo ad eckért er framar heilbrygdt á øllum hans líkama, í hvørjum nú mátti telja hvørt beinid. Allir bér, sem hér framhjá gángid, skódid bó og sjáid, hvørt nockurt qvalrædi er, sem hans qvalrædi! æ! begar bér sjáid hans húdfletta særda líkama, svo sjáid bér ecki nema máské minsta partin hans pýsla. Hvørsu mun ecki hans hjarta skolfid hafa og titrad vid sérhvørt svipu-slagid? hvad margar sárar andvarpanir mun hann ecki í brjósti sínu hlotid hafa ad seckja, bá hann eckért

ord

orð talaði meðan á þessari miskunarlausu meðferð stóð! og hann gat þagað, sérhvört sárið, sérhvörr blóð-dropinn talaði nógu hátt, og andlits útlitið bar vitni um þá óbærilegu sorg, sem iñtekið hafði hans sálu. Einnig undir þessum sløgum var hann offur fyrir vorar og alls heimsins syndir. Með þessum lausnar-peningum urðum vér frikeyptir. Sárin, hvørjum hann særðist, vóru afmálun vorra synda. Svo ófrída, svo viðbjóðslega hafði syndin gjört oss, þvílík sløg høfðum vér af Guðs réttlæti verdskuldað. Eilífar þackir séu þér fyrir það, vor ástúðlegi Frelsari! að þú hefir keypt oss svo dýru verði. Eilífar þackir, að þú svo náðarsamlega vildir taka á þig refsínguna, er oss átti að mæta! en komið nær, ó! syndarar! og komist við í hjørtum, að þér hafið ablað hinum heilaga og réttláta, þvílíkrar mæðu og erfiðis með yðar syndum! þér sælkérar! sem fleckið yður með øllum holdsins saurugleika, gétið þér til þess hugsað, hvørsu yðar Jesú helgasta líkama er misþyrmt, og þó valdið áfram að þjóna yðar girndum, og láta ofdátt að yðar líkama, og niðurvarpið yður sjálfum þar með í saurindanna viðurstygð! þér miskunar-

lausu

lausu mañ-óvinir! sem plágid ydar brædur med grimmum typtunum, án miñstu medaumkunar, þér, sem erud svo miskunarlausir ad hlæja, þegar eckért annad eñ andvarpanir og klaganir heyrast umkríng ydur, fáid þér af ydur ad vera sakleysisins bødlar, þá þér vyrdid fyrir ydur þann saklausa og þínda Jesúm? syndarar! þér, sem án tilfiñíngar drýgid eitt íllvirkid eptir añad, látid ydur þo í hug koma slog þau, er ydar Jesús hlaut ad þola ydar vegna. Viljid þér drýgja syndir med ánægju, fyrst þær hafa ollad hinum allra saklausa svo qvalafullrar hádúngar? viljid þér fagna í ydar vitsfola gledi, þegar hañ hlýtur ad nidurbeygjast undir sínum píslum? æ! hans blóduga mind, hans húdstrýkti líkami, hans óteljandi undir og benjar mega sífeldt vera ydur fyrir augum; máské hans saklausu tár og píslir muni fá hrært ydar tilfinníngarlausu hjørtu. Og hvad kynni annars hræra ydur, ef þessi píslar mind fær ecki vakid hugar-ángur í ydar hjarta? ef þér skélfist ecki vid ad sjá þañ qvalda Jesúm, þá fær sjálft helvíti ecki skélft ydur, þó þess botnlausa afgruñ opnadist fyrir ydar augum; nei, svo tilfiñíngarlausir erum vér enn þá ecki, nú þá vér

vér skodum vors Jesú píslir svo lángt frá álengdar, fáum vér vart tára bundist þegar vér á hann lítum. AE! hvörsu hefdi ecki hjarta vort komist vid, hvílíku táraflódi hefdum vér ecki úthellt, ef vér hefdum sjónar-vottar verid ad þessum Jesú píslum, æ! ad þessi tár, fengju þaññig hrært hjarta vort, ad vér alvarlega hötudum þær syndir, sem hafa ollad honum þvílíkra qvala: æ! ad vér gætum sífeldt í umgengni med heiminum, midt í glediunnar háreysti, þenkt til Jesú pínu med sañri tilfiññingu, sem í einrúmi, hvörsu audveldlega fengjum vér oss þá ecki geymda fyrir þeim afbrotum, sem olla vildu oss samvitsku nögunar. Hvörsu miklu ógirnilegri mundi ecki syndin oss, ef vér íhugudum ætíd hennar eptirkost, og þá ángist, sem hún ollir hjarta voru eptirá, þá mundi einnig þessi Jesú pínu partur verda oss til mikillar nytsemi og huggunar, vér fiññdum þá vora lækníngu í hans píslum, vora hreinsun í hans blódi, og vort frelsi í hans straffi! máské þad þóknist Drottni einnig ad typta oss, og þá, þegar oss vyrdist þad óskiljanlegt, hvörsu hans typtanir géti verid kéññiteikn hans kjærleika, þá oss sýnist þad undarlegt, ad hann fái sitt hirtíng-

íngar-hrís í hendur þeim, sem mishyrma oss miskunarlaust, þá viljum vér til þín þenkja, vor qvaldi Frelsari! þú varst þíns föðurs elskulegi sonur, og þó hirti hann þig svo þúnglega; því skyldum vér nú mögla yfir því, þó vor faðir legði uppá oss nockrar þjáníngar? og látum nú svo vera, að menn mishyrmðu oss í grimd sinni, þau högg, sem vér líða megum af vondsku þeirra, eru náqvæmlega áqvorðuð, þeir géta ecki lengra farið enn Guð leyfir þeim. Fyrir Jesú sakir, munu allar vorar þjáníngar verða oss að blessun. Á þessu augnabliki kémur oss í hug vor dauðastund; margir deyjandi verða af sjúkdómsins plágum svo afmindaðir, að á þeim sjest ecki mannleg mind, og hvað mun þá af oss verða, þegar að því kémur, að vér einnig loksins leggjast skulum í vora banasæng, máské vor líkami verði á þeim tíma af sárum sundur-flakandi, viðlíkur sjónum Jesú særða líkama; en vér munum þó betur staddir þá, enn Jesús í qvöl sinni. máské vér egum þá vini, sem aumki oss, sem leitist við að hughreysta og endurnæra oss. Óvinir vorir jafnvel, munu þá gleyma hatri sínu, þegar þeir sjá hvað vér tökum út, og syrgjandi aumka oss, og

þó

þó ad þessi hugsvolun verdi ecki vort hlutfall, muntú þó, o vor Jesú! vegna þiñar pínu, hafa oss í miñi. Trúariñar sjón á sárum þínum mun styrkja oss, og endurnæra vort módfallna hjarta med himneskri huggun. Vonin, um vora komandi forklárun, æ! hvørsu mun hún ecki gledja oss, jafnvel þó vor aumi líkami leggist í grøfina, þvíad líka sem þú nú ert upphafiñ yfir allar þjáníngar og misþyrmíngu, svo munum vér eiñig eitt siñ komast þángad, hvar engin ólucka mun framar ná til vors forklárada líkama, þar munum vér eilíflega prísa þiñ kjærleika fyrir þad, ad þú varst særdur og píndur fyrir vorar sakir.

## 26. Føstu-Hugvekja.

Stríðsmannanna hædnis medferd vid Jesúm, Matth. 27.

Því lengra, sem ver áfram lesum Jesú Píslar sogu, því meiri písla verdum vér varir, því nær vér komum hans dauda, því óbærilegri verdur hans qvol. Meir enn 8 tímar vóru þegar lidnir, á hvørjum hann leid allt hvad heita máttu obærilegar qvalir, án þess ad hañ njota fengi eins augnabliks værdar, edur

 sfasna

safna sér nýjum kroptum, yfirféllu hann nýjar pýslir. Af høggunum og húdstrokunni var nú allur hans líkami sárum og benjum hladinn, allir limir hans vóru sundur-kramdir, og eckért var heilbrygdt meir á hans líkama, og þó finnur helvíti enn þá upp nýjar qvalir honum til píntíngar. Híngad til hafdi ásjána hans ad mestu leiti frí verid fyrir misþyrmíngu, þó hún enn væri litud blódsveita frá Grasgardinum og vanvyrdt med hrákunum. Nú er einnig sú helga ásjána hans ad blódgast. Þeir settu kraus af þyrnum um høfud hans, og til ad þryckja þessum hvøssu þyrni-broddum djúpt inn í ennid, tóku þeir reyr-stafinn, er þeir høfdu fengid honum í hendina í stad veldis-spíru, og slóu hans þyrnum krýnda høfud med honum; þar hjá beygja þeir med hædnis vyrdíngu kné fyrir honum. Þeir nálgast hann, hrækja honum í andlit og géfa honum pústra. Hvørt sýnist oss nú undrunarverdara, þessara þræla dæmalausa grimd, ellegar sú þolinmædi, med hvørri Jesús lídur þessa miskunar-lausu medferd, þad stód í valdi hans ad drepa skálka þessa samstundis, og gjøra hendur þeirra máttvana, en hann þolir þeirra miskunarlausu med-

ferd

ferd med hógværd; þegar hañ ýktdur var og ſleginn, lýkur hañ ecki upp ſínum muñi, heldur eñ lamb, ſem leidt er til ſlátrunarbeckſins, eda ſem ſaudur, er þegir undir þeſs hønd, ſem klippir hañ, og ecki upplætur ſinn munn. Hvors hjarta múndi ecki af reidi upptendraſt hafa, ef hann mæta ætti þvílíkri hádúngar misþyrmíngu ſaklaus! ef vér álykta vildum af vorri adferd, þegar vér mætum ſmá mótgjordum, til hiña, ſem lángtum eru ſtærri, ſjáum vér, hvorſu lítid ſtoduglyndi vér mundum hafa gétad ſýnt. Æ! ad vér mættum þó læra þad af þér, vor Jeſú! ad vera þolinmódir og hógværir; þó ad vort áſtand væri þad mæduſamaſta, ſem verda mætti, þá kynnu þó þrautir vorar og þjáníngar ecki ad metaſt meir á móti qvøl þinni, enn ſem vatns dropi einn á móti ſjáfar-hafinu. Sú ſynd, ſem oſs ángrar, ſærdi þig lángtum framar; ſú eymd, ſem á oſs liggur, lá á þér miklu þýngri. J vorum eymdum høfum vér þó ad minnſta koſti þá hugar-hægd, ad vinir vorir hafa medaumkun med eymdum vorum, en þú, o Jeſú! hafdir engañ, ſem med þér bæri medaumkun. J vorum eymdum høfum vér þo þá huggun, ad þær

muni eitt sinn enda taka, en þad, sem gjordi þína pínu bitrasta, mátti þad vera, ad þú fyrirsást þær mótsagnir og misþyrmíngar, sem þú mundir sífeldt þola mega af syndurunum, því þad sama, sem þeir fordum gjordu vid persónu þína, þad sama gjøra þeir enn þá í dag vid þitt Evangelium; en vér, sem tilbidjum þig, vor píndi Jesú! vér viljum af þeim qvølum, sem þu þoldir, draga oss hugguhar-rík not, sem styrki oss í þolinmædi. Þín pína skal gjøra oss hæfa til ad lída, med því meira stødugløndi; því skyldum vér æskja oss ad bada í rósum, fyrst þú gánga hlautst þyrnilagdann veg? þegar vér lída megum undirokun, órétt, ofund og offóknir óforskuldad, því skyldum vér moglandi yfir því klaga, þared þú, hinn saklausasti! hlautst ad lída allt þetta lángtum frekar? þó vér verdum ránglega baktaladir og megum forakti mæta, því skyldi oss vid þad bregda, þegar vér hugleidum þína forsmán og þinna pífla stærd, og hvørr mætti vænta sér ad lifa mædufrí, þar líf hins allrabesta var fullt pínu og þjáníngar? vér erum þessa himneska Kongs þegnar, mundi þad heita mega tilhlýdilegt, ad vér væntum oss edur nædum meiri gledi

og

og vyrdíngunn enn hann féck náð? en það er ecki nema að nockru leiti, sem vér enn þá vyrdt høfum fyrir oss þessar Jesú píslir. En skodum Jesúm nú einnig líðandi þessar qvalir, sem mannanna Medalgángara; ecki er það líklegt, að Jesús skyldi endilega hafa hlotið að líða þessar og engar aðrar píslir, einúngis til þess, að géfa oss dæmi, hvørsu vér skyldum haga oss í samkynja naudum, þar til útkrafdist ecki sérdeilislega þvílík forsmánar-full medferd, þared særstir verda fyrir þeim qvølum, sem Jesús nú leid. Tilgángur þessara sérlegu písla var lángtum añar ædri. Vér blygðumst ecki við, að játa það hvert ámóti vorra tída þenkíngar-hætti, að vér í Jesú þyrnikrýníngu, og allri þeirri grimdar medferd, sem hann líða hlaut, finnum rok fyrir því, að hañ þar med hefir fullnægju gjørt fyrir sérlegar stór-syndir. Allra Kónga Kóngur, krýnist med þyrnum: mundu ecki þar med á honum straffaðar vera syndir þær, sem straff-fríar álítast, undir vernd jardneskrar kórónu? persónur, sem forsjónin hefir af diuptinu framdregið, og tignað jardneskri kórónu og veldis-spíru, misbrúka ecki sjaldan makt sína og metord. Grimd, óréttur, týrannaskapur og blóðs-

úthellíng, eru syndir þær, sem óhegndar látast optast á þeim, sem vegna veldis síns frlir eru fyrir tiltali öllu. Hér straffar hinn alvaldi á sínum kónglega syni, allra hinna stóru syndir, og hans þyrni-krýningar pína forlíkar-fyrir ránglætingar þær, sem af þeim strafflaust drýgjast. Og, þá vér vyrdum Endurlausnarann fyrir oss undir þyrni kórónuñi, og undir sinna óvina margföldu vanvyrdu, þenkjum vér til hiña dramblátu og ærugýrugu; hvörsu margföld medöl brúka þeir ecki, til ad hefjast í metord og vyrdíngar? hvad spara þeir, til ad metta sína drambsemi? þeir troda í duptid lítilmagnañ, til ad fá þess audveldar upphrokad sjálfum sér; þeir gjöra adra ad forakti, til ad koma sér sjálfum fram; þeir spilla hins munadarlausa rétti, til ad fá sinn eginn ankid. Þegar Jesús stód nú krýndur háduglegri þyrni-koronu, forlíkadi hann fyrir þessar og þvílíkar syndir. O! þú, vor foraktadi Konúngur! lof og dýrd sé þér um alla eilífd, fyrir þessa þína qvol! sjá! vér leggjum vort hofmóduga hjarta fyrir þínar fætur. Um þær hádúngar, sem þú leidst, viljum vér þenkja svo opt, sem drambsemi og stærilæti hreyfir sér í hjarta voru.

Þessi

Þessi þín hádúng, o Jesú! sé oss dýrmætari enn allt hvad heimurinn heldur fyrir heidur og vegsemd. Látum heimsins børn keppast eptir jardneskri kórónu, eptir forgengilegum metordum, hrósi og smjadri, vér viljum ecki keppast eptir ødru enn þeirri vegsemd, sem þú hefir afrekad oss med þinni vanvyrdu.

## 27. Føstu-Hugvekja.

Sú aumkunarverda sjón á Jesú útleiddum af Pilató, Jóh. 19.

Sjáid þér manneskjuna, þér, syndarar! horfid á hann, sem útleidist, og látid hans forsmán gánga ydur til hjarta, máské þér hafid nú ásett ydur ad hæda Gud med nýjum misgjørníngum? fyrr enn þér framqvæmid ydar ásetníng, þá lítid til ydar pínda Jesú, og sjáid hvørnig ydar syndir hafa svo skammarlega útleikid hann; ef ad sjón þessi hrærir alls ecki hjørtu ydar, hvad skyldi þá géta hrært ydur? ecki daudans sjón, ecki grøfin, ecki dómurinn, jafnvel ecki sjálf eilífdin. Látid ydur þad nægja, ad þér híngad til hafid verid tilfinníngarlausir. Marga hluti þá, hefir Gud ydur fyrir augu leidt, sem

vekja máttu ydur af dosinskap. Tídunt hafid þér sied hans dóma á jördunni. Svo margann sakamann, sem med syndum sínum hefir varpad sér í þá stærstu fordjörfun, hefir sá alvaldi sett ydur fyrir sjónir, sem minnis-teikn hans hegníngar. Svo marga deyjandi hafid þér máské sied í daudans ángist og svita, undir dóms-ins ógnunum, og vid allar þessar svo ógnarlegu sjónir, vorud þér tilfinníngarlausir; látid þó hins pínda Jesú skodun hafa nockra verkun í ydar hjörtum. Æ! viljid þér eñ þá leitast vid ad metta ydar ærugirnd og drambsemi; horfid á Jesúm, hvörsu hann er audmýktur fyrir ydar drambsemis sakir! þér viljid leita heimsins gledi, og syndarinnar vidvarandi lystisemda; æ! sjáid manninn! hann kunni ad hafa gledi, en hann tók sér frívilјuglega uppá allar píslir, til ad betala fyrir ydar gálausu lystisemdir; viljid þér halda áfram ad elska heimsins góts med mátalausum kjærleika? sjáid manninn! hvörnig hefir ydar stærilæti rænt hann öllum klædum. Hvörr gétur litid hans fátækt og alla eymd hans, án þess ad fordæma sína ágirni, sitt státs og sællífi! sjáid! ef þér vita viljid hvílíkar sképnur þér erud af nátt-

náttúrunni til, og hvílík vidurstygd í ydar sálu byggir, sjáid þann pínda Jesúm! Hvörjir erud þér? vidlíka sinnadir og Pilatus, stríds-þrælarnir og Gydíngarnir, sem píndu Jesúm, og fundu sína lystíngu í qvolum hans; þér hafid somu vondu girndir, sem hina drifu til þess gudleysis, svo grimdarlega ad misþyrma Guds Syni; þér hafid somu ómiskunsemi til ad bera, sem þessir stríds-þrælar, þegar þér gétid verid tilfinníngarlausir vid allar þær þreyngíngar, sem þér ollid hinum saklausa, þegar þér med helvítis frekju gétid hlegid, þegar sá misþyrmdi saklausi grætur; þegar þér fáid af ydur ad æfa allann grimmleika til ad mætta ydar hofmód, ydar hefndargirni, ydar vellyst, þá mundud þér víst hondlad hafa rétt eins og þessir miskunarlausu, ef ydar Frelsari hefdi birtst ydur á ný í þjóns mind. Hvörr sá, sem hata kann, pína og ofsækja hinn saklausa, hañ mundi ecki skirrast vid ad hata, pína og ofsækja Jesúm sjálfann. Syndarar! æ! ad þér þó renna vildud þaunkunum til sjálfra ydar! þegar þér sjáid þañ pínda Jesúm ydur þannig fyrir augum afmáladann í hans píslum. Æ! ad þér þó mættud vidurkénna þá storu fordjorfun,

un, sem syndin hefir ollad hinni mañlegu náttúru. Skodid! og sjáid! hvílíkrar qvalar og hjarta-sorgar þad ollad hefir ydar guddómlega borgunar-manni, ad þér hafid syndgad. Allar píslir hans afmála ydur þad straff, sem ydar syndir hafa verdskuldad. Hans pína setur ydur fyrir sjónir þá pínu, sem á sídan eilíflega skal qvélja ydur, ef þér haldid áfram í því, ad akta lítils frídþægíngu hans. Æ! hvørsu útskúfadar, ólukkulegar mañsképnur munud þér ecki á sídan verda, ef þér viljid ecki taka Jesú miklu hádúng ydur til hjarta. Sjáid manninn! þannig hrópum vér til ydar, syndarar! hvørra samvitska er uppvøknud, þér, sem rétt lifandi finnid stærd ydar eymda; nú vidurkénnid þér ydur ad vera í því auma ástandi, sem gjørir ydur ad vidurstygd fyrir Gudi. Híngad til héldud þér ydur luckulega, þegar þér áfram héldud í ydar syndum; en nú, þøck sé Jesú nád fyrir þad! nú hafid þér lært ad þeckja, hvørsu syndin hefir ydur vañskapad. Nú vidurkénnid þér stærd ydar fordjørfunar, og þá vanvyrdu, sem syndin hefir varpad ydur í. Hvílík mañeskja em eg? segir nú hvørr ydar; hvørsu djúpt em eg ecki fallinn? hvørsu afskaplegañ

legann hafa mínar misgjørdir ecki gjørt mig? hvørsu em eg ecki ordiñ ad afhraki fyri Gudi, englum hans og øllum rádvønd um? hvørnig má eg mínum augum upplypta, eg vesæl, útskúfud og fortøpud maneskja! o! þú efasama hjarta, sem nærri ert vid ørvhlnun! líttú til hans, fyrir hvørs sakir allt mannkyn er til nádar tekid! í þvílíkt forsmánar-, eymda- og písladjúp hlaut hinn saklausasti allra manna ad nidursøckvast, til ad fá þér upprykt úr hádúngarinnar afgruñi. A honum sjerdú þad, hvad þú áttir ad vera, hvad þú hafdir verdskuldad. Þú áttir eilíflega ad vera vidbjodur Guds, og allra hans útvaldra, eilíflega útskúfast frá honum; en nú ertú af þessum pínda Jesú fridþægd vid Gud, og mátt nú hafa þá miklu von, loksins ad ødlast dýrdariñar kórónu fyrir hans þoldu forsmánar sakir. Sjáid manninn! horfid á hann, þér gudelskandi sálir! og látid ydur vekja vid hans písla-sjón, til ad elska hann eñ þá innilegar, hañ, sem af elsku til ydar, er svo djúpt nidurlæckadur, og svo grimmilega medhøndladur; hvad mundud þér gjøra, ef þér ættud vin, sem í ydar stad tæki uppá sig allskyns mædu og píslir! mundi ecki hjarta ydar upptendrast af

enum

ennum innilegasta kjærleika til hans aptur á móti? og um hvad erud þér þá skyldugir þessum ydar besta, ydar allratrúfastasta ástvin, sem meira hefir gjørt fyrir ydar sakir, enn þér vænta máttud af hinum allrabesta vin ydar á jørdunni? hvad segir ydur hans húdflétti alblódugi líkami, hans blódrisa andlit, hans marda, margpínda hjarta? æ! allt krefur kjærleika af ydur, og þér fáid ecki án hardýdgi neitad honum þessa offurs. Þó ad hann krefdi, ad þér þola skyldud alla heimsins forsmán og vanvyrdu, þó ad þér þola ættud hans vegna høgg og sløg og hvørskyns grimdar medferd, já! þó ad þér bera mættud nockurn hluta písla hans, hvørt kynnud þér ad segja ydur undan þeirri skyldu? allt hvad þér jafnvel þolad gætud, væri svo sem eckért ad reikna á móti því, sem ydar Frelsari lída mátti; samt krefur hann ecki svo ordugt, edur svo blódugt offur af ydur! allt hvad hann af ydur heimtir, er: ad þér elskid hann, og óumbreytanlega séud honum trúir sakir hans pínu. Takid nú fyrir ydur nýjann ásetning, ad vaka yfir þessari skyldu ydvarri, heitid nú Frelsara ydar, ad prísa hann af allri sálu, og aldrei láta ydur úr minni lída, hvad hann med

sinni

sinni þínu hefir ydur afrekad. Sjáid manninn! skodid þér hann og, mótlættir kristnu! vér gjorum oss í grun, ad margir þeir ed lesa þessar hugvekjur edur heyra, muni þvílíkir vera, sem vegna sjúkdóms, fátæktar edur annara mótdrægra lucku tilfella, vera kunni vesælir og aumkunarverdir. Hvad fáum vér annad sagt ydur til huggunar í hormum ydar enn þetta: Sjáid manninn Jesúm! ecki viljum vér gjøra lítid úr ydar neyd, vér viljum trúa ad þér séud plágadir og píndir, en jafnvel þó neyd ydar væri nú lángtum stærri, ydar sjúkdóms-pína lángtum tilfinnanlegri, enn hún í raun og veru er, meinid þér ydar mæda jafnist vid Jesú pínu? séud þér foraktadir, er þó þad forakt lítid ad reikna á móti því, sem Jesús þoldi; séud þér fullir sára og kauna, egid þér þó máské vin, sem bindi um kaun ydar, og smyrji ydar sár; þér liggid máské í korinni og lítid út eins og píslar-mind, en þér finnid þó máské eitthvort medlídandi hjarta, sem huggar ydur, og leitast vid, ad lina ydar qvøl. Þér erud þó ad minnsta kosti ecki hæddir í ydar þjáníngum, þér finnid þó máské lítinn stad, á hvorjum þér fáid hvíllt ydur. Enga þessa endurnæríngu hafdi Jesús í sinni

miklu

miklu píuu, og hafid þér þó ecki med ydar misgjørdum verdſkuldad hvad þér lídid! en Jeſús hlaut ſaklaus ad þola allar ſínar qvalir. Æ! ſtyrkid ydur, þér máttvana ſundurknoſudu ſálir! vid ſkodun Jeſú kjærleika, ſafnid ydar ſærda hjarta hugg-un og endurnæríngu af qvølum hans. Takid viljugir á móti þeim beiſka kaleik, ſem ydar fadir réttir ad ydur, og lærid af ydar pínda Jeſú þá ment, eiñig ad vera á-nægdir í mótlætinu. Sjáid mañiñ! þañ-ig megum vér til ydar hrópa, ſem daudans forbodi ſvipt hefir nær því allri mañs-lík-íngu; iñan lángrar ſtundar edur ſkam̃rar munum vér eiñig ſvo ſtaddir, ad ſérhvørr, ſem ſjer oſs, má ſegja: ſjáid mañiñ! hvør-ſu bleikur og máttfariñ hañ er og litverp-ur ordiñ! ſjáid hans uppþrútnu augu! hans umbreytta andlit, þeſſa ná-køldu limi, æ! hvørſu illa útlítandi mañſképna! o! ad þá mætti ſjónin á þeim pínda Jeſú upplífga oſs, og af hans pínu fljóta hugg-an iñí hjarta vort. Þó er eñ ecki med þeſſ-um ſídustu ſjúkdóms atvikum lokid øllu því óvyrdulega, er vid oſs mun framkoma. Þá vér nidurgrafnir erum í jørdina, hvør-ſu vidbjódslegt mun þá ecki ad ſjá vorn hálf-, og al-rotnada líkama. Hvørr eiñ

hinna

hiña lifendu, sem sjer á þessar leifar vorar, sjer vör forrótnudu bein, má segja: sjáid mañiñ! en hvílíkt gledi-efni fyrir oss, midt í þessari jardnesku eymda skodun, ad renna þankunum til hins komanda dags, þá vor mañlega náttúra mun forklárast; þá munu allir englar, allir útvaldir segja: sjáid mañiñ! hvørsu mikill og dýrdlegur og sæll er hann nú, eptir útstadnar lífsins eymdir!

# 28. Føstu-Hugvekja.

Jesú útgánga úr Borginni, Jóh 19.

Jerúsalem! bifast ecki þínir múrar, þegar sá útgeingur um þeirra port, sem blessun færdi inn fyrir þá og sáluhjálp? vesæli stadur! hvad mun verda af þínum høllum, þínum helgidómum, þínum herbergjum, þegar sá er nú útleiddur, sem þú átt ad þacka, ad þú eñ þá varst ecki ordiñ ad øsku-hrúgu? þér fátæku, veiku og voludu! til hvørra getid þér nú flúid, þegar ydar læknir, ydar naudhjálpari er frá ydur tekiñ? hvørr á nú ad prédika fyrir ydur, syndarar! nád og sáluhjálp, fyrst sá víkur frá ydur, sem eyddi øllu lífi í þessari velgjørdasemu ydju? vei þér, Jerúsalem! vei þínum

um børnum! vei þínum høllum! æ! hugleidir þú ecki hvad til þíns fridar heyrir? þinn velgjørari gengur út af þínum portum, en hann mun ecki koma svo blódugur, svo foraktadur til þín aptur, sem hann géck nú út. Hann mun ecki koma med svo mikilli blessun og nád, sem í fyrra sinni, er hann géck útaf þínum portum, þegar hañ kémur í annad sinn, ó! skélfstú þá fyrir þínum høllum, helgidómum og børnum þínum, þá mun bølvanin vera vid hans vinstri og fordjørfunin vid hans hægri hlid. Lengi muntú ecki gledja þig í þinn freka grimdar-ædi, gráta muntú, formæla sjálfri þér og deyja undir formælingunni. Jerúsalem! þú skalt vera oss til vidvørunar, ad vér aldrei med synd og vondsku, sviptum oss, ó! Jesú! þinni nálægd og nád; hvad mun af oss verda, ef ad þín nád viki frá oss, og þú tækir þinn anda í burtu? æ! allir heims fjársjodir, øll gledi lífs þessa og vegsemd, fengju ecki bætt oss þann missir, því þá vér ecki høfum þig ad vin, hvad má himininn, hvad má þá jørdin nota oss? hvad fær oss endurnært, þegar sál vor og líkami vanmegnast? hvad fær gjørt oss skadlausa, ef vér sviptir verdum øllum þeim dýrmætu gædum,

um, sem þín náð heitir oss? já þessi umskipti viljum vér náqvæmar hugleida. Á medan vér heilbrygdir erum, og allt gengur ad óskum, oktum vér ecki nálægd þína svo mikils, sem vér ættum; en sá tími kémur, þá vér munum allt missa og megum alls án vera, nema einúngis hugganar af þinni forþénustu. Æ! hvörsu iñilega mun oss þá eptir þér lánga? med hvílíkri ángist munum vér þá leita þinnar nádar? æ! ef ad vér þá leitndum hennar forgéfins, ó! Jesú! hvad vesælir og ólucku-legir værum vér þá! en snúum þaunkum vorum aptur til Jesú. Þessi útgánga hans var hin sídasta í hans nidurlægíngar-standi; hvörsu marga orduga gaungu hafdi hañ ecki uppá sig tekid medan hann umgéckst hér á jordunni? hvad margar mædusamar reisur höfdu ecki þreytt hann, á medan hann í þrjátighi ár lifdi sem madur hér í heimi? þessi gánga hans var þó sannarlega hin allra orðugasta; hann var oldúngis ormagna ordiñ af svo mörgum útstodnum píslum, og vegurinn, er hann nú gánga hlaut, lá þángad, hvar hann útstanda átti hinn skammarlegasta og qvalrædis mesta daud-daga. Þvílík gánga til daudans liggur og eitt

sinn fyrir oss. Eptir margá mædusama vegu, sem vér hofum í heiminum farid, er eiñ gánguriñ seinast eptir, sem næsta ordnaur er holdi voru. Vér hljótum ad gánga til rotnunar-stadarins, og hvad eñ er ordugra, fram fyrir dómstól Guds. Æ! ad vér mættum þá útgánga af heiminum med svo rósomu og fridstilltu hjarta, sem Jesús géck út af Jerúsalem. Fyrir þiñar forþénustu sakir, o Jesú! væntum vér þess. Trúin á þig, mun á þessum vorum sídasta vegi styrkja oss, svo vér ecki undirgaungum. Med þínum gángi til daudans, hefir þú ollum þeim léttir afrekad, sem eins og þú, í gégnum daudans dal gánga hljóta, vér viljum gledja oss vid þiñ dauda-gáng, vor frelsari! þú barst í fyrstuñi sjálfur þinn kross, hvorsu óbærilega qvol mun ecki byrdi sú gjort hafa þinn blóduga baki? máské einhvorr kross leggist eiñig oss á herdar, þá vér kalladir verdum til ad gánga daudans veg; því nær vér komum daudanum, því þýngri byrdi fáum vér máské ad bera; en engiñ kross mun nú fá oss til jardar varpad, engin sú byrdi á oss leggjast, sem vér vanmegnumst undir, því þú, vor frelsari! hefir fundid til daudans gjorvalla byrdarþúnga, til þess ad létta undir vora sídustu byrdi.

byrdi. Þóck sé þér einnig fyrir þessa rokſemd, sem þú hefir géfid oss uppá þiñ kjærleika. Loksins, þegar vér erum adkomnir dauda, munn vor ſála, endurnærd vid tilhugsun þíns dauda, prísa þig á voru sídasta augnabliki, fyrir þennañ þiñ gáng úti daudann.

# 29. Føstu-Hugvekja.

Jesú léttir í hans dauda-gángi, Matth. 27.

Mikid vegarins til Golgatha hafdi nú Jesús þegar farid, en hinn lengsti og ordugasti partur var þó eptir; vanmegni líkama hans jokst þá svo mjøg, ad honum lá vid ad híga nidur undir krossins þúngu byrdi; hans óvinir tóku þá kross-tréd af herdum honum, ecki af medaumkun, heldur af ótta, ad hann deyja kynni á veginum, og løgdu þad uppá einn framandi, sem kom af akri. Svo lítilvægt, sem atvik þetta sýnist, er þad þó ysrid huggunar-rikt fyrir oss. Svo veit Gud ætíd ad meddeila børnum sínum, ef ecki fullkomna frían, þá þó ad minnsta kosti léttir í mædu þeirra; hañ vegur med nærgætni þá byrdi, sem hañ leggur oss á herdar, eptir mætti vorum edur van-

mætti, og þegar ad því er rétt komid, ad vér magnþrota verdum undir byrdinni, gétur hann látid þúsund tilfelli adbera, sem vér álítum af hendíngu einni ské, og med þeim géfur hann oss tídum rauna léttir. Af hendíngu sýndist þad ské, ad þessi Símon rétt í því sama kom til stadarins, og Jesús byrjadi ferd sína til Golgatha, en þad skédi þó eptir Guds vísustu rádstøfun. Þessi madur var útsendur, ad veita Jesú þeñañ léttir, og hin miñstu tilfelli máttu sameina sig til þessa tilgángs. Hvørr veit, hvørn vin Gud muni til vor leida, sem endurnæri oss undir vorum þjáníngum? hvørr veit, hvørr útsendast muni til ad hjálpa hinum munadarlausa í sinni eymd, edur oss í vorum sjúkdómi? hvørr veit, hvørsu lítid, já! jafnvel einkisverdt tilfelli sá Almáttugi láta kañ adbera til vors frelsis! máské jafnvel óvinir vorir verdi oss hjálplegir þá oss áliggur, og hljóti ad studla sér óvitandi til lucku vorrar; þad er ad minnsta kosti víst, ad jafnvel þó vor neyd, sýnist vera svo stór, ad vér undir heñi nidurbeygjumst til jardar, mun hún þó ecki ad øllu leiti yfirbuga oss. Drottinn, sem er mikill í rádnum og mektugur í athøfnum, mun vita ad styrkja

oss

oss uppá margfaldann máta. Símon, sem var þess vyrdtur, ad bera krossinn eptir Jesú, var fadir tveggja sona, sem sídan toku kristni, og urdu, ad menn meina, Evangelii kénnendur. Þad er ecki ólíklegt ad Símon þessi hafi vid þetta tækifæri, fengid hina fyrstu þeckingu á Jesú persónu og guddómi hans, og nú med sama verid hjá honum lagdur hinn fyrsti grundvöllur til mottoku kristnibodsins; þannig fær sá almáttugi snúid tilfellum, sem oss í fyrstunni vyrdast ógédfeld, til vors sanna besta. Hvörsu naudugur mun ecki Símon hafa ordid, til þessa orduga og smánarlega erfidis ad bera eptir einum krossinn, sem var til dauda dæmdur, en hvad opt mun hann sídan á eptir hafa prísad gædsku Guds vega, þegar hann hugleiddi, ad þetta orduga erfidi hafdi leidt hann til þeckingar Krists og hans lærdóms sannleika. Vér einnig munum tækifæri hafa til vidlíkrar egin reynslu í þrautum vorum; þegar Gudi þóknast, ad útbýta oss mótlætingum, þá finnast oss þær jafnan í fyrstu ýfrid þúngar, en því lengur, sem vér berum þær, því betur fáum vér lært ad þeckja hvörsu nytsamlegar þær eru fyrir vora sannu velferd; þó byrgd sú, sem vér lída

megum, mun gjøra oſs nádarinnar ríkdóma ómetanlegri. Vid ſiúkdómiñ leidumſt vér til ad þenkja uur ſálar vorrar ódaudlega frelſi. Pad forakt, ſem vér kañſké lída megum af heiminum, fær oſs upphvatta til ad leita heidurs hjá Gudi. Miſſir þeſs, ſem var oſs hid kjæraſta í heiminum, upphvetur oſs til ad képpaſt því alvarlegar eptir vinſengi Guds; í einu ordi: øll tilfelli, ſem mæta oſs, mega þéna til eblíngar velferdar vorrar, ef vér færum oſs þau vel í nyt. Vér ſáum þar vid kreptuguſtu upphvatníngu ad príſa vors Guds víſu og nádugu forſjón, jafnvel og fyrir vorar mótlætíngar, og med viljugu hjarta ad taka á móti kroſſins kaleik af hans hendi. En hvílíkann mismun er ecki ad ſiña í þeſſum kríngumſtædum á milli Jeſú og Símons af Cyrene? bádir bera þeir kroſſinn, en hvørr á ſinn hátt. Vor Frelſari tók hann viljugur med glødu hjarta ſér á herdar, hañ lét ſig ecki neyda til þeſs; Símon géckſt undir hann naudugur. Vid þeſſa ólíku adferd ſetſt oſs fyrir ſjónir annara kroſsberara adferd. Hinir ſannkriſtnu bera ſinn kroſs med gledi, heimſins børn med ólyſt. Sérhvørr ſá, ſem med óviljugu, møglandi hjarta

hjarta ber krossins byrdi, og stynur undir hans þúnga, óánægdur med eymdir sínar, hann er enn þá lángt frá ad eptirfylgja Jesú; í stad þess ad krossinn ætti ad vera þvílíkum manneskjum til eblíngar og framgángs á þeirra sáluhjálpar vegi, er hann þeim miklu framar til hindrúnar. Þar finnst þó eckért óbultara medal til ad sameinast sínum Lausnara, og til ad ødlast eilífa sáluhjálp, enn ad taka fríviljuglega krossinn á sig og bera hann med þolinmædi. Vér viljum, vor dýrmætasti Lausnari! einnig undir mótlætinu verda þér líkir. Leggdú þá byrdi oss á herdar, sem oss er ætlud, vér viljum ecki skora oss undan ad bera hana. Vér hofum þau heityrdi í skirn vorri inngengid, er vér fyrst teknir vórum í þína þjónustu, ad strída med karlmennsku undir þínu merki, á móti syndinni, Sathan og heiminum, og, sem eidsvarnir strídsmenn, vera þér trúir til æfiloka. En hvorsu laklega hofum vér híngad til haldid þennann eid? í stad þess ad æfa oss í sjálfs-afneitun og kristinndómsins léttu skyldum, hofum vér valid ofs girndanna lystisemdir. Í stad þess ad láta oss lynda mótlætíngar þær, sem þín hønd lagdi á oss, hofum vér møglad á móti þér, og

hrundid frá oss hønd þinni þá hún typtadi oss. J stad þess, ad krossfesta vorar tilhneigíngar, hofum vér med stærstu laungum leitast vid ad metta þær; þannig hofum vér, því midur! hagad oss. En, ó vor Gud! þú, sem best þeckir vondsku vora og veikleika, styrktú oss í stridinu, hjálpadú oss ad verda þér þócknanlegir, og géfdú oss nád til ad bera allt þad, er þú sendir oss, med viljugu hjarta. Drag oss med þínum kjærleika æ meir og meir frá heiminum til þín. Því skyldum vér vilja skora oss undan øllum eymdum, þar vor Jesús hefir lída mátt bitrustu qvalir? vor fyrri synda vegur var einnig morgum þyrnum lagdur, því skyldum vér þá vilja skora oss undan nockrum eymdum á gudhrædslunnar vegi? Jesús vill þó ecki láta olaunada hina minnstu byrdi, sem vér berum hans vegna; fyrir vora litlu mædu á blessun af hans krossi ad koma yfir oss og børn vor, og þo oss bregdist þessi umbun hér í lífi, mun þó eilífdin endurgjalda oss allt, sem vér hér missa megum, afneita edur útstanda. Vorar þreyngíngar, sem eru stuttar og léttar, afreka oss eilífa, og yfir allann máta dýrdlega vegsemd. Þángad viljum vér snua augum vorum, gledja

oss

oss í andanum vid þann komandi fögnud, og med þolinmædi taka vorn kross uppá oss, þá mun loksins krossins vegur leida oss til himinsins.

## 30. Föstu-Hugvekja.

Fjallid Golgatha, Marc. 15.

Sérhvør atvik vid Jesú-pínu eru merkileg þeim, er sér til nota vill hugleida Jesú fridþægjandi dauda. Í rósemi viljum vér nú þenkja um það stad, á hvørjum vor Endurlausnari þoldi þá sídustu pínu, og hér munum vér einnig varir verda margra Guds vísdóms og gædsku leyndardóma. Jesús mátti lída þeña dauda utan Jerúsalems múra. Eptir fyrsta áliti var vid Jesúm hérmed ecki añad gjørt, eñ hvad almeñ sidveñja var hjá flestum þjódum, ad láta sakameñ aftaka utan borgar. En þad gat skéd, ad Jesús lidi daudañ eins og Zacharías, í forgardi musterisins. Hañ kyñi hafa verid aftekiñ í einhvørju samkunduhúsi, ellegar í Biskups høllini, svo ad allt upphlaup af alþýdunni hindrad yrdi, og máské vér meinum, ad þad hefdi heidurlegra verid fyrir Jesú persónu heilagleika, ad hann endad hefdi líf sitt í musterinu,

enn á einhvørjum ødrum nafnkénndum stad í Jerúsalem; ad Gud hefdi vegsamad síns Sonar dauda, ef hann áqvardad hefdi líflát hans í Gydíngalands høfudstad, og í þvíallrahelgasta Musterisins, en Guds þánkar eru hér í ecki eins og vorir þánkar. Eptir Postulans Páls ávísun áttu þær fórnir, sem vóru frambornar á altarid í forgardinum, á ennm stóra fridþægíngar degi, ad brennast til øsku utan herbúdanna. Med því átti ad géfast til kynna, ad Jesús, sem fyrirmindadur var med Gydínganna fórnfæríngum, skyldi útskúfast úr manna sambúdum; þetta skédi þegar hann var krossfestur utan Jerúsalems porta. Hér med verdur oss einnig til kynna géfid, ad nú vóru allar fórnfæríngar í Musterinu á enda, og ad Gud þadanaf hefdi enga þócknun á nockru offri, þá hann mótttekid hafdi offri síns Sonar. Med því, ad hann géck út af portinu, til ad lída daudann, verdum vér á þad minntir, ad velgjørníngar hans dauda, nádu ecki einúngis til Jerúsalems barna, heldur einnig til alls heimsins. Því erum vér skuldbundnir til ad gánga med honum út fyrir herbúdirnar, og bera hans vanvyrdu. Nú á þad levítiska løgmál ecki leng-

lengur ad skuldbinda oss, nú blýtur sú ad vera vor sérlegasta umhyggja, hvørnig vér gétum ordid hluttakandi þess offurs, sem Jesús frambar. Nú má oss eckért frá því halda, ad þola þær þjáníngar, sem oss mæta kuña, ef vér eptirfylgjum Jesú. Hér høfum vér engañ blífanlegann samastad, heldur leitum hins komanda, hvar allir þeir vidtóku sá, sem Kristi hafa eptirfylgt. Jesús hlaut ad deyja á Golgatha; fjall þetta er ad øllu leiti merkilegt, þad var partur af Móría fjalli, á hvørju Isaak átti ad offrast; þad var hid foraktanlegasta pláts vegna þess, þad var brúkad til aftøkustadar sakamanna. Af Guds vísa rádi var þad sjáanlega áqvardad, ad Jesús deyja skyldi á þessum opna og almeña stad; þvíad á því reid øllu framar, ad menn nædu um þad órækri fullvissu, ad Jesús sannarlega dáid hefdi; en hvad margfaldar efasemdir hefdu ecki vera mátt um Jesú dauda, ef hann dáid hefdi á heimuglegum stad? vér viljum nú taka til dæmis: ad Jesús hefdi verid í hel sleginn í musteríinu, ellegar á heim stad, hvar hans vinir edur óvinir hefdu einir verid sjónar-vitni ad dauda hans, hvørnig vard þá hinum vantrúada móti mælt?

hvørn-

hvørninn veiktrúadir styrkjast? þad hefdi segja mátt, ad Jesú vinir hefdu fengid adra til, ad bera út dauda hans, en hann hefdi aldrei fullkomlega dáid. Máské ad Jesús hefdi einúngis fallid í ómegiñ, er menn héldu, ad hann daudur væri. Jesú óvinir hefdu þá tækifæri fundid til ad álíta dauda hans, sem eitthvørt snoturt vélrædi, og upprisu hans, sem ósannindi. Allar þessar vantrúarinnar mótsagnir, verda vid þad ad engu, ad Jesús dó á opinnberum aftöku-stad, og öll efunar-málum dauda hans mega þar vid burthverfa. Gydínga-fólk siálft sá hann útleiddann; þeir sáu, ad sá madur, sem qvøldinu fyrir var til fánga tekinn, var siálfur hiñ sami, sem á krossinum héck; þeir sáu hvørnig hans kraptar meir og meir þverrudu, og þannig urdu þess varir, hvørsu hann nálægdist dauda sínum, þeir máttu heyra sídustu ord hans, med hvørjum hann afhendti sálu sína í födurfins hendur. Þeir sáu, til þess frekari vissu um dauda hans, ad spjóti var stúngid í hans sídu, sem víst hefdi svipt hann lífinu, ef ad enn þá hefdi verid líf í honum; siálfir máttu þeir siá allar adgjørdir vid hans jardarfør og greftrun. Allt þetta mátti ad fullu sañfæra

færa sérhvørn um þad, ad Jesús værí sañarlega daudur, og því hagadí Gud því svo, ad hans Sonar líflát skédi opinberlega á almennum sakamanna aftøkustad. Og gat þá Jesús sjáanlegar opinberad hlýdni sína vid sinn fødur, og dýpt sinnar nidurlægíngar, enn med því ad lída daudann á svo skammarlegum stad; hans aftøkustadur hlaut ad auka hans dauda biturleika; hann var þar med gjørdur jafn hinum vidbjodslegustu sakamønnum, og allir spádómar, sem þartil vísudu, urdu med því uppfylltir. Þegar þad heitir: ad Jesús skyldi reiknast á medal íllgjørdamanna, ad menn jafnvel og mundu hylja sitt andlit fyrir honum, þegar Móses spáir, ad Israel mundi sáluhjálpariñar bjarg svo lítils meta, ad þeir mundu upphengja hann, svo sem daudt hræ, þá verda allir þessir spádómar á Jesú uppfylltir vid þessi tækifæri. Máské þetta megi enn nú telja til, ad hann med þessum daud-daga, vildi uppfylla þá fyrirmindun, sem Israels børnum var fordum géfin med eyrormínum. Þessi eyrormur var uppreistur midt á mørkinni, hvar svo margir Israels barna drepnir vóru af eitrudu høggorma-biti. Jesús vildi því deyja á hausaskélja-

stadn-

stadnum, og líka sem yfir beinum hinna daudu; hann vildi vid daudann strída á þeim stad, hvar daudiñ uppreist hafdi sitt sigur-teikn, og ǫllu því samansafnad, sem gjǫra mátti áfall hans ógnarlegt og bit-urt. Á daudans leikvelli uppreisti hér lífsins Fursti sitt sigurmerki, og uppfyllti þar med spámañaña fyrirsagnir: daudi! eg vil vera þér ólifjan! grǫf! eg vil vera þér drepsótt! en hvǫrsu megum vér ecki hér af læra ad þeckja stærd vorra misgjǫrda, og Jesú yfirgnæfanlega kjærleika? hvǫrsu mega ecki syndir vorar vera vidbjodslegar, þared Jesús fyrir þeirra sakir hlýtur ad deyja í hiñi stærstu forsmán, og undir bitrustu plslum á íllvirkjanna aftoku-stad? hvǫrsu iñilegt má ecki vera þacklæti þad, sem vér erum vorum Frelsara skyldugir um, fyri þeña part písla hans? nú megum vér deyja hvar sem vill, vor daudi mun þó verda oss sáluhjálplegur; hvǫrt sem vér verdum af daudanum yfirfallnir undir vorra óvina hǫndum, edur í fadmi vorra kjærustu vina, minnum vér þó, hvǫrt sem verdur, aldrei orsǫk hafa til huglausrar efasemdar; á hvǫrjum helst stad, sem daudiñ hittir oss, mun hañ verda fyrir oss vegur til himinsins, þegar vér deyjum í sameiníngu vid Jesúm. 31. Fǫstu-

# 31. Föstu-Hugvekja.

Jesús á krossinum, Jóh. 19.

Þeir krossfestu hann. Þrjú orð, sem í sér innibinda allt það, er uppfylla má hvorja sálu ógnun og gledi; Johannes segir oss í þessum eptirtakanlegu fáu orðum allt það, er uppvekja má medaumkunar,- kjærleika- og þacklætis-tilfinníngu; hvorr annar, er um svo mikilvægt efni skrifad hefdi, mundi hér brúkad hafa valin málsnildar orð, til að fá sem vidqvæmast afmálad það, er Jesús hlaut nú að líða; en honum er það nóg, að nefna einúngis þá hádúng, sem Jesús þoldi, en gefur hitt lesaranum til egin umþenkíngar. Já, hér, mín sál! finnur þú efni það, í hvorju þú æft getur alla þína þánka, og fridstillt allar þíns hjarta saklausu tilhneigíngar; vid umþenkíngu þessa efnis, máttú leidast til undrunar og lotníngarfullrar tilbeidslu. Æ! yfirvega þú þá, med heilagri lotníngu, þann mikilvægasta atburd, sem á jördunni hefir nockurntíma vidborid: þeir krossfestu hann. Stattú hér vid, mín sál! o Golgatha! hvors blód var það, þú drackst? hvors kross var það, sem nidurgrafinn var í þína jörd? hvorr er hann, um

hvorn

hvørn þad heitir: þeir krossfestu hann? sakamenn og íllvirkja hefir þú víst fyrri borid, en aldrei-þángad til dó nockur manneskja á hæd þessari, svo stór, svo saklaus, sem hefdi svo guddómlega eginlegleika. Hann var á þessum tíma, svo djúpt nidurlæckadur, sem yfir himin og jørd svo hátt var upphafinn, hjá honum var guddómleg hátign sameinud hinni stærstu vanvyrdu; þessi var sá einasti, hvørs daudi var heimsins fridþægíng, þess vegna er vors Jesú krossins mind oss svo yndisleg; í Jehóvæ líkíngu fengjum vér ecki hans ásjonu sjena, og þó vér sæum hana, mætti hún vera oss óttaleg. J eins Høfud engils líkíngu væri oss hans tilfelli óskiljanleg. J eins píslarvotts líkíngu væri oss hans pína til ásteytíngar. Svo sem Spámadur hefdi hann átt ad grýtast, sem hinir adrir Spámennirnir, eptir Gydínganna sidvenju, þegar hann deyja skyldi fyrir sannleiksins sakir. Hér hagadi sú guddómlega forsjón því svo, ad hann leid lángtum annann daud-daga, sem enga líkíngu hafdi þeirra písla, er menn lidu saklausir, fyrir sannleikann. Hann var á krossinum hengdur, og leid þar þræla- og sakamanna-straff. J þessum Jesú daud-daga láta sig í ljósi

Guds

Guds vísdóms dýrdlegustu rádstafanir, sem þéna til styrkingar vorri trú. Af aññara tilstofnun hlaut Frelsarinn ad svíptast lífinu, því daudans tilefni, syndin, hafdi ecki hjá honum stad, sem var heilagur og flecklaus; en ad hann heldur leid krossins dauda enn hvørn annann, þad skédi af Guds vísu rádstøfun. Med engum daud-daga vard þad auglioslegar sýnt og sañad, ad Jesús stædi undir Guds dómi, sem keyptur þræll, enn med krossfestíngunni, sem var þrælanna dauda straff. Kross-festíngar-straffid mátti og sérílagi hafa þann tilgáng, ad sýnt yrdi ad Frelsarinn dæi ecki naudugur, þvi hann dó ecki fyrr eñ allt var af honum viljuglega fullkomn-ad eptir fastsettri reglu, og svo sem eptir vissri rød. Já, hann skyldi enn þá fram-qvæma margt á sínum sídustu tímum mønnum til besta og til fullkomnunar síns offurs, og þar til gafst honum tíminn bestur og tækifærid vid krossfestínguna, þared dauda-straff þetta olli lángsømum daud-daga, og hans sála féck á medan verk-ad undir þessu qvalrædi med óskérdtri skynsemi. Þegar hañ þar á eptir verulega dó, mátti þad um hañ heita, ad hañ dæi viljandi, þó engiñ síđan svipti hañ lífinu,

en hann mátti, eptir náttúrlegum hætti, lángtum lengur lifad hafa á krossinum. Loksins heyrir þad og til Jesú kross-vísdóms, ad allir spádómar og fyrirmindanir eru fyrir þad uppfylltar ordnar. Hvílíkur vísdómur og nád eru þá ecki sameinud í vors Jesú krossins dauda? hvílika orsök høfum vér ecki til ad láta hann vera vora einustu hrósun, vora dýrmætustu huggun og vora ædstu gledi? vér þurfum einúngis ad hugleida þá óútmálanlegu velgjørnínga, sem oss eru afrekadir med Jesú krossi; vér þurfum einúngis ad reña augunum til eymda þeirra, sem vér med syndum vorum høfdum fallid í, ef Jesús hefdi ecki framborid fullgyldt forlíkunar-offur fyrir oss; þetta skal upphvetja oss til ad heidra hans krossins dauda. Lángi oss eptir huggun, þá samvitskan áklagar oss, sjáum vér í hinum krossfesta Jesú forlíkunar-mañ allra vorra synda; skélfi straffid oss, sem vér med vorum syndum høfum verdskuldad, þá segir Jesú kross oss: ad hann borid hafi vora sjúkdoma, og tekid uppá sig vor kránkdæmi, ad hann sé særdur fyrir vorra synda sakir, og lemstradur vegna vorra misgjørnínga; skélfi oss løgmálsins bølvan, þá megum vér í trúnni

upp-

upp til hans líta, sem á krossinum er ordin bølvan fyrir oss, og hefir þar med afkrekad oss þá dýrdlegustu blessun. Jesú kross er því hid kroptugasta medal vorrar sáluhjálpar, grundvøllur vorrar fridþægingar og vorrar vonar, uppspretta til vors réttlætis, vorrar rósemi, vors frelsis og huggunar, og orsøk vorrar eilífu sáluhjálpar. En því erum vér þá svo kaldgédja og tilfinníngarlausir, þegar vér vyrdum fyrir oss hinn krossfesta Jesúm? æ! vegna þess, ad vor kjærleiki er enn nú lángtum offkaldur, og vor gudrækni ástundan svo ifrid treg, þegar vér berum þau saman vid vors Jesú ástúdlegasta kjærleika; ef vér elskudum hinn krossfesta Jesúm af gjørvøllu sinni, þá mundum vér ljúflega segja oss úr syndarinnar og heimsins þjónustu, en sverja vorum Endurlausnara eilífar trygdir. Væri Jesú kross oss dýrmætari enn allt annad, þá leitudum vér ecki luckn vorrar og gledi einúngis í jardneskum hlutum. Ef vér kjæmumst vid í hjarta voru, þegar vér þenktum um hinn krossfesta Jesúm, þá mundum vér finna stærri vidbjod á þeim syndum, sem hann qvøldu, enn almennt skédur, og taka oss því betur vara, ad flecka sálu vora med nýjum

jum misgjörníngum, og ef oss værí annt um frelst vorrar sálar, mundum vér ecki halda áfram í þeirri fásinnu, ad álíta holdsins lystisemdir, sem vort ædsta góda; já! hefdi Jesú króss-daudi nockurn krapt í voru hjarta, þá mundum vér brádum verda ödruvísi sinnadir enn híngad til, vid vorn náúnga og siálfa oss. Allt þetta vidurkénnir nú sála vor, já! þá vér í rósemi hugleidum þinn krossins dauda, o! vor Jesú! ógnar oss kaldsinni vort og þánkaleysi um þinn stóra kjærleika, sem leiddi þig til ad þola þvílíkann dauda fyrir vorar sakir. ÆE! vér æskjum oss, ad vera nú eins gédi farnir og Postulinn Páll, ad þvíngast af þinni pínu, til ad lifa þér eingis, sem fyrir oss ert dáinn. En vér qvídum þó, ad vort laus-sinni muni ónýta þessa osk, strax sem vér komum út í heimsins gálausa soll. Hversu brádum munu þá ecki þánkarnir um þinn kross, og kjærleikinn til þín, vera í burt horfnir, er þeir hlutir koma oss fyrir sjónir, sem draga til sín alla þánka vora og kjærleika? þessvegna vyrdstú, o! Jesú! ad innprenta fastlega vorri sálu þína krossins íminnd, og láttú hana æ vera oss fyrir augum, þá holdsins lyst og syndarinnar og heimsins lysti-

lystisemdir vilja locka oss til ad hafast þad nockud ad, sem þig mætti styggja; þessi trúada húgleiding styrki oss til ordugrar mótstødu sérhvorri synd, og gjørt oss óhvikula og støduga í þeim trúskap, sem vér høfum svarid þér. Þá vér erum þannig sinnadir, verdur Jesú kross oss þad lífsins tré, sem géfa mun oss æfilegustu ávexti. Í sérhvørri ángist og órósemi munum vér þad á þessu lífsins tré finna, sem ad fullu fridi hjarta vort, þó allra hellst á vorri dauda-stundu, þá munum vér gladir, þig, krossfesti Jesú! í trúnni umfadma, og fyrir þinn krossins dauda finna inngáng opinn í þitt himneska ríki.

## 32. Føstu-Hugvekja.

Jesú sídustu ord af krossinum, Lúc. 23. Jóh. 19. Matth. 27.

Ó! hvad mild er ecki sú rødd, sem heyrist frá Golgatha! ógnarleg var rødd Guds, þegar hann taladi, sem løg-gjafari og dómari í reidar-þrumum á Sínaí fjalli, og eldíngum leyptradi í kríngum hann, en hér er allt rólegt, hér vogum vér ad nálægjast án alls ótta fjallid, á hvorju Jesú blód útrennur. Hér megum vér rødd

hans heyra, án þess ad skélfast vid, því vor deyjandi Jesús sýnir sig hér øllum syndurum, øllum yfirgéfnum, øllum deyjandi í því huggunar-ríkasta útliti; látum oss nú skoda hann, til eblkugar vorri trú. Vér sjáum nú (vorum Jesú, þann syndaranna vin, sem elskadi óvini sína til æfiloka, fyrir syndaranna sakir tók hann uppá sig erfidi og armædu á medan hañ umgéckst hér á jørdu, fyrir þeirra sakir leid hann sína bitru pínu, fyrir syndurunum bar hañ þá ástúdlegustu umbyggju fram í daudann, syndarar vóru hans fyrsta og sídasta umþenkíngar efni. Í kríngum kross hans stód mikill skari gudlausra skálka, hann horfdi á þá, med medaumkunarsømum kjærleiks augum, og bad fyrir þeim med þessum hjartnæmu ordum: **Fadir! fyrgéf þeim, þeir vita ecki hvad þeir gjøra.** Vid sídu hans héck einn íllvirki, sem bad sér nádar af honum med audmjúkum anda, hversu fljótur var hann ecki til ad endurnæra þeñañ vesæling, og géfa honum þad fyrirheit: **í dag skaltú vera med mér í Paradís?** hvílíka huggun finnur hér ecki þad hjarta, sem stóra ángist ber yfir sínum syndum? fyrir oss hefir Jesús einig offrad bænum og púngum and-

andvørpununm, med gráti og tárafollum, á þessum hans qvala-degi. Hvad hefdi af oss ordid, ef hann ecki hefdi innilukt oss í þeim fyrirbœnum, er hann gjørt hefir fyrir sínum mordíngjum? máské vér værum þá fyrir laungu í orvæhlnun, vegna synda vorra, tapadir; en vegsamad sé hans nafn! hañ hefir einnig bedid fyrir oss, og snúid frá hofdi voru hegníngu þeirri, sem oss mundi hafa eydilagt. Tídum hefir hann med medaumkun til vor litid, þegar vér høfdum verdskuldad ad sjá hañ eins og stráungann dómara. Tídum frelsadi hañ sálu vora, þegar vér vildum hafa varpad heñi í fordjørfun; og hvad mun hañ eñ þá ecki vid oss gjøra, ef vér med sañri ydrun snúum oss til hans? hvørsu reidubúinn mun hann ecki líta til vorra tára, og heyra vora andvørpun? þá trú høfum vér til þín, vor Lausnari! ad þú sýna munir oss þá sømu miskun og ræníngjanum. Þú munt fyrir oss himiniñ opna, þegar heimuriñ apturlykst fyrir oss, hjá þér munum vér finna náð, þegar oss liggur mest á heñi. Jesús sýnir sig enn á krossinum, sem adstod hinna yfirgéfnu. Sjálfur var hann nú af vinum og óvinum forlátinn, já, hvad mest var verdt, yfirgéfinn af sjálfum

Gudi; á krossinum hángandi sann hann til Guds reidi ogñana, en þannig stoddunn, géck honum þó til hjarta ástand módur sinnar; hann renndi augum til hennar, og sá hvorsu hún umfadmadi hans kross, og hans blódugu fætur, hvörnig hún studdi sig vid Johannes, þegar hún af þeim sára harmi, sem sundur-skar hennar vidqvæma módur-hjarta, var ørmagna ordin. Hañ leit til hennar og gjørdi rádstofun fyrir høgum hennar. Nú var ad nockru leiti létt á hjarta hans, svo hann fengi því heldur stadist þad skélfilega augnablik, sem honum var áqvardad: ad verda nú yfirgéfinn af Gudi. Eitt sinn munum vér og máské í vidlíkt ástand koma, þegar daudinn nálægist, hvørr veit þá vid hvørjar efasemdir sála vor ega muni ad strída. Máské vér megum þá ogsvo qveinandi klaga: Drottiñ hefir yfirgéfid mig! Drottinn hefir gleymt mér! þá, Frelsari vor! ef þad mæta skyldi, viljum vér renna vorum vonar augum upp til þín, sem vor vegna varst yfirgéfinn af Gudi; þú munt þá reynast voru ángistar-fulla hjarta í þessari vorri stóustu neyd, vor sætasta endurnæring, já! í sérhvørri ángist og efasemd, sem í hugann hvarflar, mun hjarta voru

ad

ad því léttir verda, til þín ad þenkja. Máské áhyggja fyrir vorum elskudu ástvinum, sem þá umkríngja harmandi helsæng vora, og vér sjáum adstodarlausa eptirlátna í heiminum, aukí angist vora og órósemi; en þá viljum vér til þín þenkja, sem adstod gafst af krossinum þinni adstodarlausu módur; þinni forsorgun og umhyggju viljum vér þá á hendur fela þessa vora elskudu, þú munt senda þeim eiñ Jóhannes, sem gángi þeim í vorn stad. Svo eckért skyldi vanta, er auka mætti þær qvalir, sem Jesús leid vor vegna og oss til huggunar á krossinum, heyrum vér hann þessu næst qvarta um þorsta: mig þyrstir, hropar hann. Eitt sinn mun oss og þvílíkur þorsti qvelja, þá vér erum daudanum adkomnir, þegar allir vorir kraptar, eru sem skél uppþornadir, þá viljum vér til þín þenkja vor Jesú! og hugga oss vid þinn þorsta, þá munum vér þacka þér fyrir hvorn svalandi vatnsdryck, sem oss borinn verdur, og fyrir þad, ad þú munt géfa oss meiri léttir á vorri sottar-sæng, eñ sjálfur þú naustst á krossinum. Þú hrópadir: **þad er fullkomnad!** æ! ad vér mættum þó eitt sinn taka eptir þér þad ord í vorn munn med sama sigur-hrósi og þú taladir

þad. Hvørsu rólegir megum vér ecki qvedja heim þenna, þegar vér vitum oss hafa allt fullendad, sem oss var áqvardad ad gjøra edur líða í þessu lífi? þá munum vér einnig um allar vorar mótlætíngar segja kunna, ad þær eilífliega séu á enda, og ad engin qvøl framar snerta muni sálu vora né líkama. Loksins kémur endirinn; med hvørsu trúar-øruggu trausti afhendtir þú, deyjandi Jesú! sálu þína í þíns føðurs hendur! kénn þú oss þá ment, ad deyja svo sáluhjálpliega, sem þú dóst; én þó heldur kénndú oss þá ment, ad lifa svo dygdugu lífi, sem þú lifdir, þá mun vor daudi líkur verda þínum dauda.

# 33. Føstu-Hugvekja.

Jesú bæn fyrir sínum óvinum, Lúc. 23.

Hvílíka hjarta-gædsku sýnir hér ecki hinn krossfesti Jesús? jafnvel þó vér hefdum ecki sterkari røksemdir uppá hans guddóm og hans písla óendanlega verd, þá mætti þó þessi adferd hans sannfæra oss um þad, ad þessi krossfesti væri meiri hvørri almennilegri manneskju, já, yfir sérhvørn daudlegann upphafinn; ad sönnu mundum vér þeckt hafa veldi hans og makt,

makt, ef ad hann med síuum reidarþrum-
um hefdi í sundurmarid óvini sína á því
augnabliki, sem þeir vildu hafa hann á
krossinn neglt, edur varpad þeim til jard-
ar, edur med odrum hætti gjørt þá ohæfa
til framqvæmdar sínu fyrirtæki, en hans
kjærleiki og elska til sinna óvina hefdi oss
fyrir þad dulinn verid, vér máttum þá
framar óttast hann enn elska. En hér
vottar hans gædska sig undrunarverda.
Vér vitum, ad hann med einu almættis
ordi, hefdi kuñad ad eydileggja óvini sína,
hann gat bodid øllum høfudsképnunum
ad sameina sig þeim á móti, hann gat aud-
veldlega gengid úr høndum þeirr. En
kjærleiki hans vinnur hér sigur yfir allri
tilfinníngu mañlegrar náttúru. Í hans
hjarta bjó engin grimd, hatur né hefnd-
ar girni, heldur einber gædska og eptir-
lángan ad fyrirgéfa. Ekki er á honum
ad sjá nockurn reidi-svip, edur ad heyra
nockur ógnunar ord, heldur einbera hog-
værd og kjærleika, hvar med hañ svo tíd-
um ádur hafdi endurnært hugdeig hjørtu.
Hiñ óútmálanlegi kjærleiki, sem þríngadi
hann til ad lída daudañ fyrir syndarana,
kom honum til þess ad bidja nú fyrir þeim:
**Fadir! fyrirgéf þeim, þeir vita ecki**
hvad

hvad þeir gjora; hvørnig gat Jesús ástúdlegar bedid fyrir vinum sínum? hvørnig gat hann mildilegar høndlad vid elskendur sína, ef þeir hefdu gjört honum litilvæga mótgjørd, enn hann høndladi hér vid sína mordíngja: fadir! fyrirgéf þeim, þeir vita ecki hvad þeir gjøra. Hvørsu má ecki hjarta vort komast vid, þá vér hugleidum þessa vors krossfesta Jesú ástríku bæn! svo margfaldar og ógnarlegar, sem píslir þær vóru, sem Gud hafdi yfir hann látid gánga, var hañ honum þó óumbreytilega hlýdinn allt til daudans, og sýndi þad med ordum sínum og adferd, ad hann gjørdi vilja Guds med gledi. Nú var þad einkum naudsynlegt, ad hann gæfi opinbert vitni síns kjærleika til födur síns, og þad gjørdi hann med ordunum, er hann brúkadi í fyrirbóninni fyrir sínum óvinum. Þann, sem straffadi hann, í sinni dóms reidi, og af hvørjum hann sýndist öldúngis yfirgéfinn, nefnir hann enn þá sinn fødur. Þetta mátti hafa géfid óvinum hans efalaust vissu um þad, ad hann, sem lagt hafdi sig viljugur undir síns fødurs hønd, væri fullviss um hans kjærleika, og þared hann áliti sig, sem Guds eginn Son, mætti hann ega sér Guds adstod vissa-

vísa. Og vér megum nú einnig þolgóðir stóla uppá hans náðar-ríku hjálp, í hvørjum hellst mótlætingum, sem oss mæta kunna. Þó að vér líða hljótum hatur, ámæli, forakt og ofsóknir í heimi þessum, þá egum vér nú það hæli, sem vér ávallt þorum að flýja til, og aldrei bregðst, hvørju enginn maður fær oss svipt; vér vitum að himinsins og jarðarinnar Herra er nú vor faðir, hvørjum vér með traustri trú þorum efalaust að treysta; þetta vitum vér að sonnu, en því erum vér þá svo efasamir og huglausir, hvørsu lítil bágindi, sem að koma? hafi Jesús mátt vera viss um síns føðurs kjærleika, þá hann lá undir þeim bitrustu píslum, því viljum vér þá efast um gæðsku hans við oss, þó oss beri að hondum lítilvægar mótlætíngar? því þó allskyns eymdir og þreyngíngar mættu oss, hvað eru þær að reikna á móti því, sem Jesús leið? hans dæmi má koma oss til að blygðast, þá vort hold vill leiða oss til óþolinmæði og ørvýlnunar. Með ánægðu hjarta ættum vér að kyssa hans ástríku føður-hond, jafnvel þá hún typtar oss sem sárast. Því betur, sem vér vyrðum fyrir oss vorn krossfesta Lausnara, því auðsjenara verður oss, hvørsu

hvorsu mikils oss er ábótavant. Jesús rennir hannkum sínum fyrst á krossinum til óvina sinna, áhyggjusamur um ad fá þá frelsta fra því straffi, sem þeir hofdu nú verdskuldad. Ecki var þad undrunarverdt, þo ad hañ, staddur í þessum qvolum, gleymt hefdi ollu nema sjálfum sér, og síst þenkt til qvalara sinna; en, hvílík mannelska! hann gleymir sínum egin qvolum, og er einúngis hugsjúkur um óluckn óvina sinna. Sjálfs hans pýslir síñast honum ecki óbærilegar, en sú pína er honum þýngst, ad sjá fyrir þá óhamíngju, sem mordíngjar hans bokudu sér og áttu fyrir hondum. Hvorki særdu hans hjarta svo sárt sárin, sem hann bar á sínum líkama, né hádúngarnar, sem hann leid, svo sem hegníng sú, er hans óvinir ollu sér med hans lífláti, og þess vegna bidur hañ fodur sinn svo ástúdlega: **Fadir! fyrirgéf þeim.** Hvad mundum vér hafa gjort vidlíka staddir? edur, þar vér traudlega fáum reynt þad, sem vor Jesús reyndi, hvad mundum vér gjora, ef vér á líkama edur sálu mæta mættum óverdskuldadri misþyrmíngu af óvinum vorum? mundum vér þá géta eptirfylgt vorum Lausnara, og þenkt til vorra óvina med vidlíkum

kjær=

kjærleika? mundum vér ecki ætla oss nóg hafa ad þenkja einúngis til þess, sem vér hefdum ad lída? mundum vér ecki ætla þad vorkunar-mál, þó vér í þvílíkum þjánínga áföllum óskudum þeim ills, er þeirra ollu? en hvad þurfum vér ad nefna hér til stórar þjáníngar? vér finnum hvorsu vort blód og sinislag kémur í hræríngu, hvornig vort hjarta verdur af reidi og hefndargirni upptendrad, þegar vér einúngis mætum litlum mótgjørdum af vorum óvinum. Daglega finnum vér, hvorsu ørdugt þad veitir oss, ad sigra náttúrunnar tilhneigíngu, og venja vort hjarta til hógværdar og umburdarlyndis vid óvini vora. Æ! ad vér gætum þo í hvørt sinn, sem vort blod kémur í hræríngu, vid sérhvorn hefndargirnis þánka, sem oss í hugann kémur, til þín hugsad, vor krossfesti mannelskari! og þannig þenkt med sjálfum oss: vor sáluhjálpari, sá eingétni Sonur Guds, hann, sem var hinn allra heilagasti, leid þó øldúngis saklaus; en vér, sem erum dupt og aska, erum svo stór-syndugir, ad vér høfum lángtum meira verdskuldad, enn vér nockurn-tíma lídum; þad vóru mordíngjar hans, sem hann fyrirgaf, og vorir óvinir afgjøra vid oss lángtum

minna,

minna, því skyldum vér þá ecki reidubún-
ir til, ad fyrirgéfa þeim þeirra litlu afbrot,
þar Jesús var svo viljugur til ad láta
lángtum stærri óstroffud. Vér viljum
þá setja oss Jesúm, sem munstur, fyrir-
sjónir, þá hjarta vort ætlar af reidi og
hefndar-girni ad upptendrast; en vér vil-
jum ecki þenkja til hans einúngis, heldur
hjartanlega bidja, ad hann vilji géfa oss
sitt kjærleiksfulla hjartalag, og fyrir-
géfa oss vorar misgjørdir; því vissari er-
um vér um þad, ad hañ heyra muni vora
bæn, sem vér erum þess fullvissari, ad
hann einnig hefir til vor þenkt í þeirri
fyrirbón, er hann gjørdi fyrir óvinum sin-
um, því hann bad þá undir eins, sem vor
eilífi ypparsti Prestur, fyrir øllu mañkyni,
fyrir hvørs sakir hann leid krossins dauda;
hann bad fyrir øllum mann-ovinum, fyr-
ir øllum hefndar-gjørnum, fyrir øllum
mordíngjum, og lofadur veri Gud! vér
megum því vidbæta: hann bad og fyrir
oss, ad vér enn þá lifum, ad oss enn þá
ecki er í reidi burtu kippt, ad Dómarans
hefnd ecki hefir hitt oss í hvørt sinn, sem
vér látid høfum í ljósi vora hefndargirni,
ad vér nú á þessu augnabliki, megum finna
nád, allt þetta hefir Jesús med sinni fyrir-
bøn

bón afrekad oss. Æ! hættú þó ecki, vor eilífi ypparsti Prestur! hættú ecki ad bidja fyrir oss, láttú enn þá ecki af ad leita vorrar betrunar, máské vér séum hegningunni eins nálægir og þetta fólk, sem sleipt þig lífinu; máské oss géfinn verdi enn þá nockurr frestur, og þá komi hefndarinnar dagur yfir oss; bid þú, vor Frelsari! bid þú fyrir oss! bid þú enn þá um nádar-tíd handa oss, og láttú oss ecki deyja í vorum syndum; þegar vér ætlum ad halda áfram ad forakta þína miskunsemi, sem leida vill oss til betrunar, þegar vér drýgjum syndir á syndir ofan, þegar vér höldum áfram í forherdíngu vors hjarta, þegar vér loksins stöndum vid grafar-barminn, og ormagna óskum oss hjálpar, æ! bid þá fyrir oss, vor eilífi ypparsti Prestur, og láttú oss þá finna miskun hjá þér, vegna þinnar hjartnæmu fyrirbónar á krossinum!

## 34. Föstu-Hugvekja.

Jesú kjærleiki til sinnar módur, Jóh. 19.

Elskan er sterkari enn daudinn; þad lærum vér af þessari hjartnæmu frásögu, sem vér viljum nú í rósemi hugleida. Þad má sýnast undrum gégna, ad á medal

svo margra, er Jesús sýnt hafdi velgjørn-
ínga, finnst varla nema ein persóna, sem
ecki skammast sín vid hans kross. Fæstir
vóru svo hugprúdir, ad þeir sýndu sig lík-
lega til ad taka málstad hins saklausa.
Fjøldi fólks fylgdi Jesú eptir, þegar þeir
vóru mettadir af honum, og þá hañ gjørt
hafdi kraptaverk nockur fyrir þeirra aug-
um; en nú á hans dauda-stundu, vóru ecki
nema þrjár konur og einn lærisveinn hon-
um nálægir. Víst má þetta undra, hvørr
mundi hafa trúad því, ad hinir veikustu
mundu hugdjarfastir vera. Veikar konu-
sképnur sigra þeirra kyni medfædt hug-
leysi, og þær yfirvinna alla hrædslu fyrir
svo sorglegri sjón, þær gleyma hans hád-
úng og vanvyrdu, sem krossfestur var á
millum tveggja íllvirkja. Þær sigra
alla þá hættu, sem þær óttast máttu af
grimdar-ædi þessa ólma fólks. Og hvad
var þad, sem gaf þeim svo óvenjulegann
sigur yfir sjálfum sér? eckért añad eñ hiñ
breñheitasti og trúfasti kjærleiki til Jes-
úm; undrun þeirra yfir hans stóru þolin-
mædi, og hin ákafasta laungun eptir því
ad læra nockud af hans dæmi, veita eptir-
tekt hans sídustu áminníngum. En á
medal þessara persona er ein sú, er framar
hin-

binum krefur vora adgætslu: Maria vid Jesú kross. Hvorsu ógnarleg má ecki sjón þessi verid hafa þessarar dygdugu Maríu vidqvæma módur-hjarta, ad sjá son siñ, sem var dygdin og sakleysid sjálft, svo forsmánarlega medhøndladañ, negldañ á háduglegt tré, eins og bølvunar-efni fyrir alla, rétt eins og afhrak og vidbjód allra manna, og þó ecki gétad hjálpad honum! já, ad sjá hañ al-lødrandi í blódinu og sárum særdann, en þó hvørki mega binda um sár hans né stilla blódid! ad sjá hann adfram kominn, án þess ad géta apturlukt hans brostnu augu; hvílik pína mun ecki hér uppfyllt hafa þad ástríka módur hjarta? ecki ad sídur verdskuldar þó øllum framar hinn krossfesti alla vora adgætslu, því sterkari, sem hans kjærleiki var til sinnar módur, því þýngri og sárari mátti hans pína vera, þegar hañ sá þessa sína elskulegu módur undir krossinum; þær gudhræddu sálir, sem stódu í kríngum krossinn, hofdu einúngis eina pínu ad sigra, en hañ hafdi á þessu augnabliki margfaldar píslir vid ad strída. En svo óútmálanlega stór er kjærleiki hans ad hañ þo snýr baunkunum til vina siña, og gleymir á medan sínum egin qvølum, svo

hann fái þá huggada. Það var ecki af hendíngu ad hann kastadi augum á módur sína, það skédi af ásettu rádi. Hann leitadi hennar med sínum augum, og fann hana í mannfjøldanum. Hann gaf henni ad skilja, ad hann gæfi gætur ad trygd hennar, ad hennar dygd hrærdi hjarta sitt, og ad hann endurgjalda vildi medaumkun hennar aptur med medaumkun. Hann bar einnig umhyggju fyrir velferd hennar og váratekt, og fol hana á hendur þeim lærisveini sínum, sem af kjærleika til hans var reidubúinn ad gánga undir alls-kyns mædu med gledi hans vegna. Hér sjáum vér þann ávinníng hjá Jesú, sem dygdugt líferni heitir oss í sjálfum daudanum; þegar hinum deyjandi bregdur svo vid daudans adkomu, ad hann af ótta og skélfíngu, verdur rétt frá sér numinn, og varla má þenkja til sjálfs síns, því sídur ad hann fái um adra hugsad, já! jafnvel ecki um nákomnustu vini sína og vandamenn; þegar sá deyjandi, sem eydt hefir gjørvallri æfi sinni í sífeldum tvístrandi heimsins sýslunum, engann tíma fær til annars enn ad búa sjálfann sig undir daudann, þá getur sá sannkristni, sem brúkadi hér sína heilbrygdu daga til daudans undirbúníngs,

ings, og sem fullviss er um sitt nádar-
stand og sáluhjálpar-von, brúkad nockrar
sinna sídustu lífs-stunda til uppbyggíngar
børnum sínum, ættingjum og vinum;
hann gétur þá thugad sínar jardnesku sýsl-
anir; hann gétur meddeilt sínum harm-
andi vinum hugganir og góda lærdóma;
ætíd gétur hann verid støduglyndur, æ-
tíd sjálfs síns herra; hañ gétur ádur enn
hann deyr, allt fast áqvardad um sína ept-
irlátnu fjármuni, forsorgad ættingja sína,
rádstafad barna sinna uppeldi, gjørt opin-
berann sinn sídasta vilja, sendt øllum ná-
lægum vinum hina sídustu qvedju, og iñ-
gengid sídan med rólegri gledi í réttlátra
eilífu hýbýli. Já! þetta megnar hinn
sannkristni, þegar jafnvel hinir sterkustu
verda veikir, þá þeir slíka skulu sitt hjarta
frá hjartkjærum ástvinum, og skilja vid
þá, hugsunarlausir um þeirra komanda á-
stand. En hvørsu rólegur má ecki hinn
réttkristni vera, þó hann eptirláti og skil-
jist fyrir daudann vid þá, sem missa í hon-
um fødur og forsorgara? vel fáum vér
skilid, ad þad muni eckért lítid hjartans
ángur og qvøl auka hinum deyjandi, ad
sjá þá samansafnada um sína bana-sæng,
hvørra eintóm tár, bera vitni þess, hvørsu

 ysr-

yfrid stór sé sá missir, sem þeir þá qvlda mega, en vér trúum þvíeinig, ad øruggt trúar-traust á Gudi, sem skapad hefir himin og jørd, og er allra forlátiña fadir, sái audveldlega fridstillt þad trúada harmþrúngna hjarta. Yfrid mikilvægur er þessi lærdómur, og oss til óumrædilega stórrar huggunar, því eitt siñ mun og ad því koma, ad vér staddir verdum í vidlíku ástandi og vor Frelsari í þetta siñ, þegar vér vid burtfør vora úr heiminum, sjá munum í kríngum oss þá, sem gjørdu oss hérvistina ánægjusama, máské þad sé vor ekta-maki, sem megi þá harma vorn vidskilnad, máské vor børn, vor systkyn og adrir ástvinir samankomi þá ad vorri banasæng, þegar vér erum ad dauda komnir. Klárlega syrisjáum vér þad, í hvílíku stríði vor sál muni þá ega, en þá skal dæmi þitt, krossfesti Jesú! vera oss opid fyrir hugskots sjónum. Med eins vidqvæmu tilliti og þú leitst til þiña vina, viljum vér til þeirra líta, eins alvarlega viljum vér adgæta velferd þeirra, og afhenda þá þar med þinni forsjón á hendur. Eitt siñum vér eñ þá athugaverdt í þessu efni, sem vér brúkad fáum oss til undirvísunar: María var stødd vid krossiñ Jesú, en hún stód þar upprétt; audvitad er, hvílíka

líka hjarta-sorg hún hafði ad bera, en hún lét ecki sorgina yfirbuga sig; engiñ heyrdi hana færa bitur kløgumál á móti Gudi, né grimdarfull bríxlyrdi á móti mordíngjum sonar síns. Yfrid vel þeckti hún þá þolinmædi, med hvørri madur á ad láta sig leida viljugañ í gégnum forsjónariñar tídum ørdugu vegu. Hún vissi ad sonar síns daudi þéna átti heiminum til frelsis; heñar dæmi viljum vér fylgja; hvørr veit, nema ad þeir muni eiñig deyja fyrir vorum augum, sem eru nú vor stytta, vor gledi og vor huggan? svo sárbiturt, sem þad tilfelli mætti verda oss, viljum vér þó med audsveypni taka á móti því af Guds hendi og segja: hañ er Drottiñ, hañ gjøri hvad honum gott sýnist! Drottiñ gaf, Drottiñ burttók, lofad sé nafnid Drottins! í þvílíku hugar-fari munum vér fiña vissustu huggun hjá Gudi; hañ mun med líkn líta nidur til vor, eins og til módur siñar, og med siñi hjálp frida vort sorgbitna hjarta.

## 35. Føstu-Hugvekja.

Jesús hæddur á krossinum, Matth. 27.

Þá finnast dæmi þess, ad mannvonskan hafi svo vídt komid, ad hún sé í

frammi høfd vid þá, sem nærri vóru ltfláti undir hinum bitrustu qvølum. Á þeim tíma, eru jafnvel hínir hefndargjørnustu fiandmenn hins deyjanda fridstilltir ordnir, og hatur þeirra plagar þá ad vækja fyrir einhværri ógnun, sem framar fær stad í sálu þeirra. Almeñt er þad, ad sorgblendud þøgn útbreidi sig yfir þann samankomna mannfjølda, sem géfur sjáanlega til kynna, mannlega tilfinníngu, er plagar, þegar þannig adber, ad hræra jafnvel hin grimmustu hjørtu. Sé nú sá, sem daudastraffid lídur þar hjá saklaus, svo er náttúrlegt, ad þad auki medaumkunina med þeim, sem hegníngina lídur. Hvørsu dæmalaus má þá ecki heita Gydínga adferd, sem svo vídt gengu í sínu grimdaræði, ad þeir hættu ecki ad misþyrma Jesú med allskyns vanvyrdu og spottyrdum, eptir þad þeir sáu, ad þeir fá mundu sínum blodþyrsta tilgángi vid hann framkomid; eckért féck til medaumkunar hrært þetta grimma fólk; ecki sjón hins saklausa, sem med einhveruṁ velgjørníngum vid þeirra þjód, hafdi ecki verdskuldad nema gott; ecki sjón hans písla, sem yfirtók allt þad, er nockurr stór-

stórbrota-madur lidid hafdi; ecki sjón hans fáu vina, sem med sárustu sorg stódu undir Jesú krossi; ecki sjón hans hugprúda umburdarlyndis og adferdar allrar undir hinum bitrustu píslum. Allt þetta féck svo litla verkun gjort á Gydíngaña hjortum, ad þeir miklu framar létu sér þar um annt, hvorsu þeir fá mættu qvalir hans auknar, og þetta meintu þeir sig hellst géta, þegar þeir, ecki einúngis píndu hans líkama allskyns píslum, heldur og sálu hans sárum spottyrdum og hádi. Af þessari Jesú óvina adferd, fáum vér lært ad þeckja þau yfir-ráð, tilhnegíngarnar ná yfir þeim, sem láta þær stjornlausar, og hvorsu lángt meñ komist géta í lostunum. Þegar drottnandi syndir eitt siñ nád hafa yfir-rádum yfir oss, þá er þad oss þadan af um megn, ad láta af þeim strax, sem vér varir verdum þeirrar óluckn, er þær mega olla oss. Sá drottnandi vani, sem vér komnir erum í ad syndga, gjorir oss ad lyktum daufheyrda vid allar fortolur og allar eymdir, sem af syndiñi fljóta; af lastaña voldnga straumi látum vér oss draga, og loksins fyrr enn oss vardi erum vér máské fallnir í þann afgrunn, sem vér vildum hafa umflúid. Med mestu um-

 hyggju

byggju hljótum vér því, ad umflýja hina fyrstu fýsn til syndarinnar, og aldrei í blindni afhenda oss til nockurrar tilhnegíngar, sem í byrjuniñi máské smjadri fyrir náttúru vorri, en verdi oss sídan óbætanlega skadvæn. Hér má sjá hvörsu skam̃arlegur sá löstur er, ad hafa auma og harmandi ad hádi. Ætíd sýnir þad íllann mann, ad hæda þañ, sem á vid eymd einhvörja edur mædu ad berjast, jafnvel þó armæda hans, ad nockru leiti, heita mætti af hans egin tilstofnun, en ad hæda og spotta sárpíndann saklausann, þad er þvílíkur glæpur, sem hvört mañs hjarta má hrylla vid. Enginn er efi á því, ad þessi gudlausa adferd má ollad hafa Frelsara vorum mestu písla, og því miklu heldur, sem sakargiftir allar og áklaganir á móti honum framfærdar, vóru skammarlegri og þó allar upplognar. En hér í fiñum vér þó einnig klárustu rök Jesú sakleysis. Hefdu Gydíngar vitad nockud þad, sem þeir fengid gætu Jesú til lasts lagt, mundu þeir sîst forsómad hafa þad ad fram̃bera. Gjörvöll sakargiftin vidvék þeim titli, sem hann hafdi tekid sér, og honum þó med réttu bar. Hvad vandad og óstraffanlegt má ecki verid hafa Jesú

fram-

framferdi, þared hans óvinir sáu sig neydda ad grípa til lýgi þessarar? þess vegna þolir Jesús einúg øll þeirra hádyrdi med svo mikilli hógværd og sinis rósemi, því þared hans egid hjarta frikénndi hañ, mátti hann rólegur vera yfir øllum haturs-fullum dómum, þolinmódur lídur hann sérhvørs hádyrdi og krenkíngar; hann þolir þær vor vegna, til þess hann fengi oss afrekada eilífa endurlausn. Hvørsu óútgrundanlegur er ecki vors Frelsara kjærleiki! eckért hefdi honum audveldara verid, enn láta sína óvini þegja. Med einu einasta ordi, sem hann af krossinum talad hefdi, gat hann varpad þessum vitstola moñum til jardar, en þad gjørir hann ecki. Eckért framber hañ á móti óhljódum þeirra, annad enn sína guddómlegu hógværd og sínar sárheitu fyrirbænir fyrir þeim. Ætti ecki þetta dæmi ad vera oss til eptirtektar? skyldum vér ecki hér af læra, hvørnig vér mundum hafa hegdad oss vid þá, sem vidlíka hefdu med oss farid? þó þannig hefdi ástadid, ad sá óréttur, sem vér lída máttum, verid hefdi himinhrópandi, og oss óbætanlegur, gétum vér þó neitad því, ad sá óréttur var eñ þá skéifilegri, sem Jesús fyrir vor-

ar sakir í þetta sinn leid? og vér vildum ecki hafa fyrirgéfid; vér vildum traudlega hafa forlíkast vid vorn bródur, vin edur náfrænda, þó hann hefdi bedid oss, fallid oss til fota, leitad af oss forlíkunar, og allra medala til ad fá oss fridstillta. Viljum vér ecki líkjast Jesú hógværd, hvors lærisveinar vér þó oskum ad álítast? vér viljum hlutdeild ega í vors Frelsara kærleika, en nálægjum oss honum þó med hjarta, uppfylltu reidi og hefndargirni. O! vor eilífi ypparsti Prestur! vort harda oforlíkunarsama hjarta viljum vér frambera ad þínum krossi, af þér viljum vér læra, ad gjalda ecki skammar-ord fyrir skammar-yrdi, ecki ad hóta, þegar vér lídum, heldur setja þad í hans vald, sem rétt dæmir. Heldur viljum vér eckért þad adhafast, hvar med vér valda kunnum oss vorra óvina hædnis og forakts; og ef þad hendir, ad vér án vorrar tilstudlunar hafdir yrdum ad hádi, viljum vér líta til þín, saklausi Jesú! og fylgja þínu dæmi. Ecki skal þad koma oss óvörum, þó vér lída hljótum baktal og hád-yrdi af ógudlegum. Hafir þú, allraheilagasti! mátt hædni þola, skyldum vér þá undra vondt baktal, þared ætid finnast brestir í voru fari, sem álosum

un verdskulda? hafir þú saklaus og heilagur hlotid ad lida slikar qvalir, hvorsu naudsynlegt má oss þá ecki nockurt mótlæti vera, sem svo audveldlega hrøsum í synd og løstu, þá vér høfum einbera gledi, og allt gengur oss ad óskum í heiminum? vér litum til Jesúm, hvad hann hefdi gjort gétad, ef hañ hefdi brúka viljad almætti sitt, sem óvinir hans med ofdyrfd krøsdu hann til. J hans valdi stód, ad sýna sig Guds Son, ad stiga nidur af krossinum, og ad gjøra þarmed alla sinna óvina vondsku til skammar, en hañ gjørdi þad ecki; vegna þess ad hann var Guds Sonur, vildi hañ ecki stiga nidur af krossinum, því hann vildi vera hlýdinn inntil krossins dauda, og þarmed afreka mannanna endurlausn; o! ad vér værum eins siñadir og Jesús; ef ad vér sífeldt hefdum megn til ad æfa þá hefnd á óvinum vorum, sem hjarta vort hvetur oss til, mundum vér útbreida bráda eymd og fordjorfun yfir allt í kringum oss; allra medala mundum vér leita, til ad fá umflúid ovina vorra vald og vondsku. En hvad ólikir yrdum vér þá Lausnara vorum, hjá hvørjum hin ædsta makt var sameinud óumrædilegasta kjærleika? sífellt veri sú vor ástundan, ætíd

ætíd betur og betur ad laga oss eptir hans dæmi, í vinsemd, hógværd og mannkjærleika; vorrar æru viljum vér leita í því, med þolinmædi ad sigra alla vora óvini.

## 36. Føstu-Hugvekja.

Ræningjans ydran, Lúc. 23.

Hér fann nú vor ørþjádi Endurlausnari endurnæringu, sem styrkti hans hjarta; vanvyrdan, er hans óvinir gjørdu honum, vard nú med því umbunud, ad einn stór syndari vidurkénndi hann ad vera heimsins Lausnara. Hans gledi hafdi þad sífeldt verid, ad sjá hjálparþurfandi syndara til sín koma, er þeir vóru í naudum staddir, þetta gjørdi honum sæta alla þá mædu, reisur og nætur-vøkur, sem hann hafa hlaut, og nú þegar hans fjandmañá grimd neitadi honum endurnæringar í siñi pínu, fann hann hjá þessum syndara, sem ydrandi snérist til hans, þá hugsvølun, er styrkti hann framar hvørri annari; og enginñ nema hann, sem í gjørvøllu sínu lífi hafdi varid þar øllu ómaki til, ad leita syndaraña, og gjøra þá hólpna; hann, hvørjum einn syndari var dýrmætari, enn øll heims dýrd; hañ, sem

mat þad sína ædstu gledi, ad hann endurnæra kunni syndara hjarta, enginn nema hann gat notid þessarar endurnæríngar í sinni pínu. Þessi sakamadur, sem héck vid hans sídu, lét sjá hjartanlega laungun eptir sáluhjálp sinni; hann sá, ad hér í heimi, var nú einkis framar fyrir sig ad vænta, því leitadi hann hins betra heims, hvörjum hans drýgdu misgjørdir sýndust hafa honum apturlokad; hann leit því med bitrasta ángri til baka, til síns umlidna lífs, og bar mestu áhyggju fyrir því, ad hann endad fengi sáluhjálplega sitt líf, hvørs byrjun og framgáng hann hafdi svo illa brúkad. Í þessu sálar-ángri, snérí hann sér til Jesúm, sem ad útvortis áliti var honum ad øllu líkur, en af hvørjum hañ alls vænta þordi; fulltrúa bidur hañ hañ ad miñast sín, þegar hañ komi í ríki sitt. Hvørr má ecki í djúpa undrun falla yfir þessa manns trú? hann mátti affaka, þó hann hefdi hneixlast á Jesú, eins og hann var nú staddur. Þad var ecki undrunarverdt, þo sú vanvyrda og hád-yrdi, sem hann heyrt hafdi af Jesú óvinum, hefdi svipt hann allri trú til Jesúm, og þó aldrei hefdi þad verid, mátti þad sýnast nær því ótrúlegt, ad madur, sem lifad

hafdi

hafdi í løstum og nidurþaggad sérhvørja medlídunar tilfinníngu, sem náttúrlega flaut af hans lifnadarhætti, sem ræníngja, ad hann skyldi sýna þá hugprýdi, ad forsvara Jesúm, ígégn hans óvina hádyrdum, og ecki þad einúngis, heldur sýna hjá sér þvílíkt trúnadar-traust á Jesú, ad hann vænti þess af honum, sem sannar þad, ad hann áleit þañ krossfesta vid hlid sér, guddómlega persónu; hann bad Jesúm ad géfa sér hlutdeild í ríki sínu; af engum mátti madur eptir útvortis áliti, nidur vænta þessa, enn af Jesú, sem í þad sinn, hafdi varla mannlegt því sídur kon-únglegt útlit. Jesús var nidursøcktur í hid stærsta eymdaña djúp; eckért átti hañ framar hér í heimi, hann héck nakinn á krossinum, hann hafdi enga fylgis-menn né þénara, hann var ad dauda kominn, sem er tíma-púnktur sá fyrir Kóngum og Furstum, þegar allur mikil-leiki og hátign burthverfur, og þegar engiñ framar skeitir þeirra nád, og í þessu ástandi bad ræníng-inn sér þeirrar nádar af Jesú, sem tók út yfir nærveranda lífs takmørk. Hann bad hann minnast sín, þegar hañ iñgengi í ríki sitt. Þetta var þvílík trú, sem meñ vart kunnu ad vænta af Jesú trúfasta

lærí-

lærisveini. Ecki viljum vér grenslast eptir því, hvørt hjá oss finnist þvílík trú; vér viljum gánga lengra til baka í vorri eptirgrenslun, og skoda hann ásetníng og sinnislag, er á undan má hafa gengid hjá þessum sakamanni; því naudsynlegri er oss þessi adgjætsla, sem daudinn yfirfellur oss lángtum voveiflegar enn ræníngjann; med nockurskonar vissu mátti hann þad fyrisjá, ad hañ átti skammt ólifad á krossinum, og því nær hann kom dauda sínum, því alvarlegar gat hañ búid sig undir hañ. En, vér getum ecki med minnstu vissu fyrisjed, hvørsu lángt edur skammt vér eptir egum; óvíst er og um þad, hvørt vér haldid fáum fullkominni brúkun skynsemi vorrar, á vorri sídustu stundu, hvørrar þó ecki má án vera til sannrar ydrunar, því hvørt vér deyja kynnum brádum dauda edur lángsømum, erum vér þó í hættu staddir, ad tapa sálu vorri. Ef ad vér deyjum snøgglega, fáum vér enga umsorgun borid fyrir yfirbot vorri; enn ef þad skédi, svo sem vér vegna ásigkomulags vors mættum óska oss, ad vér fengjum ad forláta þennann heim eptir lángvarandi sjúkdom, fáum vér audveldlega fyrisjed, ad þá géta þúsund atvik adborid, sem gjørt

vorn alvarlegasta umvendunar áſetníng, ef ecki öldúngis ómögulegañ, þó samt yfrid ordugañ. Hvörsu naudsynlegt er ecki þess vegna, ad vér nú, á medan vér lifum og erum heilir heilsu, tökum fyri oss þetta allra mikilvægasta efni, hvörsu vér í dauda-minni munum óska oss ad hafa aflokid, og ad vér nú lettumst vid ad leida gédslag vort í vidlíka rósamt ástand og sá ydrandi ræníngi, sem þess vegna sá gladur dauda sinn adkoma. Þessi madur lét sjá hjá sér alvarlegasta vidbjód á syndinni, og sterkustu laungun eptir því, ecki einúngis ad frelsa egin sálu, heldur og hins sálu, sem ásamt honum var sekur í sömu glæpum. Hann þoldi sína daudans qvöl med hógværd og rósemi, því hann áleit dauda-daga sinn samqvæmann misgjördum sínum; hann flúdi til Jesú nádar, sem hann trúar-öruggur ákalladi um fyrirgéfníngu og sáluhjálp, og þvílíkt sinnislag þarf og ad fylla vora sálu, ef vér deyja viljum hins réttláta dauda; vér hljotum ad finna hjá oss vidbjod á drygdum syndum, og vidurkénna oss straffs seka fyrir þær. Þó ad samvitskan brixli oss ecki eginlega um þvílíka glæpi, sem ræníngiñ hafdi drygt, megum vér þó finna í voru umlidna lífi

þær

þær misgjørdir, sem í augum Guds eru eins fordæmanlegar, þó þær eptir heimsins dómi séu ecki svo vidbjódslegar. Til ad falla í ørvýlnun, þarf ecki eginlega þess, ad hafa fleckad hendur sínar med manna-blódi, edur aukid sína audlegd med myrdtra gótsi. Af minna má ángur vekjast og tregi í vorri sálu, enn af þvílíkum skammarlegum athøfnum, sem vinna til þess, ad útilykjast frá mañlegum sambúdum. Sérhvør synd kann ad qvelja oss, þá vér erum daudanum adkomnir, og leida til ørvæntíngariñar qvalræda; já, þegar svo lángt er komid, ad vér stondum á grafar-backanum, munum vér lángtum ødruvísi dæma um vorra misgjørda stærd og sekt, heldur enn vér dæmum nú í vorum heilbrygdu døgum. Þad, sem oss sýnist nú eins og sandkorn, mun þá verda ad storu bjargi á samvitsku vorri, þad sem vér ádur héldum lítilfjørlega sok, mun oss þá vyrdast mikilsverdt, þegar þar er adkomid, ad oll vor lucka er undir þessu dæmi komin, ad þeckja syndir vorar, svo vidbjódslégar sem þær eru; þegar vorra synda tilfiñíng skélfir oss, þegar vor sálar ángist tekur til ad aukast, og vort ofþýngda hjarta finnur hvørgi hugsvølun, æ! verdi þá þinn for-

þénandi dauði, so! vor Jésú! vor huggan og vort hjartans traust! minnstú vor, náðar-ríki Jesú! þegar vér stríðum við syndina, og láttú oss ecki af henni yfirbugast! minnstú vor, þegar vorar úngdóms syndir, og hinna fullorðnu árana misgjorðir skélfa vort hjarta, svo að vér føllum þá ecki í ørvæfnin! minnstú vor á þeim ángistartímunum, þegar enginn minnist vor, og vorra vina endurminníng ecki fær géfið oss nockurn hugfróa, hjálpaðú oss þá að stríða á móti øllum freistíngum! minnstú vor í vorri dauðans neyð, og styrktú oss þá með þinni náð, svo að vér finna megum himininn opinn, þegar heimurinn apturlýkst fyrir oss! minnstú allra þeirra, sem eru yfirgéfnir, allra líðandi, allra deyjandi þeim til besta! á medal allra þessara aumu, mun víst á þessu augnabliki margur sá, sem leitar þín af ollu hjarta. Æ! líttú náðarsamlega til þeirra, og láttú þá finna náð, vegna þinnar forþénustu.

## 37. Føstu-Hugvekja.

Jésú náð við þann ydrandi ræníngja, Lúc. 23.

Af Jesú orðum þeckjum vér enn þá Jesú guddom, sem í hans djúpustu niður-

nidurlægíngu kunni þó ecki ad skérdast. Andvyrdilegleika og hátign, vanvyrda og vyrdíngu, fátækt og ríkdóm, sjáum vér hér forundrunarlega sameinad í þessum krossfesta, þad sem engiñ Kóngur gétur gjört, þegar daudiñ sviptir hann jardneskri hátign, gjörir hér hinn krossfesti Jesús; hann heitir ydrandi ræníngja hlutdeild í ríki sínu, og í dýrd þeirri, sem hann sjálfur vænti sér á sínum dauda-degi. Hafi þad ad undanförnu ordid vorri veiku skynsemi ad ásteytíngu, þá vér sáum hann svo hádunglega útleikiñ, burthverfur nú hneixli þetta, þegar vér heyrum hann deyjandi géfa þvílíkt heityrdi, sem vitnar um hans guddóm; sannarlega! Jesús hinn krossfesti er Guds Sonur! hans er ríkid, mátturinn og dýrdin frá eilífd til eilífdar! hvílík huggun er oss þad ecki syndugum, ad hann sýndi þessum syndara þvílíka náð! vér egum nú og hans náð vísa, þad er vort traust. Fullvissa um hans ríkis dýrd og eilífa varanlegleika féck oss engrar hyggarrósemi, fyrr enn vér vissum og, ad oss er hlutdeild ætlud í þessu hans dýrdar-ríki. Ad sjá Guds Son í Jesú píndu persónu, mátti ad sönnu vekja hjá oss hina stærstu furdu, en jafnframt skélfa oss; en hvörsu

huggunar-rík hugsvolun fyrir oss! vér sjáum nú, ad Jesús Guds Sonur er syndaranna vinur, hann er vor Gud, vor Kongur og vor Frelsari, og þessi trú var þad, sem fridstillti ydrandi ræníngja hjarta. Í hans sálar ángist vid daudans adkomu, gat eckért framar hugbreyst edur gladt hann, enn Jesú huggunar-ríka svar; hañ hafdi látid Jesú í ljósi síns hjarta áliggjandi naudsyn, og Jesús var reidubúiñ ad hjálpa honum, já, ad lofa honum enn meiru heldur eñ hañ bad um; ræníngiñn bad hañ: **ad miñast sín, þegar hañ kæmi í ríki sitt.** Hañ mátti géta sér þess til, ad qvøl sín á krossinum mætti enn þá lengi vara, hann óskadi því einúngis, ad þegar hans lífs endi kæmi, hañ mætti nád fiña og ecki fortapast; en Jesús lofadi honum enn meiru enn hann kunni ad óska sér: **enn nú í dag skaltú vera med mér í Paradís!** hvø su má oss nú ecki miklast Jesú kjærleiki til syndaranna! enn nú á krossinum í sinni djúpustu nidurlægíngu, í hans ógnarlegustu qvøl, eru syndararnir allt hans umhugsunar efni. Eins og þad var alla æfi hans dagleg ydja, ad leita syndaranna, og ad gjøra þá hólpna, eins er þad eñ hans lyst og laungun í daudan,

um,

um, ad géfa þeim töpudu frelsi. Vér i-mindum oss hvílík gledi uppfyllt hafi hans pínda hjarta, þegar hañ sá sína sídustu kappsmuni á jörduñi fyrir syndarañá frelsi svo veglega krýnda. Alltaf á medan hañ umgéckst á jörduñi, leitadist hañ vid ad locka syndarana til sín, med sínum lærdómum og velgjörníngum, nú luckadist honum á sínum sídasta tíma, ad á-vinna eins stór-syndara hjarta; þetta var hans kross fyrsti sigur, sú fyrsta verkan fyrirbónar þeirrar, sem hann gjört hafti fyrir óvinum sínum, og þad vegsamlegasta herfáng, sem hann sjálfur tekid hafdi á daudans val-plátsi. Æ! ad vér gjördum og Lausnara vorum eins mikla gledi med vorri umvendun, og vér höfum honum hrigdar ollad med vidvarandi ydrunarleysi! svo lengi hefir hann nú þegar ad oss leitad á afvegum, svo opt leitast vid ad frelsa oss, svo innilega lángad eptir betrun vorri; yfrid mörg útvortis tækifæri hefir hann þau látid adbera, sem oss vekja skyldu af vorum synda svefni; sérhvör tíd, sérhvör stadur, sérhvör tækifæri vóru þannig af honum nidurrödud, ad allt mætti oss til hans draga; svo mörg ydrunarlausra og til nádar tekinna synd-

ara dæmi, sem hann hefir oss fyrir sjónir sett; svo margar mótlætíngar, sem hann hefir látid mæta oss, allt þetta má sannfæra oss um laungun hans til ad uppleita þá villtu, og gjøra þá tøpudu hólpna. Og hvad gjørir hann ecki á þessu augnabliki vid oss? þad tækifærid, sem hann géfur oss til ad hugleida sína pínu, ad skoda þessa nádada syndara dæmi, er þetta ecki kroptug áminníng til vor, ad snúa oss frá syndunum til hans? já! vér viljum, o! þú elskulegasti syndaranna vin! ecki láta þína kappsomu vidburdi vid oss, verda ávaxtarlausa; vér sjáum hvørsu þú útréttir þína hønd til vor, og vér viljum flýta oss til þín. An undandráttar viljum vér ala ønn fyrir frelsi vorrar sálar. Eitt augnablik eins luckulegt og þetta nálæga er, adkémur máské aldrei optar; svo andveld, sem ydran er oss nú, verdur hún oss máské aldrei hédanaf. Hvørn dag fordjørfumst vér meir, venjumst framar til syndarinnar og forherdumst því frekar; þær kríngumstædur mega mæta oss, ad þad nær því verdi oss ómøgulegt med alvøru ad verka vora sáluhjálp; því viljum vér færa oss þetta augnablik í nyt, brúka þad til ad hugleida þetta mikilvæga efni, og gjøra þann

þann undirbúnínginn, af hvörjum vér vænta þorum sáluhjálplegrar endalyktar. Því fyrr, sem vér byrjum þetta heilla verk, því gladari fáum vér gengid dandanum á móti, því vissari megum vér vera um ad ná hlutdeild í eilífri sáluhjálp; þá megum vér med øruggu trúar-trausti vænta himinsins, og deyja med þeirri hugganar-ríku fullvissu, ad vér á vorum vidskilnadar degi hédan, skulum vera í Paradís; sídasta augnablikid, sem adskilur sálu vora frá líkamanum, mun þá verda hid fyrsta í dýrdinni. Engin efasemd skal þá fá gjørt sálu vora órolega. Látum þetta jardneska hreysi for-rotna, vor önd, sem í því bjó, mun þó yfir grøf og for-rotnun upphafin verda. Látum og þekkínguna um vorrar sálar ásigkomulag eptir líkamans dauda, og um þess komanda lífs ástand, vera svo óljósa og svo ófullkomna, sem vera vill, þad er oss nóg, ad vér vitum sálu vorri muni vel vegna; þad er oss nóg, ad vér megum vera þess fulltrúa, ad sá stadur, til hvörs vér flutttir verdum, mun æskilegur verda, og óendanlega farsæll samastadur fyrir oss. Já! þetta vitum vér, og án allrar sorgar viljum vér nú vænta vors sídasta augnabliks;

bliks; vér høfum lyst ad fara hédan, og vera med Kristi.

## 38. Føstu-Hugvekja.

Jesú qvala-hróp af krossinum, Matth. 27.

Þetta Jesú qvala-hróp má vekja hjá oss mestu undrun, en þar hjá styrkja vora trú og upphvetja oss til gudhrædslu. Audsætt er nú, ad hér leid ecki daudans qvalir einúngis saklaus dánumadur eda fødurlands elskari, ellegar píslarvottur; þessir pløgudu ad sýna óbifanlegt støduglyndi midt í daudans qvølum, enga kløgun heyrdu menn af þeirra munni, píslarvottarnir møttu sig því heldur sæla, ad mega lída fyrir Jesú nafns sakir. Þeir sýndu sig, undir enum bitrustu píslum, rólegá og ánægda, og þoldu þær án allrar umqvørtunar; já, gengu jafnvel eins og med sigurhrósi daudanum á móti. En hvørnig er þessu varid? þessir píslarvottar, sem þó ecki vóru nema menn, og jafnvel saklausir, vóru þó syndarar, þeir kunnu ad forakta daudann og bitrustu píslir, med gledi ad gánga útí bálid, og midt í loganum ad sýngja lofsaungva? og Jesús, sá eilífi Sonur Guds, sá allra saklausasti,

sem

sem óſkélfdur mátti vera fyrir daudanum, og þoldi hann einúngis, af því ad hann vildi þola hann; Jesús sýnir miña stodnalyndi, minni breysti heldur enn þessir píslar-vottar, hañ klagar: Gud minn! Gud minn! því hefir þú yfirgéfid mig? hvílík kiøgun af honum, sem vænta mátti ad med sigur-hrósi gengi daudanum á móti! af hvørju kémur þessi misrmunur? efalaust af því, ad daudi Jesú var heimsins synda fórn; hans dauda fylgdi hvílíkur biturleiki, sem enginn deyjandi, enginn píslarvottur hefir nockurntíma jafnbeiskann smackad; á þessu augnabliki þoldi hañ allt þad, er hañ, svo sem offur fyrir vorar syndir, líða átti. Þetta er útskríngin þessa, vors krossfesta Jesú qvala-hróps, sem ad odrum kosti mátti vera oss óskiljanlegur leyndardómur. En hvílíka verkun hefir nú þetta vors deyjanda Jesú qvala-hróp hjá oss? fánum vér neitad honum sárrar medlídunar? þessa skyldu ættum vér ad sýna sérhvørjum saklausum, þó hann væri ecki nema madur einn. Víst mættum vér komast vid af því, ad sjá einhvørn dygdugañ undirþryncktañ af hefnd eintómri, og hatri ógudlegra; en hvad miklu framar þá nú, nær vér íhugum Jesú dauda,

dauda, sem vors ástvinar, vors bróðurs, vors Frelsara dauda, og þeñañ dauda fyrir vorar sakir? hvørsu óbærileg muu ecki vors Jesú daudans ángist verið hafa, þegar hañ hrópadi: **Guð minn! Guð minn! því hefir þú yfirgéfið mig?** ad sönnu var hann neglður á krossinn, og þar hángandi hjálparlaus, en hañ var víss um sína brádu frelsun, allskyns qvalir hafdi hann þolad án þess ad mögla yfir hinni miskunarlausu medferd qvalara sinna. Þad augnablik sá hann nálægjast, sem enda mundi eymdir hans; víss var hann um síns Fødurs stødugа kjærleika, og sinna písla veglegu endalykt. Ecki ad sídur, þó ad Jesús styrktur væri af ølkum þessum kroptugu hugguuum, ofþýngdi honum þó hørmúnganna stærd; og gétum vér þá tilfinníngarlaust hugsad um þessar hans píslir? æ! nei! sá yfirgéfni Jesús krefur af oss vidqvæmustu medaumkunar-tára; en hvad er þetta offur til umbunar þeim óendanlega kjærleika, sem Jesús hefir ós andsýnt; þó ad vér úthelltum sárustu medaumkunar tára-flódi, þó vér offrudum oss honum med lífi og sálu, já! þó ad vort gjørvalla líf á jørdunni, og hitt, sem vér væntum oss í eilífdinni, væri honum ein-

úngis

úngis helgad, til ad vegsama hann og syngja honum lof, þá hefdum vér þó enganneginn, ad øllu leiti fullnægt þeirri þacklætis skyldu, er vér áttum honum ad sýna; því miklu sídur fáum vér þar med endurgoldid hans mikla kjærleika, þó vér vidurkénnum hann med munninum, en afneitum honum í hjartanu. Nei! med þetta kalda þacklæti kann ecki Jesús ad láta sér nægja. Hann krefur allt vort hjarta; hañ vill ad vor kjærleiki til sín hafi fyrir-rúmid fyrir øllum ødrum kjærleika; hann krefur vor hjørtu, sem þad einasta þacklæti, er hann af oss væntir, eins og þá gáfu, er honum þægari er, enn øll offur. Fyrir þess blóds sakir, sem hañ fyrir oss úthellt hefir, sakir hans bitru pýsla, þá hann yfirgéfiñ var af Gudi, hvad aldrei hefdi adkomid, ef þad ecki skéd hefdi fyrir vora skuld, fyrir allt þetta, bidur hann einúngis um vort hjarta, og hvørsu mættum vér láta þessa bón hans óuppfyllta? hvørsu kynnum vér nú halda áfram ad offra hjarta vort heiminum, syndinni og táldragandi heimsins glisi? nei! guddómlegi Frelsari! hjarta vort skal vera þín eign, þér einum viljum vér lifa, þér einum viljum vér leitast vid ad þóckn-

þócknast, þér einum viljum vér keppast ad eptirfylgja. Þvi skyldum vér nú láta syndina ráda fyrir oss, hvillikt óþacklæti! hvillik vondska væri þad ecki! kynnum vér þá ad þenkja án ótta og ógnunar til Jesú qvala hróps á krossinum? ógnarlegt er þad straff, sem Gud hótad hefir syndurunum, en lángtum ógnarlegra er þad straff, sem lagt var á Jesúm. Skélfilegt er ad falla í hendur lifanda Guds, en þetta yfirgengur allt hvad ógnarlegt er, þegar vér sjáum Jesúm, þañ saklausa Jesúm þañig qvaliñ undir guddómlegri hegníngu; tídum erum vér svo blindadir, ad vér álítum syndina fyrir smámuni; ágirni, vellyst, ránglætíngar og mátalaus heimselska eru í vorum augum litilsverdar yfirsjonir, fyrir hvorjar vér ecki þurfum straffi ad qvída; en synist oss þetta rétt metid, þá vér hugleidum, ad þad voru þessar syndir, fyrir hvorra skuld vor Frelsari qveina mátti svo sárlega undir Guds hegnandi hønd á krossinum? o! líttú til Golgatha, blindadi syndari! viljir þú vita, hvornig Gud álítur þínar yfirtrodslur; viljir þú þeckja þiña synda vidbjod; viljir þú vita, hvorju þú eitt siñ mátt qvída af réttlæti Guds, þá reñdú augunum til Golgatha! sjádú þiñ

yfirgéfna Jesúm, og fylltú skélfingar! en þú, náðþyrsta sál! nálægðú þig þínum yfirgéfna Frelsara, og hugga þú þig við hans píslir! safna þú kræptum við hans kross, er styrki þig undir mótlætingunum, huggunar fyrir þinar samvitsku áklögunum, og endurnæringar í dauðans ángist. Máské þú verðir orvæntin, þegar þér sýnist þú í hættu stödd vera, en sjer þér hjálp enga, og Guð undandregur hjálpina, eptir bæn þinni, svo að þú í hormum, sem að þér þreyngja, qveinandi klagar: Drottinn hefir yfirgéfið mig! Herrann hefir gleymt mér! sorgbitna sál! líttú þá til Jesúm! var hann miður af sínum föður elskadur, þegar Guð lagði hann undir bitrustu píslir? og sjáðú þá, þegar Drottinn hefir hulið sitt andlit fyrir þér, þegar það sýnist, að sála þín sé allri huggan svipt, hughreystú þig þá við þíns föðurs kjærleika, og væntú hugsvolunar og hjálpar af honum á þeim tíma, sem hann áqvarðað hefir til hjálpar þér. Loksins mun þó koma hin gledilega frelsis-stund ꞉ hugsaðú til Jesúm! stærri gat neyð hans ecki orðið, þegar hann qveinandi með þessu hrópi: Guð minn! Guð minn! því hefir þú yfirgéfið mig? en varla hafði hann þessi orð úttalað, fyrr enn

hans

hans neyd var á enda, eins mun fyrir þér fara. Þegar hörmúngarnar og neydin er ordin þér hvad obærileguſt, þá er þad augnablikid í nánd, ſem umbreytir þínum hörmum í ſigur-hrós. Efalauſt mun þetta ſké, þá þitt ørþreytta höfud legſt lokſins nidur til dauðans ſvefnhöfga. Þeſſi umſkipti munu jafnvel og uppfylla hjarta þitt róſemi og huggun. Trúar-ſjón þeſs, undir daudañ, yfirgéfna Jeſú, mun þá endurnæra þig, þegar þú miñiſt þiña ſynda, ſetur þér fyrir ſjónir þinn Dómara, og ſkodar jafnframt þad fullkomna offur, ſem hañ framfært hefir fyrir þínar ſyndir, þá mun hans ſjón vardveita þig, á mót daudans, grafarinnar og eilífdarinnar ógnunum. Frá ſínum uppreiſta kroſſi ſýnir hann þér þá Guds forlíkada réttlæti, daudann í ſigur uppſvelgdann, þínar ſyndir afmádar med hans blódi; helvíti apturlukt undir fótum þér, enn himniñ opiñ, hvar þér er búin óendanleg ſæla.

## 39. Föſtu-Hugvekja.

Jeſú þorſti á kroſſinum, Jóh. 19.

Nær því hafdi nú Jeſús í ſex tíma þolad á kroſſinum bitruſtu qvalir, med undir-

andrunarverdustu þolinmœdi, en þó var enn þá ein pína geymd honum, eptir Guds áſettu rádi, fyrrenn hann fengi þañ áſkenkta qvalanna bikar ad øllu út-tœmdann; hann átti enn þá ad pínaſt af þeim ſáraſta þorſta, og ſér til píſlar-auka láta ſér nœgja hina beiſkuſtu ſvølun. Þetta var þad augnablik, þá þau ord uppfylltuſt á honum ad øllu leiti: eg em ſem vatn útausinn, øll mín bein adſkilja ſig, mitt hjarta í mínu lífi er ſmelt ſem vax; mínir kraptar eru uppþornadir ſem ſkurn, og mín túnga lodir vid minn góm. Meir enn í 12 tíma hafdi nú Jeſús lidid þær píſlir, ſem tœmt høfdu krapta hans og preſſad meſta blódid af líkamanum; þad var því ecki fúrda, þó hans magnþrota munn og túngu lángadi eptir ſvølun. En lángtum ſterkari eptirlaungun hafdi þó ſála hans eptir œdri endurnœríngu, hann þyrſti eptir ſœlunni í ſíns Fodurs ſkauti, hann lángadi eptir fullkomnun ſyndaranna frelſis, fyrir hvørja hann hafdi nú útſtadid óſegjanlegar píſlir. Hér finnumt vér afmálun áſigkomulags þeſs, ſem vér í daudanum megum búaſt vid. Þó ad vér deyjum ecki á kroſſinum, né pínumſt ſvo ſem Jeſús til ormegnis, þá mun oſs þó, ad

vonum, eptir svolun þyrsta, þegar oss fiñst innvortis sjúkdómur, sem brennandi eldur sæki ad hjartanu, og blódid tekur ad storkna í ædunum, en kalda svita ad støckva út af líkamanum, æ! hvørsu sár þorsti mun oss þá ecki sækja og laungun eptir svølun nockurri, og lofadur veri Gud! vér munum þá, þañig staddir, þó betur farnir enn vor Jesús var nú. Vinir vorir og kunníngjar, jafnvel vorir óvinir, munu þá sýna oss þá medaumkun, ad rétta oss eiñ þorsta-dryck. Ad minnsta kosti munum vér fá einn vatns dryck til svølunar, og þad án þess, ad mæta hádyrdum, eins og Jesús, í vorri neyd. Æ! þegar ad því kémur, ad þessi sídasti þorsti pínir oss, lát þá, o Jesú! endurminníngu þíns þorsta á krossinum svala sálu vorri! svo opt, sem vér njótum nockurrar hugsvølunar og endurnæríngar á medan vér lifum í heimi þessum, þá láttú oss þad aldrei úr miñi lída, ad vér egum þad þér ad þacka; þú munt eiñig svala oss í daudanum, en vér gjørum rád fyrir, ad annar enn sterkari heldur enn líkamlegur þorsti muni sækja oss í daudanum. Þó ad vér í heilbrygdu døgunum høfum fram-anad í gjálífi, hyrdulausir um velferd sálar vorrar, þá munu

þó

þó efalaust vid daudans adkomu alvar-legri þánkar taka ad vakna í sálu vorri. Æ! þegar þaññ ger komid hogum vorum, ad engin jardnesk svølun fær oss framar endurnært, þegar vér á daudans stundu lærum ad þeckja hvørsu hégómleg og fá-nýt øll jardnesk ánægja er; þegar vér reyn-um þá, hvørsu gjørvallur heimuriñ med øllu því í honum er, er ónógur til svølun-ar og endurnæríngar sálu vorri. Æ! láttú þá, o Jesú! sálu vora, sárþyrsta ept-ir nádarinnar og eilífdarinnar endurnær-íngu, svølun finna; æ! láttú þá ecki vort hjartans andvarp obænheyrt! svgladú þá vorri ormæddu sálu med fullvissu um þá sáluhjálp, er þú hefir heñi geymda í himn-inum; já þángad skal øndu vora lánga, og hún í þeirri eptirlaungun leita sér hug-fróa, þegar hún finnur ecki lengur rósemi hér í heimi; þángad skal trú vor líta, þeg-ar allt hid jardneska hverfur oss frá aug-um, þá óskum vér oss þar ad vera, hvar vér eilíflega fáum ad skoda Guds andlit. Máské, þegar vér erum dauda adkomnir, enn þá gjøri oss hugsjúka áhyggja fyrir eptirlifandi ástvinum, vorum eckjumaka og børnum; æ! vyrdstú einnig ad svipta oss þessum qvída, med því ad styrkja

hjá ofs þá von og trú til þín, ad þú viljir taka undir þína umsjon alla þá, sem vér elskum, og innleida þá á sídan í þañ sama sæluftad, sem vér gaungum inn á undan. O! hvílíka endurnæríngu mun ecki þessi huggun géfa vorn ormagna deyjandi hjarta! en svo lengi, sem vér enn þá lifum í þessum heimi, þá láttú þann þorsta, sem píndi þig á krossinum, sífellt vera ofs í minni, láttú ofs til hans hugsa, þegar lyst til óleyfilegrar endurnæríngar, og þinna gáfna misbrúkunar locka vill vort hjarta; láttu ofs til hans hugsa, þegar leyfileg nautn gáfna Guds gledur ofs í lífinu; láttú ofs til hans hugsa, þegar þjáníngañá hiti og ángur yfir vorum syndum ofþjakar ofs. Lokfins þá ofs í sídasta sinni þyrstir í heiminum, og vér engri svölun fáum lengur á moti tekid, æ! láttú ofs þá til þín þenkja, og verda endurnærda af þinni nád, vegna þess þorsta, sem þú fyrir vora skuld leidst á krossinum.

## 40. Föstu-Hugvekja.

Fullkomnan Jesú písla, Jóh. 19.

Nú var lokfins komid þad augnablik, þá Jesús fañ, eptir bitrustu ángistir

og píslir eilífa endurnæringu. Hans grimmu óvinir hofdu alltaf neitad hon-um um minnstu endurnæringu, en þeirri hyggnu gátu þeir þó ecki svipt hann, sem hann naut nú, af því ad hafa fullkomnad sitt medalgaungu embætti á jørdunni. Í þeim bitru ángistar- og qvala tímum, sem hann hingad til útstadid hafdi, var honum þad ecki lítill hugar-styrkur, ad líta fram yfir píslir sínar og fyrisjá fullkomnun þess verks, sem hann hafdi sér uppá-tekid, og sæla endalykt qvala sinna. Sá þánki, ad hañ til þess væri í heiminn kom-inn, ad endaleysa aumstadda syndara, hvarf honum aldrei úr hũga, og þessi þánki gjordi hann viljugann til ad þola dauð-ans grimmustu qvalir. Viss um sigur yfir daudanum, kunni hann nú sig-hrós-andi adfram kominn ad hrópa: þad er fullkomnad! fullendad var gjørvallt augnamid sendíngar hans í heiminn. Á medan hann dvaldi hér á jørdunni, hafdi hann og gjort síns Fødurs vilja trúlega, án þess ad forsoma minnstu skyldu, er eda mætti lucku mannanna. Hann var sendur til ad prédika Evangelíum þeim aumu og fátæku, ad opinbera Guds ráð um mannaña sáluhjálp, og vísa þeim frið-

arins og lifsins veg, hvílikt kapp lagdi hann ecki á þetta allt fram í dandañ! þad var kiærasta ydja hans alla æfi, ad leida menn til yfirbótar og betrunar, ad leita þeirra fortøpudu, ad frelsa þá annu, og afreka gjørvøllum heiminum nád. J þessu starfi hafdi hann eydt kr optum sínum, án þess ad láta nockra mædu, jafnvel ecki krossins qvalir letja sig; nú hafdi hañ þetta starf fullendad, svo ad allt var nú framqvæmt, sem hann gjøra átti, því gát hann sagt: þad er fullkomnad! fullkomnad var þad stora offur, sem hann frambera skyldi til fridþægíngar mannlegu kyni, og hvar ad allar fyrirmindanir og spádómar lotid høfdu; allt hafdi hann þad uppá sig tekid, sem á nockurn hátt tilheyra mátti hans forþénandi hlýdni, ecki hafdi hann sig undanþegid ad lída allt syndarañs straff, sér hafdi hann tilreiknad alla þeirra skuld. Fyrr vildi hann ecki hnegja sitt høfud, enn hann deyja kynni med þeirri fullvissu, ad hann forlíkad hefdi fyrir allt mañkyn, og fullnægt síns fødurs réttlæti. Því gat hann sagt á sínu sídasta lífs stundu augnabliki: þad er fullkomnad! fullkomnud var øll sú pína, er hañ utstanda hlaut til vorra synda

for-

forlíkunar, og sem hann svo margfaldlega og með svo miklum píslum leið, bædi á líkama og sálu. Lengra skyldi nú ecki gánga. hans lífs armæda, né hans órína grimmleiki, hví kuñi hañ eiñig í þessu tilliti adhrópa: Þad er fullkomnad! Þañig mátti vor Jesús ad ordi qveda á siñi sídustu lífsstundu; en ef vér værum nú vorum dauda eins nálægir, mundum vér þá sagt géta med sama trúar-trausti: Þad er fullkomnad? mundum vér med sömu rösemi fá litid til baka til vorra umlidnu daga á vorri dauda-stundu? Þú hefir og, vor fadir! sett ofs fyrir eitt dags-verk ad viña, til þess áttum vér ad brúka krapta vora og allañ vorn lífs-aldur. Þegar þú leiddir ofs iñ í heimiñ, var þad þiñ tilgángur, ad vér skyldum hegda ofs samsvarandi vorn himneska og jardneska kalli. En med blygdun og ángri megum vér líta til þeirra lidnu dagaña, og játa: æ! hvörsu lítid er gjört af því, sem vér gjora áttum. Hvílíkn kappi megum vér þá ecki verja til ad bæta þad, sem forsómad er, ef vér óskum ofs þeirrar gledi í daudanum, er Jesús naut, og máské vér séum honum nú jafn nálægir og Jesús var, þegar hañ hrópadi: Þad er fullkomnad! æ! vér viljum flýta ofs, og brúka hvört

 augna-

augnablikid, sem oss eñ þá nũt verdur til ad fullnægja skyldu vorri. Híngad til hofum vér umhyggjulaust verid fyrir sálu vorri, nú skal sú vera vor ákafasta áhyggja, ad ala oñ fyrir heñar frelsi, híngad til hofum vér odrum hneixli géfid med voru framferdi; nú viljum vér leitast vid ad vera odrum til uppbyggíngar med voru líferni; o! Drottin! þú sjer vorn góda ásetníng, géfdú oss krapta til ad framqvæma hañ; af ollu hjarta oskum vér oss ad mega verda svo ánægdir og hughraustir í daudanum, sem þu varst; en til þess vér gétum ordid þad, þá vyrdstú ad hjálpa oss til ad fullenda vort áqvardada verk; hjálpad oss til ad bera umhyggju fyrir sáluhjálpar vorrar mikilvægu naudsynjum; ecki mun brícslyrdi vanta, sem samvitskan þó megi gjora oss, þegar endiriñ kémur; þó ad vér aldrei hofum svo trúir verid, munum vér þó ecki ad sídur, mega vidurkéña, ad eñ þá séu yfrid margar ávyrdíngar og margur ófullkomlegleikiñ hjá oss eptir, fyrir hvor vér bídja hljotum oss vægdar hjá Gudi; þá mun oss reynast sú huggunin dýrmætust, sem géfur oss þad einúngis uppá ad stóla, ad Jesús hafi allt í vorn stad fullkomnad, og ad hans forþénusta muni hylja allañ vors lífs ó-

full-

fullkomlegleika. Fullvissa sú, ad vor fridþæging er af Jesú fullkomnud, mun þá vardveita oss frá orvhlnun; og þó ad vér í daudanum verdum þá varir nockurs ófullkomlegleika, og margs þess, sem oss var áfátt, þá skal þad þó ecki svipta oss hugarmod. Vér væntum oss af vors Jesú nád þeirrar sæluslu endalyktar. Vér hofum þá trú til hans, ad allt hvad til vorrar sáluhjálpar kañ ad útheimtast, muni í krapti hans fridþægíngar vid oss fullkomnast. Pad er fullkomnad! þetta skal vera qvedja sú, sem vér viljum enda med vora daga. Allt þad, sem í lífinu er ördugt og biturt, mun eitt sin enda taka. Sérhver mæda, sérhvert ördugt strid á móti vidlodandi syndum; sérhvör undirþrycking af orétti og vondsku, sérhvörr biturleiki, sem þetta reynslu-stand útvortis og innvortis var blandad med, er þá eilíflega á enda, og allt þetta egum vér þá þér ad þacka, vor sáluhjálpar fullkomnari!

## 41. Fostu-Hugvekja.

Jesú tilreidsla undir daudann, Lúc. 23.

Híngad til hafdi Jesús ecki nema einstokum sinum rennt þaunkunum til

sîna píſla, alla áhyggjuna hafdi hann borid fyrir ødrum, en nú lyptir hann gjørvøllu hjarta ſinu upp til hans, ſem hann var kominn frá, og til hvørs hann nú aptur fara vildi. Hvørſu lærdómsrík er ecki þeſſi Jeſú adferd fyrir oſs. Einn tími er oſs ſá fyrir hondum, þegar vér burtſlítaſt ntuunm frá ſameinfugu allrá daudlegra eiñig vorra áſtfólgnuſtu vina, þegar heimur þeſſi, med ollu því í honum er, tapa mun í augum vorum ollu því, er oſs finnſt nú girnilegt, á þeſſu ſkilnadar augnabliki viljum vér gæta, ſvo framt vér fáum vidkomid, mannkjærleiks og vinſkapar ſkyldu, vér viljum ſorga fyrir velgengni þeirra, ſem oſs eru áhángandi, og leitaſt vid ad ſtytta þeirra harma, en ollu framar viljum vér ſnúa hjørtum vorum til Guds: Fyrir þann kriſtinn, ſem ferdbúinn er inn í þad betra líf, er allt hvad heimur þeſſi hefir inni ad halda nærſta lítilfjørlegt, til ad fridſtilla og ſtyrkja í daudanum hans hjarta, ecki nema Gud og eilífdin er þad, ſem í daudanum géfid gétur hjartanu ſannanu hugfróa; med hvílíku ſinnislagi géck Jeſús med hugdyrfd og róſemi á móti ſínum dauda.

Hann

Hann vissi ad sinn daudi vera mundi endir allrar sinnar mædu og vegur inní þá eilífu rósemi; viss var hann um þá vegsemd, sem hann fá mundi hjá sínum fødur, ad útstodnum pýslunum. Gladir munum vér einnig sjá daudann adkoma, ef vér gétum verid eins gédi farnir; sá sem þannig er sinnadur, qvedur vid hans adkomu med Skáldinu: kom þú sæll þegar þú vilt! eptirtektaverd má oss vera umhyggja sú, sem Jesús bar fyrir sálu sinni, hann afhendti sinn anda í Fødur sins hendur, þegar hann var ad andláti kominn. Hvad mætti af oss krefja alvarlegri umhyggju, enn þessi vor odaudlega sála? en þad er ecki fyrst þegar daudinn er fyrir dyrunum ad byrja skal þessa umhyggju; í gjørvøllu voru lífi, egum vér ad hugsa fyrir henni; þessi umhyggja fyrir sálu vorri, sær allvel stadist med hvorskyns sýslunum og erfidi, sem vér hafa hljotum fyrir høndum daglega í lífinu; fyrir hvorri annari umhyggju má þó allsjafnt umsorgun fyrir sálunni hafa fyrirúmid hjá oss; munnmæli þau, sem menn svo tídum heyra: eg hefi nú svo lítinn tíma til umhugsunar sálu minni, sídan vil eg rífa mig lausann frá heimsins umsvifum,

sóma

sóma enganveginn kristnum. Lucka er þad, þegar ein manneskja fundid gétur milli-tíd á milli heimsins hávada og daudans þagnar í sínum aldurdómi, ellegar á sóttar-sænginni, til ad losa sig frá heiminum, ad hann brúkad géti þá tídina einúngis til umsorgunar sálu sinni, og til undirbúníngs eilífdinni; en hvad fáir eru þeir, sem verka kunna sína sáluhjálp, ef þeir vilja undandraga verk þetta, þángad til daudans tími kémur. Sé sál vor nockurs verd í augum vorum, þá ætti umsorgunin fyrir henni ad vera vor sérlegasta ydja, er undangánga skyldi hvørri annari. Upplyptú þó, sál mín! eitt sinn þaunkum þínum frá þessu jardarinnar dupti, og vogadú eitt sinn ad fljúga í þaunkunum upp til himinsins, hvar þinn eilífi bústadur vera skal; lærdú í dag ad óska þér þess, ad ásetja þér þad, og útrétta, sem þér sómir; lærdú ad þenkja, ad þinn mikilleiki er þar í fólginn, ad þú sért stór í himnaríki, stór í trú og audmýkt; þinn ríkdómur sé sá, ad þú sért í Gudi rík, og hafir safnad þér audlegdar í himninum; þín lucka þad, ad þú sért sæl fyrir Jesúm og í náð hjá honum, og megir hugga þig vid hans velþócknun. Keppstú eptir þessu! brúkadú

þér

hér til alla eptirlaungun þína og kappsmuni. Vaknadú upp, mín sál! og sjádú þig um kríng, láttú þenna heim, sem blindar þig, ecki dràga þig á tálar, láttú þér í hug koma þinn ódaudlegleika! sjá þinn Gud! hvörsu hann med vidqvæmri miskun hefir til þín þenkt, hvörsu hann frá eilífd hefir elskad þig, og ályktad ad gjöra þig hólpna, sjádú þinn Jesúm! hvörsu hann hefir erfidad, og baríst fyrir þig! og vildir þú þá ecki sjálf gæta þinnar farsældar! vildir þú þá viljandi varpa þér í glötunina! vildir þú gjöra ad engu þíns himneska Födurs elskurika tilgáng og ávöxtinn af þíns Frelsara dauda! nei! af þér, deyjandi Jesú! viljum vér læra þá skyldu öllu framar ad efla vorrar sálar velferd; vér viljum byrja þetta naudsynja verk, ecki þá fyrst, þegar daudans ótti, og grafarinnar ógnan yfirfellur oss, ecki þá fyrst, þegar heimurinn med sínum lystisemdum er ordinn oss vidbjódslegur. Nú þegar, á medan vér enn þá notid gétum lífsins og jardarinnar ánægju, viljum vér befala Gudi vorn anda, og þá munum vér loksins fá ad deyja svo rolegir og sælir, sem vor Jesús!

42. Föstu-

# 42. Fostu-Hugvekja.

Teiknin vid Jesú dauda, Matth 27.

Uppá allann hått finnum vér þad samqvæmt vísdomi Guds, ad hañ vegsamadi síns Sonar dauda med þvílíkum teiknum, sem sannfæra mættu gjørvallann heiminn um þad, ad sá, sem Gydíngar høfdu hér aflífad, væri enginn sakamadur, heldur Guds Sonur, í hvørjum hann hafdi sína velþóknan. Þessir atburdir og teikn høfdu og þegar svo stóra verkun á þeim, sem nærstaddir voru, ad þeir urdu ad fullu sannfærdir um Jesú sakleysi og heilagleika, en látum oss nú skoda atburdi þessa: Fortjaldid í Musterinu, sem adskildi þad heilaga frá því allrahelgasta, rifnadi frá efsta til nedsta. Þetta fortjald var til þess, ad varna inngángs inní þad allrahelgasta. En nú vildi Gud auglýsa sína nád, fyrir Endurlausnarañ, øllu folki; ad fortjaldid rifnadi í sundur vid Jesú dauda, var þar ad auki merki þess, ad sú gjørvalla levítíska Guds þjonusta, væri nú ad øllu leiti upphafin, en nÿ ætti ad taka sína byrjun. Hédan af áttu ecki Prestarnir lengur ad framkoma einir, med bæn og þjónkun fyrir Gud, þá

folk:

fólkid, sem ecki mátti nærri koma, skyldi bidjast fyrir álengdar, heldur átti nú Gud ad dýrkast af einum og sérhvorjum Guds tilbidjara í anda og sannleika án alls ótta, og hans helgidómur øllum opinn standa. Med hvílíkri gledi megum vér ecki móttaka þessari Guds stjórnunar umbreytíngu í sinni kirkju. Nú høfum vér, fyrir trúna á Krist, fríann adgáng til nádarstólsins; vér høfum opinn inngáng í þad allrahelgasta vegna Jesú dauda. Ecki þurfum vér ad óttast fyrir því, burtskúfadir ad verda frá hans augliti, þá vér med hreinskilnu hjarta í trúnni, nálægjum oss hans tróni, því þegar vér ástundum ad þjóna Drottni í heilagleika og réttlæti alla vora lífdaga, þá megum vér hafa þá sælu von á sídan, ad taka hlutdeild í hans dýrd. Sérhvort fortjald, sem oss hefir hér í lífi varnad náqvæmrar sameiníngar vid Gud, mun í daudanum sundur-rífast, og þá munum vér forkláradir, Englunum samlíkir ordnir, eilíflega þjóna Gudi og ásamt þeim vegsama hans nafn. Vid Jesú andlát skalf jordin; med þessum jardskjálfta sýndi Gud, hvílíkur sá madur var, sem dó hér á krossinum, og hvad hans mordíngjar hefdu verdskuldad, ef hann

hefdi

hefdi høndlad vid þá eptir sínu réttlæti. Til þess hefdu þeir unnid, ad jordin svelgdi þá, því þeir høfdu aflífad hinn heilaga og réttláta lífsins Hertoga. En ad jardskjálfti þessi, vard þeim ecki ad skada, þad áttu þeir ad þacka hins krossfesta Jesú fyrirbon, hann hafdi bedid nádar- og umvendunar-tídar mordíngjum sínum. O! hvad opt høfum vér ecki med vorum misgjordum til þess unnid, ad vera af jordunni afmádir. En þíns dauda høfum vér adnotid, Frelsari vor! ad þad ecki er skéd, þín gædska hefir þyrmt oss, og hast umburdarlyndi med oss ohlýdnum sképnum þínum, og géfid oss betrunar-tíd; æ! ad vér géfa vildum gætur ad þinni roddu, sem stundum med straffi, stundum med velgjørníngum leitast vid ad vekja oss, fyrr enn þad augnablikid kom, þegar þar framar einkis frelsis er von. Vid jardskjálfta þennann klofnudu bjørgin, og grafirnar, sem í steini voru úthøggnar, opnudu sig; margir framlidinna heilagra líkamir risu upp, eptir Jesú upprisu, gengu út af grøfunum, og létu sig sjá í Jerúsalem. Þessa atburdi lét Gud ské af vísdomsfullum tilgángi: ad fortjaldid rifnadi, en einkum ad jordin skalf, og ad

bjørg-

bjorgin klofnudu í því Jesús dó, þess máttu allir varir verda, Gydíngar hofdu þad nú fyrir augunum, er vekja mátti þeirra eptirtekt og hræra þá til ad renna þaunkum sínum til hans, er þeir krossfest hofdu. Þeir kristnu, er sáu svo marga heilaga, og máské á medal þeirra kunníngja sína endurlífgada, styrktust þar vid í trúñi um Jesú upprisu; því svo margra heilagra upprisa á þessum tíma, kunni álítast, eins og sígur-teikn Jesú almættis, hvar vid hans upprisu dýrd frá daudum vegsamadist, en þarad auki vóru teikn þessi skír og sannfærandi vottur þess, ad hann nád hefdi fullkomnum sigri yfir daudaunum. Af þessum atburdum, máttu þeir kristnu nærri géta hvørsu voldugur þeirra Frelsari væri, og hvad audveldt honum vera mundi ad sigra sína og þeirra ovini. Þessi teikn vóru lifandi afmálun þess, sem Jesús gjøra mun í hinni almeñilegu upprisu á sídasta degi, vid alla þá, sem sofa í jardarinnar skauti, þá mun hann nidurfara af himni, vegleiddur af oteljandi þúsundum sinna heiløgu Engla, umkríngdur almættinu, og skrýddur fegurd þvílíkri, er enginn sær ígégn sjed; med sterkum jardskjalfta mun hann gjørvallann heim-

inn hrista, kljúfa bjorgin og opna grafir allra Adams barna. Ecki einúngis grafirnar í kríngum Jerúsalem, heldur og allra stada grafir munu þá í skyndíngu opnast, og þeirra líkamir, sem sváfu í þeim, vekjast af sínum lánga og djúpa svefni. Þá munum vér, eptir upprísunâ, inngánga í þá nýju Jerúsalem í Guds stad, sem kémur frá himnum, og samansafnast med þeim, sem ásamt oss sofid høfdu í jørdunni, þá munum vér þeckja hverjir adra, og mæta hvørr ødrum, sem vinir; þá munum vér fá ad sjá og þeckja gjørr Guds miklu og vegsamlegu gjørníngа, sem hér í heimi voru oss ofhá-r ad útgrunda; þar munum vér sjá voru Jesúm eins og hann er, ecki eins og hann var í sinni nidurlægíngu hér á jørdunni, heldur í sinni forklárudu mind, sem allsherjar Gud! hvílík rósemi, huggun og von má því ecki vera hjarta voru hér í heiminum, ad hugsa til upprísunnar! þér þøckum vér fyrir þad, o! lífsins Hertogi! ad þú svipt hefir daudann sinni makt, og rænt grøfina sínu herfángi; þér þøckum vér þá sælu von, sem gledur sífeldt hjarta vort, ad vér egum í vændum fagnadar-sæla sameiníngu med þér, og øllum vorum brædrum í himninum. 43. Føstu-

# 43. Føstu-Hugvekja.

Verkanir þessara teikna á þeim nálægu, Matth. 27.

Hvørr skyldi hafa sied gétad, án þèss ad vikna vid þvilíka atburdi, sem skédu vid Jesú andlát; ef vér hefdum til stadar verid vid þessa saklausa Jesú dauda, og horst uppa þau teikn, sem skédu vid hans andlát, mundi oss hafa næsta brugdid vid. Hvad hefdi þá mátt aptra oss frá, ad játa oss opinberlega þessa Jesú lærisveina og leida adra til ad verda þad? en, þeckjum vér oss og rétt? margskonar fólk heyrum vér stadid hafa vid Jesú kross; nockrir stódu þar med grimdar huga, en fleiri máské fyrir forvitnis sakir; færri voru hinir, sem af elsku til hans, og af medlídun med honum, bidu þar hans andláts, og varla nockurr einn, sem gjørdi sér rétta þánka um hans dauda. J hvørjum hopnum mundum vér hafa stadar numid? víst ecki á medal Jesú grimdarfullu qvalara, né hinna Skriftlærdu og Oldúngalýdsins, sem soddu nú hefndargirni sína hjá hans krossi; en hvørt vér hefdum ecki leitad hins hopsins, sem var vid hans líflát af forvitni; hvørt vér vid hans kross fund-

id hefdum meir enn einbera medlídun í hjarta voru, frá hvorri madur jafnvel ecki fær haldid sér vid aftöku hinna stærstu íll-gjörda-manna, þad er spursmálid, sem vér traudlega munum géta leyst úr. Vér þurfum einúngis ad grenslast eptir, hvada sinnis hræríngar vakna í sálu vorri þá vér í einrúmi hugleidum Jesú pínu og dauda, þá sáum vér þaraf gétid oss til þeirrar tilfinníngar, sem vér mundum haft hafa, hefdum vér í egin persónu nálægir verid hans lífláti. Hefir Jesú pína ebluga og ávaxtarsama verkun í hjarta voru í hvört sinn, vér hugsum um hana? vidurkénnum vér verd hans kjærleika, og mikilvægi alls þess, er hann hefir fyrir oss gjört og lidid? þenkjum vér med ángri og vidbjód til synda vorra, sem ollad hafa Lausnara vorum svo mikillar mædu? metum vér þad frelsi, sem hann hefir oss afrekad þess, er þad verdskuldar? vildum vér viljugir af kjærleika til Jesúm, og af þacklæti fyrir hans pínu, þola þær þjáníngar, er hann vildi oss á herdar leggja? er þad vor kjærasta ydja og yndi ad hugsa um píslir hans? metum vér ávoxtinn hans pínu meir enn alls heims andæsi og alla jardneska muni? med einlægri hreinskilni viljum vér prófa hjarta

hjarta vort. Ecki erum vèr ad ølluleiti svo tilfinníngarlausir, ad vèr eckert komnumst vid, þá vèr hugleidum Jesú pínu, þá vèr lesum hans píslar-søgu, edur heyrum um hana talad. Svo mørg tár, sem oss renna af augunum, svo margar andvarpanir, sem uppstiga af voru brjósti, sannfæra oss um þad, ad enn þá sè ecki sál vorri horfin øll rádvendnis tilfinníng. En vèr høfum híngad til merkt, ad þessi tár audveldlega afþurkast, ad þessar andvarpanir snarlega hverfa, svo fljótt, sem vèr gánngum út úr Guds húsi, edur úr einrúmi úti heimsins soll og umgáng. Vèr vidurkénnum Jesú kjærleika, hvørsu mikils hañ er verdur, og vèr sjáum, hvørsu mikid hañ gjørt hefir fyrir vora skuld, ad hann fengi oss frelsada frá vorum eymdum; en hvad lítid høfum vèr fyrir hann gjørt? vèr vitum, ad syndir vorar hafa ollad høfum erfidis og vorar misgjørdir mædu, og þó høfum vèr svo lítinn vidbjód á þeim haft; sú drottnandi tilhnegíng til forgengilegra lystisemda gjørir oss þá hrigd ógèdfelda, sem Jesú pínu verdug umþenkíng vekja skal í því hjarta, sem vill elska hann. Vor umsvif og margfoldu sýslanir olla því, ad þær hugleidíngar Jesú písla, um stærd

 þeirra

þeirra og fjølda, er hvad helst ættu ad hræra oss, gjøra enga, edur ecki nema mjøg litla verkun á hjarta voru. O vor Gud! þú, sem ert vor fadir í Kristi Jesú! líttú til vor, aumra manna! sem hugleida viljum þíns sonar pínu. Hrærdú vor hjørtu svo opt, sem vér íhugum þann sannleika, sem inniheldur alla vora hugg-un! o! þú nádarríki Jesú! snú þú øllum vorum þaunkum, tilhnegíngum og eptir-laungun til þín og þíns kross ávaxtar, verí þad vor vísdómur, vor ánægja, vor hugg-an, ad vera þess fulltrúa, ad þú sért fyrir oss dáinn.

# 44. Føstu-Hugvekja.

Vísdómsfull rádstafan Guds vid Jesú greftrun, Matth. 27.

Jesú gjørvallt líf hér á jørdunni, má med réttu heita vidvarandi mædu- og motlætínga-strid; jafnskjótt og hann kom í heiminn, byrjudust þjáníngar hans og jukust smámsaman því meir, sem hon-um jókst aldur, þar til þær nádu lokssins sín-um fulla mælir í grasgardinum Gethse-mane og á fjallinu Golgatha, enda skyl-du þær þá og, eptir Guds vísa rádi, enda taka,

taka, þegar hañ hafdi lifandi, lídandi og deyjandi allt þad fullkomnad, er hañ, svo sem kénnari, fyrirmyndan og Frelsari mannkynsins útrétta átti í heiminum, því hrópadi hañ sjálfur af krossinum: Þad er fullkomnad! rétt ádur eñ hann afhendti sinn anda í födursins hönd, og hneigadi sitt andvana höfud; gröfin, sem hann var nú lagdur í, átti, eptir Guds alvísa rádi, ad verda honum til vegs og vyrdíngar. Eptir Jesú óvina vondskufulla tilgángi, átti þessi, í lífinu, svo offókti og til dauda qvaldi mannvinur, einnig hádúngum ad mæta í gröfinni. Hjá Rómverjum var sú sidvenja, ad líkamir hinna krossfestu skyldu á krossinum hánga, þar til þeir uppetnir væru af fuglum og villudýrum, en þessi Heidíngjanna grimdarfullt módur, var Gydíngum bannadur í Lögmálinu, sem baud: ad líkamir þeirra upphengdu, skyldu iñan sólarlags nidurtakast og jardast. Eptir þessum lögum hlaut því Jesú andvana líkami, ásamt spillvirkjaña, er med honum vóru krossfestir, ad takast nidur af krossinum samdægurs og grafast, en smánarleg gröf hefir honum, eins og hinum krossfestu, efalaust af hans óvinum ætlud verid, því vanalega var þvílík-

um sakamönnum kastad? i grysiu eina, sem gjörd var þar þeir vóru krossfestir, og hvørnig munu þeir fáu Jesú vinir, sem enn þá bidu vid krossinn, vogad hafa ad vænta þessum sínum andada ástvin heidurlegri greftrunar, enn þeir fengu, sem med sama hádunglegum daud-daga vóru af lífi teknir! en forsjón Guds, sem svo audsjáanlega stjórnad hafdi, jafnvel sérhvörju hinu minnsta tilfelli lífs hans, féck áúdveldlega afstýrt þessari vanvyrdu frá hans andvana líkama. Gydíngar hefdu ætlad honum sakamanna hádunglegann greftrunar-stad, en Gud hafdi ályktad og látid einn sinn Spámann þad laungu ádur fyrirsegja, ad hann hvíla skyldi í vyrduglegri gröf eins ríkismanns; og hvørsu dýrdlega sjáum vér nú Guds forsjón framqvæmia þetta sitt ráð? einn af sjálfra Gydínganna ríku og mektugu Rádherrum, Joseph af Arimathía, er þeckt hefir Jesú dýrmætu ke.níngar og hans voldugu gjörnínga, og sjed, þó hann fengi ecki varnad því, hvørsu Jesus eldúngis saklaus var ránglega til dauda dæmdur; hann vill nú sýna þann heidur á hans andvana líkama, sem hann hefir ecki gétad sýnt honum sjálfum lifandi. Hann vogar ad láta sjálfann

Lands-

Landsdómarañ, sem yfir Jesú hafði uppsagt hann ránglátá dauda-dóm, sjá þessa þánká sína, med því sjálfur ad gánga til Landsdómarans og beidást af honum, ad þessa Jesú líkami mætti adskiljast frá sakamanna líkømunum og þeirra legstad, eñ afhendast sér til heidurlegrar greftrunar, og þegar hann hefir loford fengid fyrir því, ad sér skyldi hans líkami afhendast, fer hann sjálfur og tekur vid honum og veitir þessum af siñi þjod svó hatada, misþyrmda og fram í daudann foraktada manns líkama í allra augsýn svo byrduglegann umbúñad, sem vid mikilsháttar menn var brúkadur, leggur þennann sídan, sem hvorki eptir Gydínga né Rómverja løguñ njota mátti ærlegrar greftrunar, í sína egin í steini nýhøggna grof, hvar hann ætladi sjálfum sér og ættfólki sinn legstad. Þessi Jósephs ástúdlega umhyggja fyrir líkama Jesú sýnir, hvørsu viss hann verid hefir um Jesú sakleysi. Af því ad Landsdómariñ Pilatus leyfdi, ad Joseph fá mætti líkamann Jesú, er audsætt, ad hann var enn þá somu meiníngar um Jesú sakleysi, og hann hafdi margsinnis játad, ádur enn hann dæmdi hann til dauda, því annars hefdi hañ eckt

géfid leyfi til, ad líkami hans andvana mætti annarar greftrunar njóta, eñ sakamönnum var, eptir lögunum, áqvördud. Óvinir Jesú, sem heyrt höfdu hans fyrirsögn um upprisu sína, létust bera ótta fyri því, ad hans lærisveinar kynnu einhvör brögd í frammi hafa til ad ná líkamanum, og iñbyrla sídan fólkinu, ad hañ væri upprisinn, en til ad taka, í því efni, öll tvímæli af, og hindra alla pretta vidburdi lærisveinanna, beidast þeir stríds-manna vardhalds yfir grofinni. Stórum steini var vellt ad grafar-munnanum, fyrir hvörn þeir settu innsigli sín, og yfir gröfinni, þannig geymdri, vöktu sídan vopnadir stríds-menn. Nú var svo viturlega fyrir því sjed, sem mögulegt var, ad nockur brögd yrdu hér vid í frañi höfd; almeñingur sá og vissi, ad Jesú líkami var andvana í gröfina lagdur, og ad yfir henni vöktu rómverskir strídsmeñ, án hvörra vitundar líkami Jesú med engu móti gat á burt horfid; enda hlutu nú og þessir heidnu strídsmeñ, Jesú óvina áhángendur, sjálfir ad verda sjónar-vottar og fyrstu vitni ad Jesú upprisu, á móti sínum eginn vilja og hans óvina tilgángi, eins og öll sú umhyggja, sem þeir báru fyrir því, ad

vard-

vardveita svo varlega hans líkama, vard sterkasti vottur hans uppríſu, og allar mótſagnir gégn heñi ad engu gjørdar. Vér ſjáum hér af, hvorſu Guds víſa rád veit, ecki einúngis ad gjøra ad engu ráda-brugg hiña ógudlegu, heldur og, hvorſu víſdómslega hañ ſtjórnar þeirra vondu fyrirtækjum, þvert á móti tilgángi þeirra og vilja, til framqvæmdar ſinu áſetta rádi. Hvad óhultur máttu nú ecki vera, trúadi, rádvandi kriſtni! þó þú mætir offóknum og ágángi hiña ógudlegu, þó gjørvallur heimuriñ gjøri ſamtøk á móti þér, og hafi álykt ad þiñ undirgáng, med þeim ſlóttuguſtu vélabrøgdum, Gud þiñ, ſem þú trúir fyrir þér og þínu rádi, géfur gætur ad þér, ecki jafnvel fá þeir ſkérdt eitt hár á høfdi þínu án hans vilja, lengra eñ hann leyfir þeim, komaſt þeir ecki, af þeim vélabrøgdum, ſem þeir ſamantviñudu þér til falls, veit hann ad ſkapa þér uppreiſn, og þvert á móti vilja ſinum og vitund, hljóta þeir lokſins, ſem ætludu þér íllt, ad verda verkfæri til luckn þinnar. Eilíflega vegſamad ſé þitt víſa rád og ſtjórnan, alvíſi Gud! þú, ſem gjørir ad heimſku ſvo tídum rád hinna víſu, og verndar fyrir heimſins hreckja tálſnorum þá frómu og einfoldu,

ſtyrktú

styrktu oss í þeirri trú, ad þegar vér treyst-um þér, elskum þig og óttumst, þurfum vér ecki ad óttast mennina, ad allt vort rád og efni séu þañig undir þinni dásam-legu stjórnun innilukt, ad oss eckert megi granda, þú munir leida oss þannig eptir þinn alvísa rádi, ad vér loksins berum úr býtum himinsins eilífu farsæld.

## 45. Föstu-Hugvekja.

Jesú grøf, Lúc. 24.

Loksins naut þá Jesú sárpíndi og ør-þreytti líkami rólegrar hvíldar í grøf-iñi, eptir lángt og strángt stríd á jørduñi; líkfylgdin, sem tignadi hans jardarfør, vóru fáar konur, sem hørmudu af heilum hug missir þessa síns besta ástvinar og vel-gjørara; látum oss nú fylgjast med þessum gódu konum og stadnæmast med þeim eitt augnablik vid Jesú legstad. Ef ad sér-hvørs andvana grøf má vera oss at-hugandi, hvad miklu framar skyldi þá ecki vors Endurlausnara legstadur vekja oss til eptirþánka, hvad er náttúrlegra eñ oss hvarfli sá þánki í hug, þegar vér sjáum eins framlidins grøf: eptir fáein ár edur máské daga, verdur þinn líkami einnig

nid-

nidurlagdur í hvílíka gröf, þar mun þetta styrdnada hold, og þetta storknada blód, sem þú elur nú svo umhyggjusamlega og fostrar, verda ormanna fæda, þar mun þessi meistaralega líkamans bygging lid fyrir lid og bein fyrir bein sundurleysast, loksins verdur þar eckért framar meir sjáanlegt af þessum líkama, beinin jafnvel for-rotnud verda aptur ad moldu og dupti, og samblandast jördunni, þessi fyrir höndum verandi sjáanlegu kjör þess mannlega líkama, sem reynslan sannar ad enginn fær umflúid, vekur ecki litla hrylling fyrir þeirri dymmu gröf í vorju hjarta. Þó ad vér vitum þad víst, ad sérhvör manneskja fædist í heim þennann med þeim skildaga einusinni ad deyja, og ad enginn fái sig frá daudanum frikeypt-ann, þá er þó elskan til lífsins svo djúpt innrætt því mannlega hjarta, ad náttúra vor ber sífellt nockurn ótta fyrir daudanum, og strídir á moti honum í lengstu lög; og þennann ótta auka ecki litid umskipti þau og afdrif, er vér fyrisjáum ad þessum kjæra líkama vorum mæta ega í þeirri vidbjódslegu gröf, hvad til hins, ad þessi for-rotnadi og fyrir vorum sjónum fortærdi líkami, skuli aptur endurlifna, grisst-

ir alls ecki mannlega ſkynſemi, jafnvel margir hinir vlſuſtu, ſem af náttúruſpek-iñar rokſemdum gátu ſér til, ad í þeſſum líkama byggi ſkynſemdarfull ſála, vóru efablandnir um þad, hvört hún mundi lifa eptir þad líkaminn var daudur, og logduſt ſjálfir í grof ſína í þeſſari óviſſu. En, lofadur veri Gud! ſem fyrir ſinn Son Jeſúm, er í Jóſephs úthoggnu ſteinþró lagdur var lídinn, hefir lífid og ódaudleg-leikann í ljós leidt. Hans dýrmæta lær-dómi egum vér ad þacka þad, ad vér vitum nú ljóſar, heldur enn þeir vitruſtu heims-ſpekíngar nockurntíma fengu ſér í hug leidt, hvad um hagi vora lída mun eptir þad vér erum í grofina nidurlagdir. Jeſ-ús hefir kennt oſs, ad í líkama vorum búi ſu ſál, ſem ódaudleg ſé, og þó líkaminn deyi, rotni og verdi ad dupti, muni ſálar-innar líf þó aldrei þrjóta, ad þeſſu nálæga ſtutta lífi á jordunni endudu, ſé fyrir hond-um endalaus eilífd, í hvorri ſálin taka ſkuli umbun athafna þeirra, ſem hún í þeſſu lífi framid hafdi, hún ſkuli þar uppſkéra eins og hún ſádi hér, þad er: hreppa þar eilífit endurgjald dygda ſiña, en hegníngu laſtaña. Líkamiñ jafnvel, keñir Frelſar-iñ oſs, ad egi fyrir hondum, fyrir hans al-mætt-

mættis krapt, ad lifna aptur og standa upp af grøf sinni, og skuli sídan endurlifnadur og þadanaf óforgengilegur taka eilíflega hlutdeild í þeim kjørum, sem sálin hafdi hlotid. Þennan gledirika lærdóm stadfesti Jesús á sínum hérvistar døgum med guddomlegum kraptaverkum, þá hann med einu ordi læknadi bædi nálægur og fjærverandi þá hættulegustu sjúkdóma, sem sønnudu hans guddómlegu sendíngu; hann sýndi, med því ad kalla sjálfur þá framlidnu til lífsins aptur, jafnvel þann, sem tekinn var til ad rotna í grøfinni; med þessu sýndi hann, ad gudlegum krapti var þad ecki um megn, ad uppvekja, á sínum ákvardada tíma, þá daudu af grøfunum. Loksins innsigladi hann þennann og allann sinn guddómlega lærdóm med sinni egin upprisu. Þessi Jesús, hvørs andvana líkami lagdur var nú í grøfina, tok á þridja degi aptur sitt líf, eins og hann fyrisagt hafdi, ádur enn hann var til fángà tekinn, og uppreis, sem voldugur daudans sigrari, af grøf sinni. Nú má oss hverfa allur qvídi, fyrir øllu því, sem ádur mátti náttúrlega skélfa oss. Ovaranlegleiki og óvissa lífs þessa þarf nú ecki ad auka oss nockra óróssemi, hvønær sem líf

vort

vort endast, vitum vér nú ad vidtekur betra líf, ef ad vér ástundum ad gjöra oss þess verduga á medan vér lifum; daudañ, sem oss var svo óttalegur, álítum vér nú, sem inngáng til betra lífs og grøfina svosem svefnhús, í hvørju líkami vor skal um stund hvíld taka eptir útstadid mædusamt dags erfidi, og þadañ ad upprísu dags morguninum aptur uppvakna til stærri gledi og vegsemdar, enn vér ádur þeckt høfdum; hvørsu sem líkami vor fortærist í jørdunni, trúum vér ad almætti hans, sem af grøfinni uppvakti Jesú andvana líkama, muni ecki um megn, ad sameina verulega parta vors for-rotnada líkama og géfa þeim líf. Í þessari trú gaungum vér óhræddir daudanum á móti, og undirtøkum vid hans adkomu trúar-øruggir med Postulanum Páli: daudi! hvar er þiñ broddur? grøf! hvar er þinn sigur? Gudi sén þackir, sem oss hefir sigurinn géfid, fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist!